# HIÐ ÍSLENSKA BÓKMENNTAFJELAG 1816—1916

# MINNINGARRIT

L.Icel.
I825

HIÐ ÍSLENSKA

# BÓKMENNTAFJELAG

1816—1916

## MINNINGARRIT
### ALDARAFMÆLISINS
15. ÁGÚST 1916



14.2396
26/4/17

REYKJAVÍK 1916

# Inngangsorð.

Saga hins íslenska Bókmenntafjelags um fyrstu fimmtíu árin er rakin mjög rækilega af Jóni Sigurðssyni í riti því, sem fjelagið gaf út í minningu fimmtugsafmælis sins (Hið íslenska Bókmenntafjelag. Stofnan fjelagsins og athafnir fyrstu fimmtíu árin, 1816—1866. Kaupmannahöfn, 1867). Hefði því ef til vill mátt nægja í þessu riti að rekja sögu fjelagsins um síðustu fimmtíu árin, en vísa að eins til hins fyrra minningarrits um sögu fyrstu fimmtíu áranna. Samt sem áður virðist það óumflýjanlegt nú á aldarafmæli fjelagsins að líta aftur í tímann yfir alla ævi þess frá upphafi og eigi að eins yfir síðara helming ævinnar. Svo ber og þess að gæta, að saga síðari fimmtíu áranna hvílir á sögu hinna fyrri og verður ekki með neinu móti slitin frá henni, því að árið 1866 markar alls ekki nein tímamót í sögu fjelagsins. Auk þess er fimmtíu ára minningarritið nú í fárra höndum, svo að vér vonum, að flestir muni taka því með þökkum, að mikið af efni þess hefir verið tekið upp í yfirlit það, sem hjer fer á eftir. Höf. þessa yfirlits hefir að sjálfsögðu haft góðan stuðning af 50 ára minningarritinu, svo langt sem það nær, og sumstaðar tekið úr því orðrjetta kafla. En jafnan hefir hann þó haft hliðsjón af frumheimildunum, sem flestar eru í skjalasafni Bókmenntafjelagsins, fundarbækur, brjefabækur og önnur þvílík skilríki.

---

# I. Stofnun fjelagsins.

R. K. Rask og Árni Helgason.

Haustið 1813 kom hingað til lands *Rasmús Kristján Rask*, er síðar varð heimsfrægur málfræðingur. Hann kom hingað til þess að rannsaka íslenska tungu og dvaldist hjer tvö ár. Fyrra veturinn dvaldist hann að mestu á Reynivöllum í Kjós hjá síra *Árna Helgasyni*, er þá var þar prestur, en síðar í Görðum. Munu þeir Rask hafa verið kunnugir frá því, að síra Árni var að námi við háskólann, en hann var þá mjög nýorðinn prestur, er þetta var, en Rask hændist snemma að Íslendingum þeim, er nám stunduðu í Kaupmannahöfn, og lagði lag við þá, meðan hann var sjálfur að námi þar, og hjelt alla ævi óslitinni tryggð til Íslands og íslenskrar tungu.

Síra Árni Helgason hafði verið námsmaður með afbrigðum, var fræðimaður, áhugasamur og fylginn sjer í öllu, er hann tók sjer fyrir hendur. Þenna vetur (1813—14), er Rask dvaldist á Reynivöllum, barst það í tal með þeim síra Árna að bindast samtökum um að koma á fót fjelagi til þess að efla og styðja íslenskar bókmenntir og tungu. Réðst þetta með þeim. Síðan ferðaðist Rask um sumarið um landið og átti þá tal við marga um stofnun fjelagsins og hjet á menn að styrkja það; varð honum vel ágengt, og hjetu margir tillögum til fjelagsins. Næsta vetur sat Rask enn hjá síra Árna, en ferðaðist um sumarið vestur um land og hjelt enn uppteknum hætti, eggjaði menn til þess að styrkja fjelagið, og varð enn vel ágengt.

Eftir þetta varð það að ráði með þeim Rask og síra Árna, að tvær fjelagsdeildir skyldu stofnaðar, önnur í Reykjavík, hin í Kaupmannahöfn, og skyldi Reykjavíkurdeildin vera aðaldeildin. Fyrir tilmæli Rasks tók síra Árni að sjer forstöðu fyrir hinni fyrirhuguðu fjelagsdeild í Reykjavík, en

með honum settust í stjórnina þeir bræður *Sigurður Thorgrímsen*, landfógeti, og *Halldór Thorgrímsen*, sýslumaður, stjúpsynir *Geirs* byskups *Vídalíns*, sem einnig var hlynntur stofnun fjelagsins og studdi það á margan veg. Kennarar við Bessastaðaskóla voru og í ráðum um fjelagsstofnunina, og flesta merka menn á landinu hafði Rask dregið til fylgis við fjelagið, þá er menntamenn töldust.

**Afstaða við Landsuppfræðingarfjelagið.** Það kann í fyrstu að þykja undarlegt, að Rask skuli ekki hafa þegar leitað bandalags við þann mann, er mestur skörungur var á Íslandi um þessar mundir og mest ljet til sín taka í menntamálum, þann mann, sem hafði umráð prentsmiðju landsins, *Magnús* justitiarius *Stephensen*, er þá bjó að Innra-Hólmi. Ekki kann eg það að segja, hvort Rask æskti bandalags við Magnús, en kom hann að Innra-Hólmi í ferðum sínum. Líklega mun það hafa aftrað bandalaginu, að Magnús veitti þá forstöðu fjelagi því, er *Landsuppfræðingarfjelagið* var nefnt og þeir frændur höfðu stofnað 1796. Hafði það fjelag riðið hart úr hlaði; gaf það fyrst út *Kvöldvökur Hannesar* byskups *Finnssonar*, og þótti sú bók ágæt, en smám saman dofnuðu framkvæmdir fjelagsins, uns svo kom, að það mátti heita dautt. Bókaútgáfa Magnúsar varð aldrei vinsæl með alþýðu; rithöfundum þótti hann ráðríkur og þó lítt þjóðlegur í ritthætti og meðferð málsins. Mun nú hvort tveggja, að Rask hefir ekki litist það líklegt til vinsælda fjelagsstofnuninni að gera bandalag við Magnús, en hins vegar mun Magnús hafa þótst sjá, að hið nýja fjelag mundi reynast ofjarl Landsuppfræðingarfjelaginu, sem honum hefir sjálfsagt verið annt um. En hvernig sem því er háttað, þá er það víst, að Magnús var ekki riðinn við stofnun fjelagsins nje stjórn þess á nokkurn hátt. Samt hjet hann fjelaginu tillagi og galt það æ, meðan hann lifði, og er það allrausnarlega úti látið. Annars hefir prófessor Björn M. Ólsen gert nánari grein fyrir afstöðu Magnúsar Stephensens til Bókmenntafjelagsins í riti sínu: Minningarrit aldarafmælis Rasks, Rvík 1888 (sjá bls. 20).

**Boðsbrjef og undirtektir.** Síðara sumarið, sem Rask var hjer á landi, sendi hann boðsbrjef um Reykjavík og næstu sveitir og skoraði á menn að skrifa sig fyrir tillögum til hins fyrirhugaða fjelags. Jafnframt fekk hann Geir byskup til þess að skrifa prófköstum umburðarbrjef um sama efni og

skora á presta að gefa tillög til fjelagsins og fá aðra til þess að ganga í það. Gerði byskup þetta og ritaði prófóstum rækilegt brjef til meðmæla fjelaginu og tók þar upp í boðsbrjef Rasks; eru þau brjef bæði prentuð sem fylgiskjöl með fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Jón Sigurðsson hefir ekki haft við höndina eiginhandarrit Rasks að þessu boðsbrjefi og því farið eftir ófullkomnu eftirriti, en nú hafa fundist þrjú samrit af þessu boðsbrjefi, öll með hendi Rasks, og er hjer nú prentuð mynd af einu þeirra og fylgir þessu riti.

Með því að eiginhandarboðsbrjef Rasks, sem gekk um Reykjavík og næstu sveitir, er ekki í fimmtíu ára minningarritinu, er þar og eigi skrá um tillagsmenn sams konar sem fylgir boðsbrjefinu, er Rask ljet síðar ganga um Kaupmannahöfn. Því skulu þeir hjer upp taldir, er á Reykjavíkur-boðsbrjefinu standa:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Geir Vídalín, byskup, lofar | 20 | rbd. | silfurverðs |
| Bjarni Thorarensen, assessor, | 10 | — | —— |
| Sigurður Thorgrimsen, landfógeti, | 16 | — | í silfri |
| Halldór Thorgrimsen, sýslumaður, | 5 | — | - — |
| Ísleifur Einarsson, assessor, | 10 | — | silfurverðs |
| Jón Jónsson, konstit. lector, | 8 | — | —— |
| Jón Johnsen, konstit. Lærer, | 5 | — | —— |
| H. Scheving — — | 5 | — | —— |
| B. Sivertsen, riddari og kaupmaður, | 20 | — | —— |
| B. Stephensen, jústitssekreteri, | 5 | — | —— |
| L. Knudsen, Kiöbmand, | 15 | — | —— |
| G. Simonsen, do. | 15 | — | —— |
| O. Sandholt, factor, | 5 | — | —— |
| J. Asmundsen, do. | 3 | — | —— |
| Biering, do. | 5 | — | —— |
| Mohr, do. | 5 | — | —— |
| Möller, Kiöbmand, | 10 | — | —— |
| E. Johnsen, Assistent, | 5 | — | —— |
| S. Hanssen, Factor, | 5 | — | —— |
| Á. Helgason, prestur, | 5 | — | —— |
| Páll Jónsson á Vatni, klausturhaldari, | 4 | — | í silfri |
| M. Stephensen, Conferensraad, | 10 | — | (S. V.?) |
| Gullsmiður Th. Thomsen | 2 | — | n[afn]verðs |

Auk þessara eru undirskrifaðir S. Sivertsen og Páll Pálsson, stúdent á Vatni, en tilgreina ekki tillagsupphæð. Á þessu boðsbrjefi hafði þannig tekist að fá menn til þess að lofa tillögum fyrir samtals 168 rbd. silfurverðs og 25 rd. í silfri, og er þessari upphæð heitið af öllum árlega, meðan þeir lifa; er þetta ekki lítil upphæð, en vitanlega er þetta boðsbrjef lang-tillagamest allra boðsbrjefanna hjer á landi. Þetta boðsbrjef er ódagsett, en líklega er það skrifað 28. febrúar 1815; að minnsta kosti er sú dagsetning á öðru boðsbrjefi með eiginhendi Rasks, því er gengið hefir suður með sjó.

Yfirleitt var fjelagshugmyndinni vel tekið, enda hafði Rask áður bundið menn til tillaga á ferðum sínum; var þá svo komið, að víst mátti telja, að fjelagið næði að komast á fót hjer á landi.

Haustið 1815 fór Rask alfarinn hjeðan af landi. Kom hann í þeirri för við í Edinborg og dvaldist þar nokkurar vikur. Kynntist hann þar ýmsum merkum Englendingum og Skotum og bar fram meðmæli sín fyrir hið íslenska fjelag. Ritaði hann þessum mönnum brjef um fjelagið, og er það dagsett í Leith 21. september 1815; það er á ensku og prentað í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins meðal fylgiskjalanna. Mun þetta brjef vafalaust hafa leitt til styrks þess, er fjelaginu kom frá sumum mönnum í Bretlandi, sem síðar mun vikið að.

En er Rask var kominn til Kaupmannahafnar, tók hann við bókavarðarembætti við bókasafn háskólans, því er honum hafði verið veitt, meðan hann var hjer á landi (1814), en jafnframt hjelt hann áfram sömu umræðum við kunningja sína í Kaupmannahöfn og skýrði þeim frá, hvað afrekast hafði um fjelagsstofnunina hjerlendis. En á nýársdag 1816 ljet hann út ganga boðsbrjef til Íslendinga og vina Íslands í Kaupmannahöfn og skoraði á þá að styrkja fjelagið, og ef svo margir yrðu styrktarmenn fjelagsins, að önnur deild fjelagsins yrði stofnsett, þá mundi hann kveðja þá saman til fundar í þessu skyni. Á boðsbrjef þetta rituðu nöfn sín og hjetu tillagi 33 Íslendingar af öllum stjettum, og nam tillagaupphæðin samtals um 230 rd. í silfri árlega; en þar að auki hjet öðlingurinn Byrgir háskólakennari Thorlacius, sem taldi sig í hóp Íslendinga og jafnan hlynnti að þeim, auk 15 rd. árlega, að gefa fjelaginu 100 rd., ef það vildi gefa út Sturlungu eða annað fornrit óprentað, og skyldi það tillag haldast, meðan

sú útgáfa stæði. Auk þess hjetu og ýmsir höfðingjar eftir sjerstökum tilmælum Rasks stórgjöfum, og verður þeirra síðar minnst í þessu riti. Þetta boðsbrjef Rasks er prentað í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins meðal fylgiskjalanna.

**Kaupmannahafnar-fjelagið.** Þessi árangur mátti heita mjög góður, enda stefndi Rask nú til fundar, og var samkoma haldin í stofu háskólabókasafnsins, er þá var í Sívalaturni[1]). Á þessum fundi, sem haldinn var **30. dag marsmánaðar 1816**, komu saman 33 menn, og var þá samþykkt að stofna fjelagsdeild í Kaupmannahöfn að dæmi hinnar, sem Rask skýrði frá, að í undirbúningi væri í Reykjavík eða jafnvel þegar stofnuð. Kom mönnum þá saman um að kjósa þegar stjórn, forseta, fjehirði og skrifara, og var svo gert og til forseta kjörinn *Rask,* til fjehirðis *Grímur Jónsson,* síðar amtmaður, og til skrifara *Finnur* háskólakennari *Magnússon.* En ekki var þó þessi fundur bókaður sjerstaklega, heldur er aðgerða hans getið í fundargerð næsta fundar á eftir, sem var laugardaginn fyrir páska, þann 13. apríl 1816, og er sú fundargerð prentuð meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Á þeim fundi var lagt fram lagafrumvarp, sem Rask hafði samið, og það lögtekið til bráðabirgða, sem þurfti til þess, að fjelagið gæti tekið til starfa, en þeim ákvæðum frestað, er lutu að sambandi Hafnarfjelagsins við fjelagið á Íslandi, og er Hafnarfjelagið í fundargerðinni 13. apríl 1816 kallað *„hið íslenska fjelag í Kaupmannahöfn“* og talið stofnað »eftir dæmi eins *annars* [fjelags], er í fyrra var höfðað á Íslandi og *hefir sinn eiginlega aðsetursstað í Reykjavík“.* Fyrst um sinn er því hjer um tvö fjelög að ræða, sem ætla sjer að taka höndum saman og mynda eitt fjelag, af því að markmið þeirra beggja var hið sama. Á fundinum 13. apríl voru og kosnir varaembættismenn í fyrsta sinn eða aukaembættismenn, eins og þeir voru nefndir í fjelaginu framan af. Voru þeir þessir: Varaforseti *Bjarni Thorsteinson,* síðar amtmaður, varafjehirðir

---

1) Fundarstaða er sjaldan getið í fundarbókunum. Framan af munu fundir deildarinnar í Kaupmannahöfn hafa verið haldnir í Sívalaturni (Rundetaarn), en síðan oftast í Borchs collegium. Í fundarbókum Reykjavíkurdeildarinnar er getið um þessa fundarstaði: Landsyfirrjettarhúsið, hús prestaskólans, »Hotel Ísland«, alþingissal neðri deildar, Good-templarahús, leikfimishús barnaskólans, Iðnaðarmannahús og Bárubúð.

*Kjartan Isfjord,* kaupmaður, og varaskrifari *Vigfús Thorarensen,* sonur Stefáns amtmanns, aðstoðarmaður í kansellíinu, er andaðist ungur.

**Reykjavíkur-fjelagið.** En nú víkur sögunni til fjelagsins hjer á landi. Þegar hjer var komið, hafði það enn enga fundi haldið og mátti vart teljast fullstofnað, en stjórn þess mun þó hafa lagt sig mjög í framkróka með að taka við boðsbrjefum og eggja menn til þess að styrkja fjelagið, einkum síra Árni Helgason. Með vorskipum 1816 hafa þeir síra Árni fengið vitneskju um stofnun fjelagsins í Kaupmannahöfn, og ritar síra Árni þá fjelagsmönnum hjer þann 16. júlí 1816, og er það hið fyrsta brjef, sem inn er fært í brjefabók Reykjavíkurdeildarinnar. Brjefið hljóðar svo:

»Í fyrra vetur í Martii mánuði, eins og yður er kunnugt, m[ínir] herrar, kvaddi bókahirðir háskólans í Kaupmannahöfn, herra R. Rask, oss Íslendinga til að setja hjer í landi Bókmenntafjelag, áþekkt annarra þjóða sið, tungumáli voru og fróðleik til viðhalds og eflingar, hvers meðlimir ei að eins skyldu láta peninga til þessa augnamiðs árlega, heldur gefa þá, svo mögulegt væri að selja bækur þær, er þannig yrðu prentaðar, fyrir minna verð en kostnaði svaraði, og til að auka svo fjársjóðu fjelagsins, að það, þegar fram liðu stundir, gæti gagnast almenningi með öðru en útgáfu nytsamlegra bóka etc. Margir hafa hjer á landi tekið þessu vel og sumir lofað töluverðum árlegum styrk, einkum hjer syðra og þar sem hlutaðeigendur töluðu vel fyrir þessu fyrirtæki. Í Kaupinhöfn hafa flestir Íslendingar, tilkvaddir af sama Íslandsvini, inngengið [í] sama fjelag og nokkrir danskir menn heitið rausnarlegu liðsinni. . . . [Hjer er sleppt kafla um styrktarmenn fjelagsins.] . . . Áður en Rask fór hjeðan af landi í fyrra sumar, voru ekki öll hans innboðsbrjef komin heim aftur og enn eru ei öll heimt, þó sum hafi síðan viðbætst. Ferð hans bar þá og vonum fljótar brátt að, svo honum gafst ei ráðrúm til að koma mynd á það fjelag, er hjer skyldi hefjast. Sem kunningja sínum fól hann mér því á hendur geymslu þeirra innboðsbrjefa, er til hans voru komin, og móttöku þeirra, er síðar kæmu. En herra landfógeta [Sigurði] Thorgrímsen fól hann á hendur að veita móttöku þeim lofaða peningastyrk. Meðferð mína á þessu skal jeg síðar gera kunna og hafa til reiðu lista yfir fjelagslimu hjer á landi.

Með herra prófessor [Finni] Magnussen sendi Rask mjer frumvarp til laga fyrir þetta fjelag og undir eins skjal, sem sýnir þrískipta meiningu þeirra, sem í Kaupinhöfn eru orðnir vorir fjelagar, um samband milli þess innlenda og útlenda hluta fjelagsins. Bæði afskrift þessara laga og eins skjalsins sendi jeg með þessu umburðarbrjefi þeim herrum, sem í Reykjavík eru fjelagslimir, og óska, að vildu gera við þær athugasemdir, sem nauðsynlegar virðast. Þar hjá bið jeg, þeim sömu mætti þóknast að safnast til fundar í Reykjavík þann 1. Augusti næstkomandi, til að gefa fjelaginu hjer sína lögun

og kjósa því stjórnendur og umboðsmenn, og yrðu þá þessi skjöl að hafa borist milli allra þeirra, sem í Reykjavík hafa lofað fjelaginu árlegum styrk, sem eru byskup [Geir] Vídalín, landfógeti [Sigurður] Thorgrímsen, sýslumaður [Halldór] Thorgrímsen, kaupmennirnir: Knudsen, Simonsen, Sandholt, Asmundssen, Biering, Mohr, Möller, E[inar stúdent] Johnsen, S. Hansen og stúdent Maurus Mattíasson.

Til

fjelagslima þess íslenska Bókmenntafjelags frá umboðsm[anni] stiftarans síra Á[rna] Helgasyni, áður en fjelagið við þess samkomu þann 1. Augusti var reglulega eftir fjelagsins lögum viðtekið.«

Samkvæmt þessu fundarboði var fyrsti fundur í Reykjavíkurdeild fjelagsins haldinn fimmtudaginn *1. dag ágústmánaðar 1816.* Var þá lagt fram frumvarp það til laga, sem Rask hafði samið og getið er í boðsbrjefinu, en ákveðið að geyma ályktun um það til næsta fundar. Þessi fyrsta fundargerð er prentuð meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Þá voru kosnir hinir fyrstu embættismenn deildarinnar og hlutu kosning: *forseti Árni* prestur *Helgason, fjehirðir Sigurður* landfógeti *Thorgrímsen, skrifari Halldór* sýslumaður *Thorgrímsen.* En til varaembættismanna voru valdir: varaforseti *Ísleifur Einarsson,* assessor, síðar justitiarius, varaskrifari *Bjarni Thorarensen,* assessor, síðar amtmaður, varafjehirðir *Jón Jónsson,* lektor á Bessastöðum.

**Stofnun fjelagsins.** Næsti fundur í Reykjavíkurfjelaginu var haldinn fimmtudaginn 15. ágúst 1816, og hefir forsetinn, síra Árni Helgason, skýrt frá honum í brjefi sama dag til forseta Kaupmannahafnarfjelagsins, og er það brjef prentað meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Á þeim fundi var lagafrumvarpið afgreitt til fjelagsins í Kaupmannahöfn og með því sendar nokkurar athugasemdir, sem Hallgrímur adjunkt Scheving hafði gert við það og einkum lutu að máli og framsetningu; eru þær athugasemdir enn til í skjalasafni fjelagsins. Á þessum fundi var samþykkt sú tillaga Hafnarfjelagsins, að bæði fjelögin skyldu sameinast og vera tvær deildir í einu fjelagi, er heita skyldi **hið íslenska Bókmenntafjelag**; með þessari fundarályktun renna fjelögin, sem áður voru tvö, fyrst saman í eitt, og er því fundardagurinn **15. ágúst 1816** hið rjetta afmæli fjelagsheildarinnar. Verður síðar í þessu riti vikið að því, hvernig búið var um sambandið milli deildanna. Á þessum fundi voru og kosnir *umboðs-*

*menn* til þess að sjá um efni fjelagsins og gagn á Suðurlandi og Vesturlandi, og eru þeir taldir upp í brjefi síra Árna Helgasonar 15. ágúst 1816. En norðanlands hafði síra Árni falið Stefáni amtmanni Thorarensen á hendur að ráða umboðsmenn, en Páll Melsteð sýslumaður, síðar amtmaður, hafði tekið að sjer umboð fjelagsins um Austfjörðu. Þóttu báðir þessir menn rækja þetta erindi með alúð, og er þeim oftsinnis þakkaður starfi þeirra í þarfir fjelagsins í brjefum forsetanna til þeirra.

Þannig var þá stofnaður þessi fjelagskapur, sem nú hefir starfað í hundrað ár til eflingar þjóðlegu íslensku menntalífi.

---

# II. Hagur fjelagsins.

Styrktarmenn fjelagsins.

Meðal styrktarmanna fjelagsins skal fyrst telja konunga vora. *Friðrik* konungur hinn *sjötti* gaf fjelaginu 100 ríkisdali árlega. *Kristján* konungur *áttundi* jók þessa gjöf um helming og gaf 200 ríkisdali til fjelagsins árlega, meðan hann lifði, og sömu upphæð eða jafngildi hennar, 400 kr., gáfu *Friðrik sjöundi, Kristján níundi* og *Friðrik áttundi.* Það varð og fjelaginu mikil stoð á ýmsan hátt, að konungar tóku að sjer vernd þess. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 25. janúar 1840 var *Friðrik krónprins,* síðar Friðrik VII., kjörinn *protector* eða verndari fjelagsins, og tókst hann það á hendur samkvæmt tilkynningu á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 24. apríl sama ár; hjelt hann og þeirri vernd yfir fjelaginu eftir að hann var orðinn konungur, og svo hafa Danakonungar jafnan gert síðan. Góðvild sína við fjelagið sýndi og Kristján konungur áttundi árið 1847 við brunann, er hann ljeði Kaupmannahafnardeildinni húsnæði í Amalíuborg bæði fyrir handritasafnið og prentaðar forlagsbækur hennar; naut deildin þessa húsnæðis alla tíð síðan ókeypis, uns hún var sameinuð Reykjavíkurdeildinni.

Það var Bókmenntafjelaginu hið mesta happ að eignast svo ötula forgöngumenn, sem það fekk þegar í öndverðu og ekkert ljetu ósparað til þess að afla fjelaginu fylgis og tekna. Átti Rask þar drýgstan þátt í. Það var siður í fjelagskap þeirrar tíðar manna að fá inn í fjelögin stórhöfðingja, er hafa mætti fremst á fjelagaskrá; greiddu þeir oft höfðingleg tillög, og varð þetta bæði til að efla hag fjelagsins og eins til þess að draga aðra út í frá í fjelagskapinn. Að sjálfsögðu var þessari reglu fylgt hjer. Rask gaf út boðsbrjef á dönsku þann 27. mars 1816, sem ætlað var til þess að

sýna merkismönnum í Danmörku, sem líklegir þóttu til þess að styrkja fjelagið með peningagjöfum. Þetta brjef Rasks er prentað meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Boðsbrjef þetta bar töluverðan árangur. Um þetta leyti var endurvakning hafin í dönsku bókmenntalífi; lögðu margir mætismenn sig þá eftir íslensku, og setti það mót á skáldskap þeirrar tíðar með Dönum. Þetta mun með fram hafa dregið til þess, að ýmsir Danir voru hlynntir þessum nýstofnaða fjelagskap og ljetu eigi alllítið af höndum rakna til styrktar fjelaginu. Verður þó fæstra þeirra getið hjer og eigi annarra styrktarmanna en þeirra, sem drýgst lögðu fram tillögin. Af einstökum mönnum hefir engi reynst Bókmenntafjelaginu önnur eins bjargvættur og *Adam Vilhelm Moltke,* greifi að Bregentved, sem um langt skeið var einn af ráðherrum konungs. Hann skrifaði sig fyrir 100 ríkisdala árlegu tillagi, og þetta heit efndi hann og galt tillagið til dauðadags (15. dags febrúarmánaðar 1864) eða í 47 ár, og hefir því samtals úr vasa hans runnið til fjelagsins 4700 ríkisdalir. Enda sýndi fjelagið honum þær sæmdir, sem það fremst mátti, eins og verðugt var. *Castenschiold,* sem verið hafði stiftamtmaður hjer á landi, gaf fjelaginu 200 ríkisdali. *Jóhann Bülow* í Sanderumgaard á Fjóni, hinn mesti öðlingur, skrifaði sig fyrir 50 ríkisdala árlegu tillagi. En þegar til kom, sendi hann fjelaginu 110 ríkisdali og gaf eftir það árlega, meðan hann lifði, frá 60 til 100 ríkisdali. Sjálfur gaf Rask fjelaginu jafnan 40—50 ríkisdali árlega og var þó síður en svo auðmaður, auk allrar fyrirhafnar, sem hann hafði af fjelaginu. Sýnir þetta ósjerplægni hans og yl til Íslands. Á Englandi og Skotlandi urðu og ýmsir til þess að styrkja fjelagið, þar á meðal þeir Ebenezer Henderson og George Stuart Mackenzie, er báðir höfðu komið hingað til lands og ritað merkar ferðabækur um för sína hingað og dvöl hjer.

Hjer að framan hafa verið taldir upp nokkurir þeir, er lofuðu styrk til fjelagsins, þ. e. í Reykjavík og nærsveitunum. Sömuleiðis eru fyrstu tillagamenn íslenskir í Kaupmannahöfn taldir upp í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. En þótt mest beri á peningagjöfum til fjelagsins fyrst, er það var stofnað, þá hafa samt jafnan við og við borist fjelaginu allhöfðinglegar gjafir, og er ekki nema sanngjarnt og verðugt að geta þeirra rausnarmanna hjer stuttlega.

*Byrgir* prófessor *Thorlacius* gaf 100 ríkisdali árlega, meðan Sturlunga kom út, og auk þess 15 rd., á meðan hann lifði. *H. S. Knuth*, greifi, gefur 25 rd. árlega. *Bogi Benediktsson,* síðar á Staðarfelli, en þá í Stykkishólmi, gaf fjelaginu 1820 50 rd. og galt að auki jafnan tillag og var fjelaginu natinn umboðsmaður. Húsfreyja *Guðrún Thorlacius* á Bíldudal, móðir Árna kaupmanns í Stykkishólmi, gaf fjelaginu nýstofnuðu 30 ríkisdali silfurs, og þótti rausnarlegt af konu. Magister *John Heath,* enskur maður, gaf út þýðing síra Jóns Þorlákssonar á Paradísarmissi Miltons á sinn kostnað og seldi við mjög lágu verði; af upplaginu gaf hann fjelaginu 300 eintök. *Andrew Lang* í St. Croix gaf fjelaginu í einu 64 ríkisdali árið 1830. *Peacock,* enskur skipsbrakún, gaf fjelaginu 5 sterlingspund til þess að verðlauna rit um framfarir Íslands (16. maí 1860); við þessa upphæð bætti annar maður, ónafngreindur, 3 sterlingspundum. Þessi verðlaun hlaut nokkurum árum síðar Einar Ásmundsson í Nesi fyrir rit sitt um framfarir Íslands. *Moltke-Hvitfeldt,* greifi, gaf fjelaginu 25 ríkisdali árlega. Það var einnig siður, að þeir, er gerðir voru að heiðursfjelögum, greiddu hærra tillag en aðrir óbreyttir fjelagar, 5—20 rd., og hefir það haldist um marga, er þann heiður hafa hlotið síðan. *W. P. Ker,* prófessor í Lundúnum, gaf fjelaginu 182 kr. í einu lagi árið 1910. Loks ánafnaði ein mæt kona, jungfrú *Margarethe Lehmann-Filhès* (fædd 1. september 1852, dáin 17. ágúst 1911), fjelaginu stórrausnarlega gjöf, 5000 kr., með arfleiðsluskrá sinni, og skyldi vöxtunum af því varið »til að gefa út fyrir nýjar ritgerðir um íslensk þjóðfræði, þjóðsögur, venjur, lifnaðarhætti alþýðu, heimilisiðnað o. fl. þess kyns, eður og eldri, áður óprentuð, rit og kvæði, sem hafa þýðingu í þeim efnum«.

**Aðrir styrktarmenn.** En þótt nú hafi verið taldir upp nokkurir þeirra manna, er ríflegast hafa styrkt fjelagið að peningagjöfum, þá er enn ógetið allra þeirra, sem stutt hafa fjelagið á annan hátt, með starfi sínu og öðrum líkum framlögum, og eru þeir eigi fáir. En þótt ekki verði allir slíkir menn hjer nefndir, þá mun þó ekki þykja hlýða, er nefndir eru styrktarmenn fjelagsins, að ganga fram hjá þeim, sem mest starf hafa á sig lagt í þarfir fjelagsins og haft fyrir lítið kaup eða ekkert. Hjer til ber fyrst og fremst að telja alla forseta fjelagsins, og er þeirra allra getið stuttlega á

öðrum stað í þessu riti, svo og aðra embættismenn fjelagsins, sem taldir eru upp í embættismannatalinu. En auk þess mega allir rithöfundar, þeir er ljetu fjelaginu í tje rit sín framan af, teljast höfuðstyrktarstólpar fjelagsins, því að framan af lengi vel fengu rithöfundar engi ritlaun hjá fjelaginu, heldur að eins fáein eintök af riti sínu prentuðu; voru þeirra laun því lítil önnur en þau að fá að sjá rit sín komast út á meðal almennings. En svo var ósíngirni höfunda þá mikil, að þetta ljetu þeir sjer nægja eða urðu að láta sjer nægja. Vitaskuld var það og, að oft fengu vísindamenn á þeirri tíð styrk úr konungssjóði til ritstarfa, þótt fátítt væri um rithöfunda hjer á landi. *Jón* sýslumaður *Espólín* fekk ekki einn skilding í ritlaun fyrir Árbækurnar frá Bókmenntafjelaginu, en raunar var það fyrir tilstilli fjelagsins, að honum var veitt 100 ríkisdala viðbót við eftirlaun hans úr konungssjóði um 3 ár eftir að hann lagði niður embætti árið 1826, þó eigi fyrr en 1828, og mun hann hafa haldið þeim styrk það, sem eftir var ævinnar (sbr. brjef frá Jóni Espólín til síra Brynjólfs Sigurðssonar á Útskálum, dags. 3. ágúst 1831, prentað í Óðni, V. ár, bls. 48). — *Gunnlaugi* presti *Oddssyni* (Oddsen), sem mestan þátt átti í samningu og útgáfu landaskipunarfræði þeirrar hinnar miklu í 4 bindum, er fjelagið gaf út, voru greiddir 100 ríkisdalir fyrir allt verkið, samkvæmt ályktun á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. mars 1827, þó með því skilyrði, að Reykjavíkurdeildin væri þessu samþykk, og tjáði hún sig vera það á fundi 2. júlí 1827. — *Þórður Jónassen,* síðar justitiarius, samdi Skírni um nokkur ár framan af og fekk engi laun fyrir; en er hann hvarf heim hingað úr Kaupmannahöfn til sýslu sinnar, er honum var nýveitt, var samþykkt að greiða honum 60 ríkisdala hugnun fyrir að hafa ritað Skírni í 7 ár (fundargerð Kaupmannahafnardeildarinnar 19. mars 1835). Þannig gekk lengi vel um rithöfunda.[1])

---

1) Samhengis vegna, úr því að minnst er á *ritlaun,* virðist rjett að víkja nokkuð að því, hvernig þau hafi verið í fjelaginu. Framan af voru þau engi eða sama sem engi, eins og tekið hefir verið fram, en eftir 1840 fer fjelagið þó að greiða ritlaun eftir því sem tíðkaðist í öðrum löndum eða í áttina til þess. Þannig styrkti fjelagið *Jónas Hallgrímsson* eða útvegaði honum styrk til ferða sinna til náttúrufræðarannsókna og lagði honum styrk til þess að semja lýsing Íslands, og var sá styrkur eigi óríflegur

Meðal fremstu styrktarmanna fjelagsins má telja *Björn Gunnlaugsson,* síðar yfirkennara. Hann vann að því kauplaust að ferðast um landið og gera uppdrátt að því og varði til þess sumarleyfum sínum frá skólanum í 16 ár og fekk að eins endurgoldinn af fjelaginu ferðakostnað sinn og þó eigi ríflega; verður minnst á þetta starf og rannsóknir Bjarnar nánara, þegar lýst verður framkvæmdum fjelagsins.

Þá urðu og margir til þess að gefa fjelaginu bækur. *Napóleon* prins, er hingað kom til lands árið 1856, gaf Reykjavíkurdeildinni fjölda bóka og hjet að gefa meira; mundi hann og hafa gert það, ef til hefði verið leitað. Fyrir þetta var hann kjörinn *fyrsti heiðursforseti* fjelagsins af Reykjavíkurdeildinni. Ýmsir útlendir menn lögðu og til fjelagsins höfðinglegar gjafir í bókum, svo sem *Paul Gaimard* o. fl., sem hjer verða eigi taldir; voru margir þeirra gerðir að heiðursfjelögum, og má sjá nöfn þeirra á skránni um heiðursfjelagana hjer fyrir aftan. — Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar

---

eftir þeirrar tíðar hætti; því miður entist Jónas ekki til þess að ljúka við Íslandslýsinguna til fulls. En samt má telja, að fjelagið fengi þann styrk, sem það lagði Jónasi, fullkomlega endurgoldinn, þó ekki væri virt frá annarri hlið en þeirri, að það fekk útgáfurjett að kvæðum hans og öðrum ritum og hefir gefið kvæði hans út tvívegis og stórgrætt á þeim fjárhagslega. — Þegar *Konráð Gíslason* samdi *Frumparta íslenskrar tungu í fornöld,* var fjelagið svo rausnarlegt að greiða honum 20 ríkisdali fyrir örkina, og er það ekki lítið eftir þeirra daga peningagildi. — Fyrir að rita Skírni var farið að greiða 10 og 12 ríkisdali á örkina og jafnvel 16 ríkisdali um 1853. — *Sveinbjörn Egilsson,* rektor, fekk 16 ríkisdali á örkina fyrir þýðing sína á Odysseifs-kviðu, sem fjelagið gaf út. — *Páll Melsteð* fekk jafnvel 24 ríkisdali á örkina í síðari heftum sögu sinnar. — *Pjetur Guðjohnsen,* organleikari, fekk 350 ríkisdala ritlaun fyrir sálmalagasafn sitt, *Íslenzk Sálmasaungs og messubók með nótum,* er fjelagið gaf út 1861. Eftir að myntskifti urðu á Norðurlöndum virðast ritlaun eigi hafa hækkað hjá fjelaginu og engan veginn í hlutfalli við peningafall. Ritlaunin fyrir ritgerðir í *Tímariti* fjelagsins voru 30 kr. oftast. Síðan Skírnir komst í hið nýja horf, það er nú hefir hann, hafa ritlaunin verið 30—40 kr. og þó hvílt á höfundunum prófarkalestur. Svipuð þessu hafa ritlaun verið fyrir önnur rit, sem fjelagið hefir gefið út, þau er höfundar hafa eigi notið sjerstaks styrks til annarstaðar frá. Fyrir alla þá miklu vinnu og alúð, sem *Hannes Þorsteinsson* hefir lagt í útgáfu *Sýslumannaæfanna,* mun hann að eins hafa fengið frá 22 kr. 50 aur. til 25 kr. í ritlaun fyrir örkina eða sem því svarar. Sömu ritlaun sem í Tímaritinu voru greidd fyrir ritgerðir í *Safni til sögu Íslands.*

þann 19. apríl 1865 er þess getið, að *Guðmundur* sýsluskrifari *Einarsson* frá Mælifelli hafi arfleitt fjelagið að öllum bókum sínum og handritum. Þetta var þeim mun meiri rausnargjöf sem þessi maður var bæði sjálfur fróðleiksmaður mikill og átti til fróðra manna kyn að rekja, sonur Einars Bjarnasonar á Mælifelli. Flest handrit, sem fjelagið eignaðist, fekk það einnig gefins; urðu margir til þess að gefa fjelaginu handrit og þó engi fremur en *Jón Borgfirðingur,* og mun fyrir þessu verða gerð nánari grein í kaflanum um handritasafn fjelagsins.

**Styrkur til fjelagsins úr almannasjóðum.** Vísindafjelagið danska lagði Bókmenntafjelaginu drjúgan styrk til útgáfu uppdrátta Íslands. *Jón Sigurðsson,* forseti fjelagsins, eða þó öllu heldur *Oddgeir Stephensen,* stjórnardeildarforseti, sem þá var gjaldkeri fjelagsins, útvegaði fjelaginu allálitlegan styrk úr ríkissjóði og síðar sjóði Íslands til útgáfu á *Skýrslum um landshagi á Íslandi,* er nam 400 ríkisdölum á ári, alla tíð meðan skýrslurnar komu út. Úr sama sjóði voru veittir 150 ríkisdalir árlega til þess að gefa út *Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands,* sem síðasta árið var þó færður niður í 100 rd. Árið 1875 fær fjelagið 1000 kr. styrk úr landsjóði til útgáfu fornbrjefasafnsins og heldur þeim styrk árin 1876—1877, en síðara árið er þó styrkurinn talinn vera »til útgáfu íslenskra söguríta«. Árið 1879 fær fjelagið 300 kr. styrk úr landsjóði til þess að gefa út efnafræði og sömuleiðis til þess að gefa út eðlislýsing jarðarinnar (Stafróf náttúruvísindanna) og enn 1000 kr. til útgáfu íslenskra fornsögurita. Árið 1880 fær fjelagið úr landsjóði 2000 kr. og sömu upphæð árið eftir, en 1882 til 1885 nýtur fjelagið 1000 kr. styrks úr landsjóði árlega; 1886 er styrkurinn orðinn 1500 kr., en lækkar aftur 1888 niður í 1000 kr., og heldst sú upphæð óbreytt til 1896; þá er styrkurinn enn hækkaður upp í 1500 kr. og hjelst svo árlega til 1900; þá er styrkurinn hækkaður upp í 2000 kr. á ári og hefir jafnan haldist svo síðan. Hjer er enn ógetið þess, sem að nokkuru leyti má telja styrk til fjelagsins, að bæði landsjóður og ríkissjóður Dana hafa lagt fram árlegan styrk til þess að semja og sjá um útgáfu á *Fornbrjefasafni Íslands* frá því, að II. bindi byrjaði að koma út, er það verk hafði lengi legið niðri, og alla tíð síðan, en Bókmenntafjelagið hefir jafnan gefið Fornbrjefasafnið út með ársbókum sínum. — Úr almannasjóði má og teljast runnið

endurgjald það, er Bókmenntafjelagið fær frá Landsbókasafninu fyrir handritasafn sitt, það er það seldi safninu og síðar verður vikið að; nemur sú upphæð 1000 kr. á ári frá 1900 til 1922, er síðustu greiðslunni er lokið.

Enn er það ótalið, að Reykjavíkurdeildin hefir alla tíð frá stofnun sinni haft ókeypis húsnæði á lopti dómkirkjunnar til geymslu á bókaforða sínum og safni.

Vöxtur fjelagsins til 1851. Það var fjelaginu happ, að til forstöðumanna þess framan af voru valdir atorkusamir menn, sem mikils máttu sín og einkis ljetu ófreistað til þess að efla hag fjelagsins. Það má telja, að fjelagið hafi riðið allveglega úr hlaði, því að svo hefir mjer talist, að fyrsta ár þess hafi 459 manns heitið því tillögum auk 11 aukafjelaga (erlendra styrktarmanna), og telur Jón Sigurðsson, að enn hafi fjölgað þessi ár svo, að fjelagatal hafi komist upp í 600. Fjárframlög þau, er fjelaginu komu frá Íslandi, námu hið fyrsta ár 1550 ríkisdölum nafnverðs, og er það ekki lítið fje, en í Danmörku kom inn í tillögum og gjöfum hjer um bil 800 ríkisdala nafnverðs. Samtals voru tekjur fjelagsins á fyrsta reikningsárinu (frá 30. mars 1816 til jafnlengdar 1817) hjer um bil 2350 ríkisdalir, en útgjöldin nálægt 800 ríkisdölum, svo að fjelagið hafði á þessu eina ári grætt rúma 1500 ríkisdali, og voru settir á vöxtu af því fje 400 ríkisdalir. Annað árið voru tekjur fjelagsins mjög svipaðar því, sem var fyrsta árið, en þó var nú orðin á sú breyting, að frá Íslandi komu nú tæplega 800 ríkisdalir, en gjafir og tillög í Danmörku og vextir af leigufje var nú orðið rúmlega 1200 ríkisdalir, þar með talin gjöf *Friðriks* konungs hins *sjötta,* sem veitt hafði fjelaginu 200 ríkisdala árlegan styrk um tvö ár. — Í hinni þriðju skýrslu fjelagsins (1818—1819) er þess getið, að tala fjelagsmanna á Íslandi fari lækkandi, en þó sendi deildin á Íslandi fyrir umhyggju forseta síns töluverðan fjárstyrk til Kaupmannahafnardeildarinnar á hverju ári, í sjóð fjelagsins, einkum fram yfir 1820, en úr því kom smám saman nokkur breyting á. Reykjavíkurdeildin hætti smám saman að eiga skipti við umboðsmenn fjelagsins í hinum fjarlægari hjeruðum landsins og hjelt sjer einungis til þeirra fjelagsmanna, sem voru í Reykjavík, Gullbringu- og Kjósarsýslum, Borgarfirði og þar í grennd, en deildin í Kaupmannahöfn tók upp frá þessu að annast allar tillagaheimtur og önnur viðskipti við umboðsmenn

fjelagsins fyrir vestan, norðan og austan. Þetta stafaði beinlínis af því, hve samgöngur voru örðugar á þeim tíma, því að svo mátti heita, að stytsta leið frá Reykjavík og til Norðurlands eða til Vestfjarða eða Austfjarða lægi um Kaupmannahöfn. Þá stóð svo á, að bækur fjelagsins urðu varla prentaðar annarstaðar en í Kaupmannahöfn, og ef senda hefði átt allt það, sem til Íslands fór af þeim, til deildarinnar í Reykjavík, til þess að koma því til umboðsmanna, þá hefði ekki lent í öðru en að Reykjavíkurdeildin hefði líklega orðið að senda mikið af því til Kaupmannahafnar aftur, til þess að fá það sent þaðan til viðtökumannanna, og þetta mundi stundum hafa getað valdið árslöngum drætti. Sú regla varð því að vana, sem eðlilegust var, að Kaupmannahafnardeildin sendi til deildarinnar hjer svo mikið af hverri bók fjelagsins, er kom á prent, sem deildin hjer þurfti handa fjelagsmönnum í Reykjavík og þar í grennd og til þess að vera birg til sölu, þegar á þyrfti að halda, og til umboðsmanna að sama skapi, eftir því sem tækifæri gafst.

Hjer átti við orðtækið »fyrst er allt frægast«; þó er vert að hafa það hugfast, að fjelagsmenn í Bókmenntafjelaginu áttu ekki framan af kröfu til nokkurrar bókar, sem fjelagið gaf út, þrátt fyrir það, þótt þeir gæfu fjelaginu há tillög; þeir urðu að kaupa bækurnar sama verði sem þeir, er engi tillög greiddu fjelaginu. Þetta mun hafa leitt til þess, að áhugi manna hjer á landi fyrir fjelaginu tók mjög að dofna, þegar liðin voru 3—4 ár frá stofnun þess, og mjög er kvartað yfir því í brjefi Reykjavíkurdeildarinnar til Kaupmannahafnardeildarinnar 30. ágúst 1820, að tillög fjelagsmanna hjer rjeni, og enn í brjefi sömu deildar 3. september 1821 til Kaupmannahafnardeildarinnar, en þar segir svo að niðurlagi:

»Á fjelagsfundi vorum 31. ágúst næstliðnum varð það nú vort einasta úrræði fjelaginu til eflingar, að hver af oss fjelagsmönnum skoraði á kunningja sína út um land að fá þá í þeirra byggðarlagi, er [þeir] þekktu efnuga og undir eins sómasamlega þenkjandi, til að gefa fjelaginu einu sinni fyrir öll nokkuð, sem munaði, eða þá gerast meðlimur vor og vísa á bækur fjelagsins, hvar seldar eru, en til þeirra, sem einu sinni eru gengnir af trúnni, sýnist forgefins að leita. Hvern ávöxt þetta muni bera, verður tíminn að sýna.«

Þeir voru víst ærið margir, »sem gengnir voru af trúnni«, eins og síra Árni kemst að orði, því að sífellt dregur úr tillagsmönnunum. Vitaskuld

seldist töluvert af bókum fjelagsins og því meir sem lengra leið, en þó voru upplögin þessi ár og lengi vel aldrei hærri en 500 eintök af hverri bók. — Umboðsmenn fjelagsins störfuðu endurgjaldslaust fyrir fjelagið framan af, og munu því sumir þeirra hafa lagt lítið kapp á að selja bækur fjelagsins. Flestir þeirra voru þó mjög ötulir og gerðu greið og góð skil. Það hefir því verið til þess að greiða fyrir sölu bóka fjelagsins, með því að ýta undir umboðsmennina til að ota þeim fram í almenning, að Guttormur prófastur Pálsson í Vallanesi stingur upp á því (30. júlí 1823), að umboðsmönnum fjelagsins sjeu greidd sölulaun, og á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 30. ágúst sama ár er talið sanngjarnt og það samþykkt, að umboðsmenn fjelagsins fái sömu sölulaun af bókum fjelagsins, sem vant er að greiða bóksölum yfirleitt fyrir sölu bóka.

Eins og áður er getið, eru fyrsta árið komnir í fjelagið um 470 manns, sem tillög greiða, og síðan eykst tala þeirra um næstu 2—3 ár, svo að þeir verða nálægt 600. Annars er örðugt að segja um fjelagatal í Bókmenntafjelaginu vegna þess, að tillögin eru innheimt af umboðsmönnum og skilagreinir þeirra ekki ætíð sem glöggvastar. Þess er enn vel að gæta, að *allar* bækur, sem fjelagið gaf út, voru seldar í lausasölu jafnt fjelagsmönnum sem öðrum. Föstum fjelagsmönnum fer þegar að fækka eftir fyrstu ár fjelagsins, svo að 1841 eru í fjelaginu að eins 160 manns, sem tillög greiða. Til þess að ráða bót á þessu, hugkvæmdist mönnum loks á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 26. febrúar 1845, er og náði skömmu síðar samþykki Reykjavíkurdeildarinnar, að þeir fjelagsmenn, sem gyldu fjelaginu 3 ríkisdali árlega, skyldu fá allar ársbækur, sem fjelagið ljeti prenta, fyrir það tillag árlega, en hinir Skírni einungis, sem gæfu 1 ríkisdal; þó var þetta þeim skilyrðum bundið, að fjelagsmenn væru ekki í skuldum við fjelagið um tillög sín að undanförnu. Þessi ráðstöfun mun hafa borið nokkurn árangur; þó eru fjelagsmenn ekki fleiri orðnir en 200 árið 1851, enda er ráðstöfun þessi ekki komin í kring til fulls fyrr en seint á því ári.

**Bruninn 1847.** Þá er að víkja að atburði, sem lýtur að hag fjelagsins og töluverðum hnekki olli því og framkvæmdum þess í svipinn, en það er bruninn, sem varð í Kaupmannahöfn nóttina milli 24. og 25. september 1847 á húsi því, er bækur og skjöl Kaupmannahafnardeildar-

innar voru geymd í, sem var geymsluhús á húseigninni nr. 4 við Gammelstrand. Um þenna bruna fer forsetinn, Brynjólfur Pjetursson, svo felldum orðum í skýrslu sinni til stjórnar Reykjavíkurdeildarinnar, dagsettri 27. september 1847:

»Það er skylda vor að skýra yður frá voða-tilburði þeim, sem varð hjer í staðnum nóttina milli hins 24. og 25. þ. m., að hús það, sem geymslulopt deildar vorrar var í, brann upp að mestu og með því svo að kalla öll eign fjelagsins hjer í bænum af óseldum bókum, sömuleiðis af bókum, sem fjelaginu hafa gefist, og sum af handritum þeim, er það hefir safnað; þó hafa frelsast nokkur handrit, þau er mestur skaði hefði verið að missa, t. a. m. sóknalýsingar allar og sýslulýsingar, veðrabækur, ferðabók Sveins Pálssonar o. fl., einnig fundabókin og seinasta brjefabók og dagbók deildarinnar með því móti, að þetta var allt geymt á öðrum stöðum.

Þó að þetta óvænta tjón sje fjelaginu mikill skaði, getum vjer ekki fundið, að neitt það, sem unnt er, hafi verið forsómað af þeirra hálfu, sem um bækurnar áttu að sjá, hvorki fyrir eldinn nje síðan. Geymslulopt fjelagsins var rammbyggilegt, með járnhurð sterkri fyrir og góðri læsingu; það var í geymsluhúsi, þar sem enginn maður bjó og ekki var annað geymt en óeldfimur varningur, og þannig var að allra dómi sjeð svo vel fyrir hættu, sem varð, enda hefir fjelagið haft lopt þetta um mörg ár til leigu. En nú fyrir tveim mánuðum síðan tók maður nokkur efsta loptið til leigu, sá er býr til svo nefnt »Vat« úr viðarull; hann ljet fólk sitt vinna við ljós á kvöldum í geymsluloptinu, án þess að láta húseiganda eða nokkurn annan vita af, og þar kviknaði eldurinn um nóttina, en brann síðan niður gegn um þrjú lopt, áður slökkt varð.

Það kynni að mega álasa umsjónarmönnum deildarinnar um það, að ekki hefir verið lagt í brunabótasjóð fjelagsins vegna til vonar og vara; en bæði er það, að vér vitum ekki til, að neitt annað slíkt fjelag geri það, og í þessu fjelagi hefir það aldrei verið gert um 31 ár, sem fjelagið hefir staðið; lögin skipa það ekki, og enginn hefir hreyft uppástungu um það allan þenna tíma, en þar að auki er gjald það, sem til þess heimtist árlega, einkum fyrir forlags- eða sölu-bækur, svo hátt, að það dregur sig saman um fáein ár til eins mikils eins og hinar geymdu bækur eru verðar, einkum þegar sala bókanna gengur sæmilega. Handrit fær maður eigi heldur á tjeðan hátt svo borguð, að menn megi heita skaðlausir, þegar þau eru sjaldgæf og merkileg. Af þessum rökum hefir stjórn deildar vorrar fylgt þeirri stöðugu grundvallarreglu annarra slíkra fjelaga, sem fyrr er um getin.

Þar eð fjelagið hefir nú misst allar forlagsbækur þær, sem hjer voru geymdar, og þær, sem eftir eru, skemmdar meira og minna, verðum vjer að biðja yður að senda oss með póstskipi í vetur allt það, sem þjer getið misst af þeim bókum, sem hjá yður eru geymdar, bæði lögum fjelagsins og öðru, þar eð vjer megum búast við, að bæk-

urnar verði falaðar frá Íslandi smám saman, en þó þjer kynnuð af sumum bókum ekki að hafa nema eitt exemplar aflögu, verðum vjer að biðja yður um það, til þess að deild vor gæti sjálf haldið eftir sýnishorni allra þeirra bóka, sem fjelagið hefir prenta látið«.

Til viðbótar því, sem hjer segir í skýrslu forseta, skal það tekið fram, að þarna brann allt hið eldra af skjalasafni fjelagsins, þar með fundabók hins konunglega íslenska lærdóms-listafjelags, skjöl þess og ritgerðir nokkurar, er því höfðu verið sendar til prentunar, allt í 4 bindum. Af skjölum Bókmenntafjelagsins sjálfs brunnu tvær brjefabækur frá 1816 til maímánaðar 1840, tvær dagbækur, flestöll brjef og reikningar með fylgiskjölum allt til 1845, reikningsbók bókavarðar og bók yfir óseld rit fjelagsins. Leifar af þessu er nú að finna í handritasafni Bókmenntafjelagsins (Í. B., 16, fol.). Enn fremur brann að mestu kvæðabók sú hin mikla í 10 bindum, er Jón verslunarstjóri Stefánsson á Djúpavogi hafði safnað og fjelagið keypt af Benedikti stúdent Bergssyni, sem síðar mun sagt; leifarnar af þessari kvæðabók er nú að finna í Landsbókasafninu í handritasafni Bókmenntafjelagsins (Í. B., nr. 9, 8vo.). Sömuleiðis brann »annálabók, skrifuð, ein af þeim, sem byggð hefir verið framan af á eldri annálum og síðan fram haldið fram á 18. öld«; þetta mun vera annáll sá, sem nú er í handritasafni Bókmenntafjelagsins í Landsbókasafni (Í. B., 15, fol.), og er það merkt handrit og eigi mjög skaddað af brunanum; er þetta Vatnsfjarðarannáll hinn eldri eftir síra Jón Arason og fram haldið líklega af síra Sigurði, syni hans, og síðan síra Markúsi Snæbjarnarsyni í Flatey, allur með hendi hins síðast nefnda. »Brunnið hafa einnig tvö handrit, ekki merkileg, sem fjelagið hafði eignast eftir Jónas Hallgrímsson,« og nokkuð af því, sem hafði verið í Kaupmannahöfn til landslýsingarinnar. — Leifar af óseldum bókum fjelagsins, þar með taldar bókaleifar Lærdóms-listafjelagsins, brunnu að kalla gersamlega og einnig skrár þær, sem í var ritað, hvað til var, því að þær lágu með skjölum fjelagsins. Svo vel vildi þó til, að af flestum forlagsbókum fjelagsins var eitthvað til hjá Reykjavíkurdeildinni. Sundurliðuð skýrsla um eintakafjölda bóka þeirra, er brunnu, er í Skýrslum og reikningum fjelagsins árið 1847 (prentuðum í Skírni 1848). Verð þessara brunnu bóka er þar talið nema 2628 ríkisdölum og 5 mörkum. Þar að auki brann

allt, sem til var af lögum fjelagsins prentuðum, fjelagaskírteinum og skýrslu þeirri, er fjelagið gaf út sjerstaklega árið 1841. Allar bækur, sem fjelaginu höfðu verið gefnar, brunnu þarna gersamlega. Af þeim var merkust »Voyage en Islande et au Groenland«, sem Paul Gaimard hafði gefið fjelaginu, og er sú bók afar dýr.

Um bruna þenna má þó segja það, að skaðinn varð ekki svo mikill í sjálfum sjer, sem metinn var, því að ekki hefði mátt gera ráð fyrir því, að fjelaginu hefði orðið svo mikill matur úr bókunum, þegar til sölunnar kom.

**Vöxtur fjelagsins 1851—1916.** Árið 1851 tekur við forstöðu Hafnardeildar sá maður, sem allra manna ótrauðast hefir starfað að eflingu fjelagsins og framkvæmdum þess, en það er *Jón Sigurðsson,* og var þó með naumindum, að hann næði forsetadómi, þótt ekki yrði hann slyppifengur af þeirri tign eftir það.[1]) Jón Sigurðsson þekkti menn um land allt og var manna lagnastur á að snúa mönnum eða laða til fylgis við fyrirtæki sín. Hann hafði og brjefaskipti við menn víðs vegar um land, og sparaði hann ekki að hvetja menn til þess að ganga í fjelagið og fá til aðra með sjer. Hann setti fjelaginu það markmið, að það skyldi kappkosta að gefa út svo miklar bækur á ári hverju, að fjelagsmenn þeir, sem gyldu 3 ríkisdali í tillag, fengi það endurgoldið í verði bókanna eða þó stundum meira, eftir því sem við varð komið. Þessu var hægt að koma í kring 1853, og síðan hefir fjelagið aldrei gefið út minna á ári en sem svaraði rúmlega 3 ríkisdala eða 6 króna virði, en oftast miklu meira, tvöfalt, þrefalt og jafnvel fram yfir það. Þegar svo var komið, sendi Jón Sigurðsson fyrir hönd fjelagsins boðsbrjef hingað til lands árið 1854 til þess að sýna mönnum og leitast við að sannfæra þá um, hvern hagnað þeir gætu sjálfir haft, og hvert gagn þeir

1) Kosningar fóru þá fram laugardaginn 31. maí 1851, og var Jón sjálfur eigi viðstaddur á þeim fundi. Rjettast er að setja hjer útdrátt úr fundarbókinni um þetta. Þar segir svo: »Síðan voru kosnir embættismenn: Forseti: Oddgeir Stephensen með 12 atkvæðum; Konráð Gíslason og Jón Sigurðsson [fengu] 1, en Oddgeir skoraðist undan, og var síðan leitað atkvæða að nýju, og voru þá þeir Brynjólfur Pjetursson og Jón Sigurðsson hvor um sig kosnir með 7 atkvæðum, Magnús Eiríksson með 2 og Oddgeir með 1, og var þá kosið enn á ný, og fekk þá Jón Sigurðsson 9, Brynjólfur Pjetursson 6 og Magnús Eiríksson 1.« Þess skal getið, að 19 manns voru á fundinum.

gætu unnið landi voru og bókmenntum þess, með því að ganga í fjelagið og styrkja það. Jafnframt sendi hann skýrslur fjelagsins og reikninga á hverju ári til allra presta, sýslumanna, alþingismanna og margra annarra manna, er honum þóttu líklegir til þess að vilja styrkja fjelagið. Þessi aðferð og röggsemi forsetans, jafnframt hinni hyggilegu lagabreytingu, er áður var um getið, um útbýting bóka til allra fjelagsmanna án sjerstaks gjalds, hafði ágætan árangur, svo að í stað þess, að 4 höfðu gengið í fjelagið 1851, 14 árið eftir og jafnmargir árið 1853, þá gengu í fjelagið í Kaupmannahafnardeildinni einungis:

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| árið 1854 | samtals | 61 | manns | árið 1857 | samtals | 105 | manns |
| — 1855 | — | 121 | — | — 1858 | — | 46 | — |
| — 1856 | — | 135 | — | — 1859 | — | 78 | — |

svo að tala fjelagsmanna varð árið 1859 um vorið 780, þeirra sem tillög áttu að gjalda; þó eru þar með taldir Skírniskaupendur, en þeir voru fáir, og höfðu fjelagsmenn aldrei orðið jafnmargir áður. Eftir þenna tíma má segja, að þessi tala fjelagsmanna sje orðin nokkurn veginn föst, og heldst svo um nokkura áratugi; raunar fækkar fjelagsmönnum nokkuð kring um 1860, en ekki til muna. Eftir því, sem næst verður komist, hefir fjelagatala í Bókmenntafjelaginu síðan 1866 verið svo sem nú skal greina:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Árið 1866 | 720 | manns | Arið 1878 | 773 | manns |
| — 1867 | 758 | — | — 1879 | 768 | — |
| — 1868 | 747 | — | — 1880 | 761 | — |
| — 1869 | 727 | — | — 1881 | 767 | — |
| — 1870 | 697 | — | — 1882 | 770 | — |
| — 1871 | 693 | — | — 1883 | 825 | — |
| — 1872 | 722 | — | — 1884 | 807 | — |
| — 1873 | 786 | — | — 1885 | ca. 860 | — |
| — 1874 | 760 | — | — 1886 | ca. 820 | — |
| — 1875 | 789 | — | — 1887 | ca. 800 | — |
| — 1876 | 771 | — | — 1888 | ca. 800 | — |
| — 1877 | 794 | — | | | |

En um þetta leyti fer mjög að saxast á limu fjelagsins, hvað sem því veldur. Ekki var bókakostur fjelagsins lakari en verið hafði né tilhögun

þess að nokkuru leyti. Vera má, að ill árferð hafi valdið nokkuru hjer um og los, sem varð á fólkinu í landinu, Ameríkuferðir og annað fleira. Hvað sem um það er, þá fækkar nú fjelagsmönnum stórlega ár frá ári, og árið 1898 eru að eins í því lítið yfir 500 manns, en þá mun og tölunni lengst hafa verið komið niður á við. Heldst nú þessi fjelagatala nær óbreytt fram til 1905. Það ár og upp þaðan taka menn að ganga í fjelagið í hópum. Mun stjórnin hafa gert sitt til að laða menn í fjelagið, en þó engu meira þá en ella, og ársbækur fjelagsins voru hinar sömu. Það, sem mest mun hafa dregið til fjölgunarinnar frá 1905, er *Skírnir*. Einmitt 1905 var breytt um horf Skírnis og hann gerður að ársfjórðungstímariti. Gerðust þegar margir kaupendur hans sjerstaklega, en er menn sáu, hve litlu munaði að greiða gjaldið fyrir Skírni einn og ársgjaldið til fjelagsins, en fá þá allar bækur þær, er það gaf út, munu menn hafa fremur kosið að ganga í fjelagið. Hjer fer á eftir skrá, sem sýnir, hve margir hafa gengið inn í fjelagið í Reykjavíkurdeildinni einni frá aldamótum:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Árið 1901 | 8 | manns | Árið 1907 | 57 | manns |
| — 1902 | 5 | — | — 1908 | 79 | — |
| — 1903 | 2 | — | — 1909 | 64 | — |
| — 1904 | 8 | — | — 1910 | 82 | — |
| — 1905 | 24 | — | — 1911 | 103 | — |
| — 1906 | 63 | — | | | |

frá 17/6 1912 til jafnlengdar 1913: 219[1]) manns
- 17/7 1913 - — 1914: 55 —
- 17/7 1914 - — 1915: 90 —
- 17/7 1915 - (þess sem af er) 1916: 85 —

En auk þess, sem nú var talið, gengu inn í Hafnardeildina á árunum 1905—1911 allmargir nýir fjelagar í skærum þeim, er þar voru þá og mjög voru af kappi sóttar, en erfitt er að segja um það, hve margir þeir voru. Þessi viðkoma hleypti nýju blóði í fjelagið og jók tekjur þess stórum. Eftir skýrslum er fjelagatalan í Bókmenntafjelaginu

1) Sumir af þessum fjelagsmönnum voru þó áður gengnir í fjelagið, en höfðu ekki áður verið prentaðir í fjelagatali nje fengið skírteini.

| | |
|---|---|
| árið 1911 900 manns | árið 1914 1080 manns |
| — 1912 1000 — | — 1915 1100 — |
| — 1913 1040 — | — 1916 1170 — |

og hafa fjelagar þess aldrei orðið jafnmargir.

---

Áður en jeg snú mjer að fjárhag fjelagsins, vil jeg með nokkurum orðum víkja að ýmsum atriðum, sem urðu til þess að efla fjelagið eða snerta sögu þess.

Lærdómslista-fjelagið. Árið 1779 (þann 30. ágúst) hafði verið stofnað í Kaupmannahöfn fjelag »til að viðhjálpa sjerhverjum þeim listum og menntum, er Íslandi virðist mest þörf á vera,« og var þar til sjerstaklega nefnt: bústjórnarvísindi, náttúrleg guðfræði, heimspeki, náttúruspeki, mælingarfræði og snotur vísindi; voru settar reglur til þess að sporna við útlendum orðum, og skyldi fjelagið »geyma og varðveita norræna tungu sem eitt fagurt aðalmál, er langa ævi hefir verið talað á Norðurlöndum«. Þetta fjelag var hið svo nefnda *Lærdóms-lista-fjelag.* Var það stofnað af stúdentum fyrir forgöngu *Ólafs Ólafssonar,* síðar prófessors og kennara á Kongsbergi í Noregi, og *Þórarins Sigvaldasonar Lilliendals,* síðar sýslumanns. En forusta fjelagsins var fengin í hendur *Jóni Eiríkssyni,* hinum nafnkunna Íslendingi, er mikil völd og embætti hafði í Danmörku um sína daga. Stóð fjelagið með blóma um hans daga, en eftir fráfall hans tóku aðgerðir þess að dofna, og svo kom, að störfum þess var að fullu lokið, og var aldrei fulllokið prentun 15. bindis tímarits þess, er það gaf út (»Lærdómslistafjelagsritin«), er átt mun hafa að koma út árið 1802. Þegar Bókmenntafjelagið var stofnað, höfðu umsjá með eftirlátnum eigum Lærdómslistafjelagsins Grímur Thorkelin, leyndarskjalavörður, og Hans Jensen, kommitteraður í rentukammerinu, sem verið hafði fjehirðir síðast í fjelaginu. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 20. júní 1817 var lesið upp brjef frá Lærdómslistafjelaginu eða þessum forstöðumönnum þess, þar sem það býður að eftirláta Bókmenntafjelaginu eigur sínar, sem þá voru 26 ríkisdalir og 40 skildingar í peningum, konunglegt skuldabrjef að upphæð 200 ríkisdalir ásamt bókaeign fjelagsins, þ. e. Lærdómslistafjelagsritunum, og er þess þó við getið, að þar vanti inn í suma árgangana með

öllu. Þessu var þá skotið fyrst til Reykjavíkurdeildarinnar, en hún samþykkti á fundi 3. ágúst 1817 að taka þessu boði, og var þá á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 3. nóvember sama ár stjórninni falið að semja við Grím Thorkelin um sameining fjelaganna eða tilboð hans. Fekk svo Kaupmannahafnardeildin árið eftir (28. apríl 1818) allar bókaleifar Lærdómslistafjelagsins, en eigi fekk deildin sjóð fjelagsins fyrr en 10 árum síðar (29. maí 1828), og var hann þá orðinn samtals 275 ríkisdalir og 71 skildingar að meðtöldu skuldabrjefinu.

Prentsmiðjumálið. Hjer að framan hefir verið minnst á Landsupppfræðingarfjelagið, er Magnús Stephensen veitti forstöðu, í kaflanum, þar sem ræðir um stofnun Bókmenntafjelagsins. Landsuppfræðingarfjelagið var ekki til nema að nafninu einu, þegar Bókmenntafjelagið var stofnað; þó átti það fjelag þá einu prentsmiðju, sem þá var til hjer í landi; hafði fjelagið leyst til sín Hrappseyjarprentsmiðju og sameinað þar við Hólaprentsmiðjuna. Hafði Magnús Stephensen nú umsjón prentsmiðjunnar og bókaleifa hennar. Þann 18. apríl 1827 var stiftsyfirvöldunum boðið með konungsbrjefi að rannsaka ásigkomulag og stjórn Landsuppfræðingarfjelagsins og gera tillögur um stjórn þess framvegis, en einkannlega um stjórn prentsmiðjunnar, svo að hún gæti komið landinu að sem bestum notum. Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 1. mars 1828 er lesið upp skjal frá stiftsyfirvöldunum, dagsett 18. febrúar sama ár, og fjelaginu þar boðið að taka við prentverkinu og bókaleifum þess og jafnframt spurt, að hverjum skilmálum fjelagið vildi ganga. Það varð ofan á í deildinni að taka þessu tilboði með nánara tilteknum skilyrðum, svo framarlega sem Kaupmannahafnardeildin vildi samþykkjast því. Brjef um þetta ásamt skilmálunum var sent stiftsyfirvöldunum sama dag (1. mars 1828). En er þetta mál kom til Kaupmannahafnardeildarinnar, var stefnt til fundar þann 5. apríl 1828 og skilmálarnir lagðir fram fyrir fundarmenn og prentaðir síðan þeim til hliðsjónar. Skömmu síðar (þann 19. apríl) var aftur haldinn fundur um málið, og samþykkti þá deildin að taka tilboðinu að sínu leyti. Ritaði þá stjórn deildarinnar kansellíinu um þetta (22. apríl). Lá nú þetta mál í þagnargildi um hríð, en 28. nóvember 1831 rita stiftsyfirvöldin aftur Reykjavíkurdeildinni brjef og bjóða fjelaginu að taka við prentsmiðjunni

með nánara tilteknum skilyrðum, en á fundi deildarinnar þann 12. desember sama ár var hafnað að taka tilboðinu með 9 atkvæðum gegn 2, og var þar með því máli lokið að sinni, en Magnús Stephensen var látinn reka prentsmiðjuna áfram, meðan hann lifði. Bókaleifarnar voru seldar, og var þar af myndaður hinn svo kallaði prentsmiðjusjóður. Þó var þessu máli enn hreyft nokkuru síðar. Í brjefi 17. ágúst 1842 spurðu stiftsyfirvöldin deildina hjer, hvað henni litist ráðlegast um prentsmiðjuna og stjórn hennar, og í brjefi 5. september árið eftir buðu stiftsyfirvöldin deildinni prentsmiðjuna til umráða, og var talað um, að hún yrði þá sett á Rauðará hjá Reykjavík, en á fundi deildarinnar 21. sama mánaðar var hafnað að ganga að þessu tilboði; ». . . voru 7 meðlimir á móti og 7 menn með, að fjelagið tæki það að sjer, hvers vegna forsetinn varð að skera úr, og varð því ákvarðað, að fjelagið tæki það ekki að sjer,« segir í fundargerðinni, og var það mál þar með úr sögunni.

**Handritasafnið.** Það hafði ekki verið tilgangur Bókmenntafjelagsins í öndverðu að eignast handrit til annars en að prenta þau. En ekki alllöngu eftir það, er fjelagið var stofnað, bárust því nokkur handrit, sem ætlast var til að prentuð yrðu eða úr þeim vinsað til prentunar. Hið fyrsta handrit, sem fjelaginu barst þess konar, var safn mikið af íslenskum kvæðum, er safnað hafði Jón verslunarstjóri Stefánsson á Djúpavogi um og eftir 1800, ritað allt með eiginhendi hans, í 10 bindum í áttablaðabroti. Benedikt stúdent Bergsson frá Árnanesi átti safn þetta, og seldi hann fjelaginu það fyrir 20 ríkisdali þann 21. janúar 1822, en safn þetta brann að mestu í bruna í Kaupmannahöfn 1847, er lýst hefir verið hjer að framan. Þó segist Jón Sigurðsson áður hafa ritað upp flest hin merkari kvæði í safninu, og Svend Grundtvig hafði ritað upp öll fornkvæðin. — Nokkuru síðar sendi *Hallgrímur* djákni *Jónsson* fjelaginu að gjöf tvö aðalrit, sem hann hafði samið; voru þau *Annálar íslenskir* í þrem bindum og *Rithöfundatal íslenskt* eftir hann. Þannig bárust fjelaginu nokkur handrit, sem það hugsaði ekki til að prenta, en ekki lagði stjórnin sig í framkróka með það að safna handritum. Þó má sjá það, að stjórnin hefir snemma farið að gefa þessu atriði gaum og vakið athygli manna á því, sjá til dæmis boðsbrjef fjelagsins til presta og prófasta á Íslandi 30. apríl 1839 um að

semja sóknalýsingar, spurningarnar 68 og 69. Hins vegar náði þó fjelagið handritum, sem það lagði sig fram til þess að ná í. Fjelagið fekk hjá Jónasi Hallgrímssyni ferðabók Sveins Pálssonar í þrem bindum, sem Jónas seldi fjelaginu fyrir sama verð sem hann hafði fyrir hana gefið. Dagbækur Sveins, veðurbækur og ýmislegt annað, sem Sveinn hafði látið eftir sig í handritum, keypti fjelagið af Páli syni hans. Þá fekk og Bókmenntafjelagið síra Hákon Espólín til þess að gera eftirrit af seinustu deildum Árbóka Jóns föður hans, svo og ættartölubókum Jóns og kvæðum hans frumkveðnum, og galt síra Hákoni skrifarakaup fyrir. Það er ekki fyrr en að Jón Sigurðsson er orðinn forseti, að fjelagið fer verulega að leggja sig eftir því að safna handritum. Í boðsbrjefi því, er Bókmenntafjelagið gaf út 17. maí 1854, stendur svo:

»Vjer leyfum oss jafnframt að benda til þess, að fjelagið tekur fegins hendi móti alls konar handritum, fornum og nýjum, sem menn kynnu vilja senda því, svo sem t. a. m. annálum, ættatölubókum, kvæðum, rímum, brjefum, dómabókum, máldögum o. s. frv. — Þau handrit, sem fjelaginu verða send, munu verða geymd vandlega í söfnum þess, og notuð, þegar kostur er á, en nöfn gjafaranna og innihald handritanna auglýst í Skírni.«

Það má fljótt sjá, hvern árangur þetta hefir borið, og má hjer af enn sem oftar marka atorku og dugnað Jóns Sigurðssonar. Af skýrslum, sem gerðar hafa verið við embættismannaskipti í fjelaginu, má sjá, að árið 1827 hefir fjelagið átt 19 bindi í handritum, þar af þrjú prentuð, Málsháttasafn síra Guðmundar Jónssonar, Grasafræði Odds Hjaltalíns og ein deild Árbóka Jóns Espólíns. Árið 1852 er tala handritanna orðin 37 og árið eftir 39 bindi samtals. En þegar hin fyrri skýrsla um handritasafn Bókmenntafjelagsins er gefin út (1869), er safnið orðið 771 bindi, að meðtöldum handritum Reykjavíkurdeildarinnar. Þenna vöxt má án efa mest þakka Jóni Sigurðssyni, sem manna best kunni að meta handrit og gildi þeirra. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 5. maí 1855 farast Jóni svo orð:

»Jeg vil vona, að allt af fjölgi þeir, sem það skilst, að þeir breyta miklu skynsamlegar, sem senda fjelaginu allt, hvað þeir hafa af handritum, þeim sem nefnd eru í boðsbrjefi fjelagsins, en hinir, sem geyma sinn hvað og liggja á því, þangað til það fúnar sundur eða verður eldsmatur fyrr eða síðar, en allir vita, að þá fyrst verður

gagn að slíku, þegar mikið kemur saman af því á einn stað. Yrðum vjer svo heppnir að fá svo mikið handritasafn, að nokkuð kvæði að, mundum vjer geta látið prenta yfirlit yfir það, svo að það yrði ekki á víð og dreif í skýrslum fjelagsins.«

Eftir þetta óx handritasafnið enn hröðum skrefum og er orðið um 1600 bindi, þegar síðari skýrslan um það er gefin út, árið 1885, og eftir það jókst það enn nokkuð.

Það var sjerstaklega Kaupmannahafnardeildin, sem varð fyrir því að fá handritin. En þó bárust og Reykjavíkurdeildinni nokkur handrit, og eignaðist hún einnig smám saman eigi lítilsvert safn. Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 23. júlí 1856 er því hreyft, að prentuð sjeu í blöðunum tilmæli til landsmanna um að senda Reykjavíkurdeildinni forn handrit, gömul skjöl og annað þess háttar, eins og Kaupmannahafnardeildin hafði áður gert. Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 11. febrúar 1853 var samþykkt að kaupa handrit Sveinbjarnar Egilssonar fyrir 800 ríkisdali, og var það einnig samþykkt á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 16. janúar 1854, en ekki mun þó hafa orðið af þeim kaupum. Jón Árnason, bókavörður, bauð og Reykjavíkurdeildinni handrit sín, 220 bindi, fyrir 700 ríkisdali. Á fundi deildarinnar þann 6. júní 1872 komst það mál svo langt, að nefnd var kosin til þess að íhuga það (dr. Grímur Thomsen, Jón rektor Þorkelsson og síra Þorvaldur Bjarnarson), en ekki varð úr þeim kaupum; nú er það handritasafn í Landsbókasafninu.

Flest voru handritin þegin að gjöf. Langhæstur að bindatölu er *Jón Borgfirðingur,* því að hann hefir gefið safninu rúm 300 bindi samtals smám saman, og var slíkt rausnarlegt af fátækum manni. Þar næstur er *Guðmundur* sýsluskrifari *Einarsson,* sem arfleiddi fjelagið að öllum bókum sínum, svo sem áður er á vikið, og eru handritin frá honum samtals 84 bindi. Þá hefir *Marteinn Jónsson,* gullsmiður á Stafafelli, látið fjelaginu í tje 68 bindi handrita. Næstur honum er *Sigmundur Mattíasson,* sem gefið hefir samtals 60 bindi. Aðrir, sem styrktu handritasafnið mest að gjöfum, voru *Brynjólfur Oddsson,* bókbindari, *Guðbrandur Vigfússon,* málfræðingur, *Guðmundur Guðmundsson,* bóndi í Miðskerjum, *Guðmundur Thorgrímsen,* verslunarstjóri á Eyrarbakka, frú *Hólmfríður Þorvaldsdóttir* í Reykjavík, síra *Jóhann Briem* í Hruna, *Jón Bjarnason* í Þórormstungu, síra *Jón*

*Ingjaldsson* í Húsavík, *Jón Jóhannesson,* bókbindari í Leirárgörðum, *Jón Jónsson* á Munkaþverá, *Jón Sigurðsson,* skjalavörður, *Jónas Hallgrímsson,* náttúrufræðingur, *Móritz Halldórsson,* læknir, *Níels Breiðfjörð,* beykir í Stykkishólmi, *Ólafur Briem,* hreppstjóri á Grund (31 bindi), *Ólafur Stephensen,* jústitsráð í Viðey, síra *Pjetur Jónsson* á Kálfatjörn, *Sighvatur Grímsson Borgfirðingur,* síra *Sigurður B. Sivertsen* á Útskálum (26 bindi), *Sigurður Sverrisson,* sýslumaður í Bæ, *Þorlákur Ó. Johnson,* kaupmaður, *Þorsteinn Þorsteinsson* á Upsum (48 bindi). Hjer eru að eins nefndir þeir, sem mest hafa gefið. Þetta handritasafn Bókmenntafjelagsins hefir að geyma mörg stórmerk handrit um sögu landsins og bókmenntir á síðari öldum; sjerstaklega er kvæðasafn og rímnasafn þar merkt mjög. En um nánari greinagerð á því vísast til skýrslna þeirra, er fjelagið hefir gefið út um safnið.

Nú er því í rauninni svo farið, að fjelag eins og Bókmenntafjelagið hefir í sjálfu sjer ekkert við handritasafn að gera; það gat jafnvel verið hættulegt handritasafninu að vera í fórum fjelagsins; bæði hafði það ekki góðu húsrúmi á að skipa til þess að geyma handritin, og í annan stað skipti iðulega um stjórn fjelagsins og þar með bókaverði, og gat það engan veginn verið hollt handritasafninu. Með fram af þessum ástæðum, og þó fremur vegna skulda þeirra, sem Reykjavíkurdeildin var komin í um það leyti, var því hreyft á stjórnarfundi í Reykjavíkurdeild fjelagsins 9. mars 1895, hvort ekki mundi rjett að selja Landsbókasafninu handritasafnið, og á fundi þeirrar deildar 18. mars 1895 er tillaga um þetta samþykkt. Samkvæmt þeirri ályktun skrifar forseti Reykjavíkurdeildarinnar, Björn M. Ólsen, sem þá hafði nýlega tekið við forstöðu fjelagsins, Kaupmannahafnardeildinni 22. sama mánaðar, og skal hjer tilfærður orðrjettur kafli úr því brjefi. Fyrst í brjefinu er talað um fjárhag Reykjavíkurdeildarinnar og hver ráð sjeu til þess að rjetta hann við. Síðan segir svo:

»Eina ráðið, sem oss hefir hugkvæmst til að rjetta við fjárhag vorn og um leið bæta stórum fjárhag yðar deildar, er að selja Landsbókasafninu handritasafn fjelagsins, ef viðunandi boð fæst. Að vorri hyggju er safn þetta að eins fjelaginu til byrði, en einskis gagns. Það hefir safnað handritunum í þeim lofsverða tilgangi að bjarga þeim frá glötun. En nú, þegar Landsbókasafnið er komið í svo gott horf, eru þau

hvergi betur geymd en þar. Þar væri safni þessu svo óhætt við eldsvoða sem framast er hægt á að kjósa. Þar væri það miklu aðgengilegra til afnota en það er nú. Eins og nú á stendur, verður naumast hjá því komist að lána einstökum mönnum handritin heim til sín, en ef þau væru í Landsbókasafninu, mundu þau samkvæmt reglum þess ekki verða lánuð þannig út, heldur að eins lofað að nota þau í lestrarsalnum, sem er miklu tryggilegra. Jón heitinn Sigurðsson tók það og fram oftar en einu sinni í fundarræðum sínum, sem prentaðar eru í skýrslum og reikningum fjelagsins, að fjelagsmenn gætu flutt safnið heim til Íslands, hvenær sem þeim þætti það ráðlegra eða óhultara en að geyma það í Höfn (sbr. »Skýrslur og reikninga« 1856—7, VIII. bls., og 1857—8, IX. bls.), og er líklegt, að margir hafi gefið fjelaginu handrit einmitt í trausti til þessara yfirlýsinga hans. Að vísu getum vjer ímyndað oss, að sumum vísindamönnum, sem búsettir eru í Kaupmannahöfn og nota mikið handritasafn fjelagsins þar, mundi koma það illa, ef safnið yrði flutt heim. Þetta er mjög eðlilegt, en vjer vonumst svo góðs til þeirra, að þeir muni láta hag Landsbókasafnsins og Bókmenntafjelagsins sitja í fyrirrúmi fyrir sínum eigin hagsmunum, enda vitum vjer til, að stjórn Landsbókasafnsins hefir oft lánað handrit til bókasafna erlendis til afnota fyrir vísindamenn, sem þar eru búsettir, svo að ekki verður sagt, að landar í Kaupmannahöfn verði með öllu sviftir notum safns vors, þó að það samlagist Landsbókasafninu. Ef Landsbókasafnið eignaðist handritasafn Bókmenntafjelagsins í viðbót við það, sem það á áður, mundi það verða birgara en nokkurt annað safn að þeim handritum, sem snerta sögu landsins á síðari öldum. Þá fyrst mundi verða auðið að stunda sögu lands vors á þessu tímabili til nokkurrar hlítar hjer á landi, og er þá von um, að vakna mundi og glæðast innlend sagnfræði og bókvísi, en að því er Bókmenntafjelaginu skylt að styðja samkvæmt skýlausum fyrirmælum laga vorra í 1. grein. Vjer skulum þó hreinskilnislega játa, að þó þessar ástæður sjeu þungar á metunum að vorum dómi, þá eru það ekki þær, sem fyrst og fremst hafa komið oss til að hreyfa þessu máli, heldur einkum og sjer í lagi fjárkröggur þær, sem vjer höfum skýrt frá hjer að framan.

Vjer höfum rætt málið á stjórnarfundum, og er stjórn vorrar deildar einhuga í því að selja handritasafnið, ef viðunandi verð fæst. Sömuleiðis höfum vjer einstaklega leitað fyrir oss hjá þeim mönnum, sem hafa á hendi umsjón Landsbókasafnsins, og fengið hinar bestu undirtektir. Af því að naumur er tíminn til undirbúnings, þótti oss rjettast að bera málið upp á hinum fyrra ársfundi, þó auðvitað í því formi, að í engu væri tekið fram fyrir hendur yðar deildar, sem vjer vonum, að þjer sjáið á því, hvernig fundarályktunin er orðuð.

Ef stjórn yðar deildar vildi sinna málinu, þá væri það að vorri hyggju heppilegast, að hún fengi hjá fundi í yðar deild líka heimild til samninga eins og sú er, sem vjer höfum fengið hjá fundinum nú, þannig að upphæð söluverðsins verði haldið fyrir utan fundarályktunina, ef unnt er, og verði látið vera komið undir samkomulagi milli

stjórnanna og kaupanda. Því næst ættu stjórnir beggja deilda í sameiningu að skrifa umsjónarnefnd Landsbókasafnsins ákveðið tilboð, er þeim kæmi saman um, og mundi hún þá fara þess á leit við alþingi að veita Landsbókasafninu aukreitis á fjárlögunum þá upphæð, sem þarf til að kaupa safnið. Vjer fyrir vort leyti höfum hugsað oss að fara fram á 12000 kr. söluverð. Að setja upphæðina hærri mundi að vorri hyggju vera sama sem að fella málið, og satt að segja erum vjer hræddir um, að alþingi muni varla vilja fara svo hátt, heldur veita nokkru minni upphæð en þessa, og hafa þá deildirnar hvor um sig og báðar í sameiningu frjálsar hendur, hvort þær vilja ganga að eða frá. Það væri mjög æskilegt til framkvæmdar málinu, ef þjer vilduð fela einhverjum manni, sem væri hjer um þingtímann, umboð af yðar hálfu til að semja um málið í sumar bæði við þingið og oss, og af því að fjehirðir yðar deildar, dr. Valtýr Guðmundsson, er hvort sem er væntanlegur til þings, væri líklega enginn betur til þess kjörinn en hann. Vjer tökum þetta fram að eins sem bendingu.

Upphæð þeirri, sem fæst fyrir handritasafnið, ætlumst vjer til, að verði skipt jafnt milli deildanna, og höfum vjer þá í hyggju að nota vorn hluta til að losa deild vora úr skuldum, svo að hún megi um frjálst höfuð strjúka, en leggja afganginn í sjóð, sem deild vor hafi umráð yfir. Erum vjer vongóðir um, ef þetta kemst í kring, að oss muni þá verða auðið eftirleiðis að standa reglulega skil á hinu umsamda tillagi til yðar deildar, sem brestur hefir á orðið að undanförnu sökum getuleysis, en ekki viljaleysis.

Að endingu felum vjer yður þetta áhugamál vort til bestu fyrirgreiðslu í fullu trausti til bróðurlegrar samvinnu og góðs samkomulags frá yðar hálfu.«

Þannig var nú kominn rekspölur á þetta merkilega mál. Samkvæmt tilmælum stjórnar Reykjavíkurdeildarinnar var nú málinu hreyft á fundi í Kaupmannahafnardeildinni 19. apríl 1895, og var þar í einu hljóði samþykkt tillaga, er þá verandi forseti deildarinnar, Ólafur Halldórsson, bar upp og svo hljóðaði: »Fundurinn veitir stjórninni heimild til í samkomulagi við stjórn Reykjavíkurdeildarinnar að semja við Landsbókasafnið um sölu á handritasafni Bókmenntafjelagsins«, sams konar tillaga sem samþykkt hafði verið á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 19. mars. Á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 16. júní 1895 er Þórhallur lektor Bjarnarson kosinn fyrir hönd Reykjavíkurdeildarinnar til þess ásamt fulltrúa Kaupmannahafnardeildarinnar, er var Valtýr dósent Guðmundsson, að gera samning við stjórnarnefnd Landsbókasafnsins um sölu handritasafnsins. Þó dróst enn nokkuð, að Landsbókasafnið tæki við handritasafninu. Var alþingi ekki fyrst í stað liðugt í fjárveitingu til kaupanna; þó kom svo um

síðir, að Landsbókasafnið sá sjer fært að fullgera kaupin, svo að á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 7. júlí 1901 og aðalfundi hennar daginn eftir skýrir forseti deildarinnar frá því, að stjórnarnefnd Landsbókasafnsins hafi gengið að því að kaupa handritasafn Bókmenntafjelagsins gegn endurgjaldi, sem svari til 1000 kr. greiðslu á ári í 22 ár. —

Þannig var þetta mál farsællega til lykta leitt og handritasafnið komið í þær rjettu vörslur, sem það skyldi vera í, og eru nú hverjum sem er heimil afnot þess í Landsbókasafninu, eftir þeim reglum, sem þar eru annars settar fyrir notkun handrita.

Fjárhagur fjelagsins.

Það var undir eins og fjelagið var stofnað gert að fastri reglu, að eigi skyldi varið öllum árstekjunum til bókaútgáfu eða annarra framkvæmda í þágu fjelagsins, heldur skyldi jafnan tekinn nokkur hluti þeirra og komið í skuldabrjef eða önnur trygg verðmæti, er vera skyldi fastur höfuðstóll fjelagsins. Það mun hafa verið reglan lengstum í Kaupmannahafnardeildinni að leggja við höfuðstólinn einn fimmtung af öllum árstekjum deildarinnar. Í Reykjavíkurdeildinni voru árstillögin lengi vel svo lítil, að naumast gat verið um slíkt að ræða; sú deild varð og ekki fyrir þeim stórgjöfum frá konungum og öðru stórmenni, sem fjellu í skaut Kaupmannahafnardeildarinnar. Þó eignaðist sú deild skjótt nokkurn höfuðstól, er ekki var skertur, en lítt óx hann um mörg ár og eigi verulega fyrr en um aldamót og eftir það af ástæðum, sem síðar munu greindar.

Þegar eftir fyrsta reikningsár fjelagsins átti fjelagið fastan sjóð að upphæð 400 ríkisdali. Hjer aftan við fylgir skrá um fastasjóð og peningaeign fjelagsins árlega frá árinu 1866; sams konar skrá er að finna meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins um tímabilið frá stofnun fjelagsins til 1866. Á þessari skrá geta menn glögglega sjeð árlega aukning höfuðstólsins og efnahag fjelagsins, þegar frá er skilin bókaeign þess. Hjer skal að eins sýnt, hver höfuðstóllinn var á 10 ára fresti.

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 30. | mars | 1825 | átti | fjelagið | á | vöxtum | 3800 | ríkisdali |
| 31. | — | 1835 | — | — | - | — | 6100 | — |
| Í | árslok | 1845 | — | — | - | — | 8480 | — |
| - | — | 1855 | — | — | - | — | 9305 | — |
| - | — | 1865 | — | — | - | — | 9250 | — |

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Í árslok | 1875 | átti | fjelagið | á | vöxtum | 18805 | kr. 16 a. |
| - — | 1885 | — | — | - | — | 18300 | — » - |
| - — | 1895 | — | — | - | — | 18000 | — » - |
| - — | 1905 | — | — | - | — | 22500 | — » - |
| - — | 1915 | — | — | - | — | 29000 | — » - |

Frá því um 1870 til aldamóta bætir fjelagið mjög litlu eða jafnvel engu við fastasjóð sinn; ástæðurnar til þess eru fólgnar bæði í meiri bókaútgáfu og dýrari og sumpart (frá því um 1890) í fækkun fjelagsmanna. Eftir aldamótin fer fastasjóður fjelagsins þar á móti að aukast, og hefir svo haldist síðan, enda hafa tekjur fjelagsins aukist stórum bæði með auknum styrk úr landsjóði, endurgjaldi fyrir handritasafnið og (frá því um 1905) með fjölgun fjelagsmanna.

Til þess að gefa mönnum greinilega hugmynd um vöxt fjelagsins og viðgang og fjárhag allan, skal hjer sýnt yfirlit yfir efnahag fjelagsins árin 1900, 1910 og 1915. En til meiri fróðleiksauka og samanburðar er hjer sett sams konar yfirlit yfir árin 1850, 1859 og 1865.

1850 voru árstekjur fjelagsins:

| | |
|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | 323 rd. 60 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | 785 — 88 — |
| Samtals | 1109 rd. 52 sk. |

Ársútgjöldin:

| | |
|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | 253 rd. 60 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | 761 — 68 — |
| Samtals | 1015 rd. 32 sk. |

Sjóður fjelagsins:

| | | |
|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík á vöxtum | 555 rd. » sk. og í peningum | 195 rd. 52 sk. |
| - — - Kaupmh. - — | 8300 — » — — - — | 309 — 90 — |
| Samtals á vöxtum | 8855 rd. » sk. og í peningum | 505 rd. 41 sk. |

Þar að auki í óseldum bókum og landsuppdráttum eftir ágiskun hjer um bil 4000 ríkisdala virði. Í árstillag frá fjelagsmönnum galst 1851: í Reykjavíkurdeildinni 134 rd. og í Kaupmannahafnardeildinni 150 rd., samtals 284 rd.

1859 voru árstekjur fjelagsins:

| | | |
|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | 427 rd. 15 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | | 2742 — 3 — |
| | Samtals | 3169 rd. 18 sk. |

Ársútgjöldin:

| | | |
|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | 380 rd. 2 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | | 2201 — 78 — |
| | Samtals | 2581 rd. 80 sk. |

Sjóður fjelagsins:

Í deildinni í Reykjavík á vöxtum 805 rd. » sk. og í peningum 339 rd. 26 sk.
- — - Kaupmh. - — 8500 — » — — - — 810 — 53 —
Samtals á vöxtum 9305 rd. » sk. og í peningum 1149 rd. 79 sk.

Í óseldum bókum og landsuppdráttum var eign fjelagsins hjer um bil 16000 rd. virði eftir mati. Í árstillag frá fjelagsmönnum galst 1859: til Reykjavíkurdeildarinnar 321 rd. og til Kaupmannahafnardeildarinnar 1523 rd.; samtals 1844 rd.

1865 voru árstekjur fjelagsins:

| | | |
|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | 796 rd. 16 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | | 2799 — 76 — |
| | Samtals | 3595 rd. 92 sk. |

Ársútgjöldin:

| | | |
|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | 912 rd. 36 sk. |
| - — - Kaupmannahöfn | | 2412 — 57 — |
| | Samtals | 3324 rd. 93 sk. |

Sjóður fjelagsins:

Í deildinni í Reykjavík á vöxtum 650 rd. » sk. og í peningum 53 rd. 34 sk.
- — - Kaupmh. - — 8600 — » — — - — 876 — 60 —
Samtals á vöxtum 9250 rd. » sk. og í peningum 929 rd. 94 sk.

Í óseldum bókum og landsuppdráttum var eign fjelagsins hjer um bil 21500 rd. virði eftir mati og keypt ábyrgðarbrjef fyrir brunabætur til 20000 ríkisdala. Í árstillög frá fjelagsmönnum galst 1865: til Reykjavíkurdeildarinnar 329 rd., til Kaupmannahafnardeildarinnar 1502 rd.; samtals 1831 rd.

1900 voru árstekjur fjelagsins:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | kr. | 3315,01 |
| - — - Kaupmannahöfn | | — | 3765,71 |
| | Samtals | kr. | 7080,72 |

Ársútgjöldin:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | kr. | 3403,84 |
| - — - Kaupmannahöfn | | — | 3817,57 |
| | Samtals | kr. | 7221,41 |

Sjóður fjelagsins:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | á vöxtum kr. | » | og í peningum kr. | 38,91 |
| - — - Kaupmh. | - — | — 18000,00 | — - — | — 216,88 |
| Samtals | á vöxtum kr. | 18000,00 | og í peningum kr. | 255,79 |

Það ár verður ekki sjeð, hve mikið fjelagið á í bókum, því að enginn efnahagsreikningur fylgir skýrslunni. Í árstillag frá fjelagsmönnum galst árið 1900: til Reykjavíkurdeildarinnar kr. 921,54 og til Kaupmannahafnardeildarinnar kr. 1097,35; samtals kr. 2018,89.

1910 voru árstekjur fjelagsins:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | kr. | 8748,42 |
| - — - Kaupmannahöfn | | — | 7061,20 |
| | Samtals | kr. | 15809,62 |

Ársútgjöldin:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | | kr. | 6241,12 |
| - — - Kaupmannahöfn | | — | 6615,65 |
| | Samtals | kr. | 12856,77 |

Sjóður fjelagsins:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Í deildinni í Reykjavík | á vöxtum kr. | 5000,00 | og í peningum kr. | 2007,30 |
| - — - Kaupmh. | - — | — 20000,00 | — - — | — 4522,67 |
| Samtals | á vöxtum kr. | 25000,00 | og í peningum kr. | 6529,97 |

Hjer er og eigi metin bókaeign fjelagsins. En í árstillög galst 1910 til Reykjavíkurdeildarinnar kr. 3472,25 og til Kaupmannahafnardeildarinnar kr. 698,97; samtals kr. 4171,22.

| | | |
|---|---|---|
| Árið 1915 eru árstekjur fjelagsins | kr. | 12237,61 |
| en ársútgjöld | — | 10421,59 |
| Þá (1/1 1916) er sjóður fjelagsins á vöxtum | — | 29000,00 |

| | | |
|---|---|---|
| og í peningum | kr. | 7115,78 |
| í óseldum bókum (lágt metnum) á fjelagið | — | 20000,00 |
| ýmsa muni á fjelagið virta | — | 716,00 |
| í fjelagatillög greiðist samtals | — | 5437,00 |
| útistandandi skuldir | — | 2720,00 |
| Samtals er skuldlaus eign fjelagsins talin nema (1/1 1916) | — | 59552,18 |

Eins og sjá má af framanrituðu yfirliti hefir fjelagið aukist mjög síðastliðin 50 ár bæði að árstekjum, bókaeign og höfuðstóli, svo að það má heita vel stætt.

Menn munu skjótt reka augun í það, að tekjur Reykjavíkurdeildarinnar eru lægri miklu en Kaupmannahafnardeildarinnar og Reykjavíkurdeildin yfirleitt stórum mun verr stæð. En þetta kom til af því fyrirkomulagi, að til Kaupmannahafnardeildarinnar rann meginið af tekjum fjelagsins, eins og nánara mun vikið að, þegar rætt verður um samband deildanna. Sú deildin, Kaupmannahafnardeildin, sat og fyrir öllum hinum stærri gjöfum til fjelagsins. Það var því ekki að undra, þótt hagur hennar stæði með blóma, enda var svo alla tíð, nema hvað stökum sinnum voru þar tekin lán til bráðabirgða til þess að skerða ekki hinn fasta höfuðstól fjelagsins. En um Reykjavíkurdeildina var allt öðru máli að gegna; hún hafði af mjög litlu að miðla og mátti fara mjög varlega í bókaútgáfu sinni, til þess að fjárhagurinn stæðist, og um nokkurn verulegan fastan höfuðstól gat engan veginn verið að ræða hjá henni. Þess vegna er og bókaútgáfa þeirrar deildar af mjög skornum skammti lengi vel. En nálægt 1880 vaknar mikill áhugi í deildinni á bóklegum menntum, og gerðist deildin allstórvirk í framkvæmdum og hafði mikinn kostnað. Um það bil er Tímaritið stofnað; þá er farið að gefa út Sýslumannaæfir; þá flytst og Skírnir heim hingað skömmu síðar; þá er og útgáfa Landfræðissögu Íslands hafin hjer. Þegar á þetta bætist það, að frá því nálægt 1890 fer fjelagsmönnum mjög fækkandi, þá er það auðskilið mál, að fjárhagur deildarinnar mundi vart þola svo miklar framkvæmdir, enda varð sú raun á. Árið 1894 er Reykjavíkurdeildin orðin mjög illa stödd, svo að á fundi hennar 19. mars 1895 eru skuldir hennar taldar nema 3818 kr. 71 eyri, en útistandandi tillög fjelagsmanna og umboðsskuldir nema þó nálægt 4000 kr.

Til þess að ráða bót á þessu, sá stjórn deildarinnar sjer eigi annað fært en að deildin kippti mjög að sjer hendinni um bókaútgáfu og ljet nú að sinni eigi gefa út annað en það bóka, sem eigi varð hjá komist; af þessum ástæðum var það og runnið, að tekið var að hreyfa sölu handritasafns fjelagsins, svo sem áður er á vikið. Lagðist nú stjórnin af alhuga á það að bæta hag deildarinnar, og 21. mars 1898 er skuld deildarinnar komin niður í 1400 kr., og kom það til af því, bæði að gamlar skuldir höfðu goldist og enn fremur af því, að bókaútgáfa undanfarin ár hafði ekki verið önnur en hinar venjulegu ársbækur. Þann 20. mars 1899 er skuldin komin niður í 578 kr. 49 aura, en árið 1900 er deildin talin skuldlaus. Upp frá því tók deildin að leggja fyrir fastan sjóð og hjelt þeim hætti og hefir haldið jafnan síðan. Auðvitað er það, að deildin átti jafnan stóreignir í forlagsbókum, og árið 1898 eru birgðir þeirra orðnar svo miklar bæði í Reykjavíkurdeildinni og Kaupmannahafnardeildinni, að deildirnar lenda í húsnæðisbresti; þá var það ráðs tekið að selja hinar óútgengilegri bækur með umbúðaverði, og fjaraði þá drjúgum út úr bókhlöðum deildanna. Þá var og um það leyti (8. apríl 1903) tekið það ráð að selja Landsbókasafninu allar þær prentaðar bækur, er fjelaginu höfðu áskotnast smám saman, og var það allmikið. Söluverð var 200 kr.

---

## III. Framkvæmdir fjelagsins.

Þá er komið að merkasta þættinum í tilveru fjelagsins, en það eru framkvæmdir þess. Samkvæmt lögum fjelagsins var sá tilgangur þess »að viðhalda hinni íslensku tungu og bókaskrift, og þar með fram menntun og heiðri þjóðarinnar, bæði með bókum og öðrum atburðum, svo fremi þess efni leyfa, eftir þessu undirlagi. Fjelagið skal í ljós leiða rit þau, er fyrr meir hafa samin verið á íslensku, einkum þau, hverra höfundar eru dauðir, og hættast er við, að týnast mundu, en landinu væri hinn mesti sómi að. Því næst skal fjelagið ala önn fyrir, að prentaðar verði bækur, er þarflegar virðast fyrir almenning, og líka þær, er brúkast og hentugar eru við kennslu í skólanum. Þó fráskilur fjelagið að svo stöddu sjer í lagi tvær menntagreinir: guðfræði og hin eiginlegu fornfræði, er þrjú önnur fjelög um annast, nefnilega það *Evangeliska Smábóka Fjelag* fyrir norðan, *Biblíufjelagið* fyrir sunnan land og *Árna Magnússonar nefnd* í Kaupmannahöfn« (1.—3. gr. laga fjelagsins, Kaupmh. 1818). Eins og sjá má af 1. gr. laganna, var ekki til þess ætlast, að starfsemi fjelagsins yrði einskorðuð við bókaútgáfu, en eftir eðli fjelagsins hlaut þó svo að fara, að höfuðáherslan væri lögð á framkvæmdir í þá átt, þótt ýmislegt hafi fjelagið afrekað annað til stuðnings »menntun og heiðri þjóðarinnar«, svo sem rakið mun verða síðast í þessum kafla.

Fyrst skal hjer lýst bókaútgáfu fjelagsins og starfsemi allri í þá átt, svo sem föng eru á. Þó verður ekki greint nákvæmlega frá um hin smærri rit.

Það sjest á boðsbrjefum Rasks, að það, sem honum þótti mest á bresta í bóklegum fræðum vorum, var það, að engi almenn *landafræðabók* var til á íslensku, þegar frá var skilin bók sú eftir Gottfried Schultze, er

síra Gunnlaugur Snorrason þýddi (Gottfried Schultzens Ny-Yferskodud Heims-Kringla o. s. frv.) og út kom í Hrappsey 1779. Í samræmi við þetta var sú ályktun gerð þegar á öðrum fundi Kaupmannahafnardeildarinnar (13. apríl 1816) að fela forsetanum, Rask, að reyna að fá mann til þess að semja almenna landafræði á íslensku. Þá var leitað til við *Gunnlaug Oddsson,* stúdent í guðfræði, síðar dómkirkjuprest í Reykjavík, um að semja bókina, og mun hann hafa lofað því hálfvegis, en á fundi veturinn eftir (6. janúar 1817) afsakaði hann sig þó frá því að vera einn um að semja bók þessa, og voru þeir þá kosnir í nefnd með honum: Vigfús Thorarensen, aðstoðarmaður í kanselliinu, Jón Finsen, síðar hjeraðsfógeti, Jón Thorstensen, síðar landlæknir, og Ólafur Stephensen, síðar hjeraðsdómari í Eplatópt á Jótlandi. Þó er ekki unnt að sjá, að nefndarmenn þessir hafi tekið nokkurn verulegan þátt í samningu ritsins, en *Grímur Jónsson,* er þá var fjehirðir fjelagsins, síðar amtmaður, og mjög ljet sjer annt um fjelagið alla tíð, tók að sjer að rita fyrsta part bókarinnar, en þegar hann fór frá Kaupmannahöfn (í ágústmánuði 1819), afsalaði hann sjer því verki með samþykki fjelagsins í hendur *Þórði Sveinbjörnssyni,* síðar justitiarius, en allt hitt mun vera samið af Gunnlaugi Oddssyni. Steinprentaðir landsuppdrættir fylgdu bókinni, og hafði fjelagið fengið aðstoð *Borns,* liðsforingja, er um hríð var við landmælingar hjer á landi, til þess að búa þá út. Þannig kom bók þessi út í fimm deildum á árunum 1821—1827, samtals 1472 bls. í áttablaða-broti, með 6 landabrjefum. Kostnaður fjelagsins var töluverður fyrir pappír og prentun, en verkið sjálft mátti telja, að fjelagið fengi fyrir ekkert, því að það veitti aðalhöfundinum að eins 100 ríkisdala þóknun, er starfi hans var lokið, og var þá um sama leyti kosin nefnd til þess að semja registur við ritið (Páll Þorbergsson, síðar læknir, Eggert Jónsson, síðar læknir, Ögmundur Sigurðsson, síðar prestur, Sigfús Skúlason, síðar sýslumaður, og Þórður Jónasson, síðar justitiarius). Þessi bók ávann sjer mikla hylli meðal alþýðu manna hjer á landi og seldist drjúgum, enda telur Jón Sigurðsson, að hún sje hin fyllsta og besta landfræðabók, sem út hafi komið á Norðurlöndum fram að þeim tíma. Því vildi fjelagið og fá samþykki landstjórnarinnar (15. júní 1822) til þess, að bókin yrði tekin upp í Bessastaðaskóla sem kennslubók, en ekki varð því framgengt að

heldur, hvað sem til hefir komið, en skólapiltar námu sem áður landafræði sína af dönskum kennslubókum, þótt miklu væru ljelegri og ófróðlegri.

Þótt landafræðin væri sú bók, er fyrst var ákveðin til prentunar af deildinni, þá varð þó önnur fyrri til þess að koma út frá fjelaginu, en það var *Sturlunga saga* og saga Árna byskups. Þess hefir verið getið áður, að Byrgir Thorlacius, prófessor við Kaupmannahafnarháskóla í forntungunum, annálaður öðlingur og göfugmenni, hafði lofað að gefa fjelaginu 100 ríkisdali í silfri árlega, ef það tæki til prentunar Sturlunga sögu eða eitthvert annað fornt sögurit óprentað, og skyldi sú gjöf standa, meðan prentunin stæði yfir. Þetta mun hafa ýtt undir útgáfuna, því að þá þegar um sumarið valdi fjelagsdeildin í Kaupmannahöfn (22. júlí 1816) Sturlunga sögu eða Íslendinga sögu hina miklu, sem svo er kölluð, til prentunar og kaus nefnd manna til þess að standa fyrir útgáfunni; var forstöðumaður þeirrar nefndar Bjarni Thorsteinson, síðar amtmaður, er þá var varaforseti deildarinnar, og þessir með honum: Sveinbjörn Egilsson, síðar rektor, Þórarinn Magnússon Öfjord, síðar sýslumaður, Gísli Brynjólfsson, síðar doktor og prestur, og Sigurður (Stefánsson amtmanns) Thorarensen, sem allir voru þá að námi í Kaupmannahöfn. Nefndarmönnum var lofað fyrir starfa sinn tveim eintökum af bókinni á skrifpappír í þóknun. Nefndarmenn leystu starfa sinn rösklega af hendi, svo að öll Sturlunga og Árna byskups saga var fullprentuð á fjórum árum og er þó samtals 1040 bls. í fjögurrablaðabroti, og formaður nefndarinnar, Bjarni Thorsteinson, sem þá var einnig forseti Kaupmannahafnardeildarinnar, gat hrósað því happi að fá aflokið þessu verki áður en hann skilaði af sjer forsetadæminu og fór alfarinn heim hingað til embættis síns; annars unnu þeir Sveinbjörn og Gísli mest með honum að útgáfunni, sjerstaklega Sveinbjörn. Þessi útgáfa Sturlunga sögu mun nú ekki þykja fullnægja þeim kröfum, sem gerðar eru til vísindalegra útgáfna af fornritum, en þegar þess er gætt, að þetta var í fyrsta sinn sem Sturlunga var gefin út, og þess, hve erfiðar eru jafnan rannsóknir og textaval í ókönnuðu efni, þá mun þó mega telja, að útgáfan hafi verið fjelaginu til sóma og þó einkum mjög stutt að því að vekja fróðleiksfýsn alþýðu.

Sturlunga saga tekur yfir stórmerkan kafla í sögu landsins, og því var það, þegar prentunin fór að komast langt á leið, að forstöðumenn fjelagsins tóku að hugleiða, hversu fá mætti til prentunar annað merkt íslenskt rit um sögu landsins, er tæki við þar, sem Sturlungu þrýtur. Þá bar svo vel til, að fjelagið fekk að vita um þær mundir, að *Jón Espólín,* sýslumaður í Skagafirði, hefði samið *„Árbækur Íslands í söguformi“* og væri kominn langt áleiðis með það verk, en það tók einmitt við þar, sem Sturlungu lauk. Fjelagið fekk þá upphafið sent frá höfundinum, og á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 3. nóvember 1820 var ákveðið að prenta fyrstu deildina um veturinn eftir. Nefnd var þá kosin til þess að standa fyrir útgáfunni, og hlutu sæti í henni: forsetinn (Bjarni Thorsteinson), Þórður Sveinbjörnsson, síðar justitiarius, og Þorgeir Guðmundsson, þá stúdent í guðfræði, en síðar forseti deildarinnar og prestur. Fyrsta deild Árbókanna kom út um vorið 1821, og ritaði Bjarni Thorsteinson formála fyrir, áður en hann skilaði af sjer forsetadæmi í deildinni og færi heim hingað. Þar eftir hjelt Finnur Magnússon áfram útgáfunni og síðan Rask, svo að allt þetta sagnarit var fullprentað í níu deildum á árunum 1821 til 1830; síðar kom út 10. deildin, 1843, og 1854 til 1855 kom út 11. og 12. deildin. Þetta mikla söguverk nær yfir sögu Íslands á árunum 1262 til 1832 og hefir orðið flestum ritum vinsælla með alþýðu, enda er það hinn mesti fróðleiksbrunnur og stórmerkt að gildi, þótt smávillur ýmiss konar hafi slæðst þar inn. Ekki fekk höfundurinn nein eiginleg ritlaun fyrir þetta verk sitt hjá fjelaginu, en 1826 gaf það honum »Eddalære« eftir Finn Magnússon sem heiðursgjöf, með því að hann langaði til að eignast það rit; þar að auki fekk hann Árbækurnar sjálfar innbundnar og 10 eintök að auki óinnbundin. Enn fremur studdi fjelagið hann og til þess að fá eftirlaun, sem þá voru eigi lögákveðin sýslumönnum til handa, og hefir áður verið drepið á þetta.

Svo er ráð fyrir gert í 4. gr. hinna fyrstu laga fjelagsins, að fjelagið skuli láta prenta hvert ritsafn fyrir sig, »en ekkert það ritsafn, er framhaldið verður árlega, nema stutt frjettablöð, er innihalda eigu þær helstu nýjungar viðvíkjandi landstjórn, merkisatburðum, búskap, kauphöndlan og bókaskrift bæði innan lands og utan; þó skal enga íslenska bók lofa nje

lasta, heldur að eins í stuttu máli drepa á hennar inntak, en vel þykir tilfallið að segja meiningu sína um bækur á öðrum tungum, sem almenningur á Íslandi getur síðar dæmt um sjálfur«. Þetta hafði Kaupmannahafnardeildin samþykkt þegar í upphafi og ætlaði sjer að koma því í verk fyrst af öllu. Sú ályktun var gerð í deildinni á fundi 9. september 1816 að fá slíkt frjettarit samið og prentað þá að haustinu til og senda af því 300 eintök hingað til lands; skyldi það vera ókeypis látið í tje við fjelagsmenn að því sinni, en selt öðrum við lágu verði. En þessu varð ekki framgengt þá um haustið, og kom fyrsta hefti ritsins út vorið eftir (1817) og nefndist *„íslensk sagnablöð“*, en var venjulega kallað »Sagnablöðin«; fylgdi þar með nafnaskrá fjelagsmanna, skýrsla um athafnir fjelagsins og ársreikningur þess. Það reyndist skjótt svo, að fjelagsstjórnin hafði hjer gert fjelaginu búhnykk, því að Sagnablöðin urðu brátt vinsæl, og varð að prenta tvisvar sumar deildir þeirra. Í annarri deild þeirra er ágrip af sögu Íslands um árabilið frá 1804, þegar hættu »Minnisverð tíðindi«, er Landsuppfræðingarfjelagið gaf út, en Magnús Stephensen ritaði, og hafa þeir síra Árni Helgason og Bjarni Thorsteinson samið það, en útlendu frjettirnar samdi Finnur Magnússon. Þegar tímarit þetta hafði staðið 10 ár, var það ákveðið á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 3. apríl 1827 að breyta nafni tímaritsins og broti, því að handhægara þótti að hafa það í áttablaðabroti en í fjögurrablaðabroti, eins og Sagnablöðin voru. Með breytingunni var nú ritinu gefið nýtt nafn og kallað *Skírnir,* sem það hefir síðan heitið. Fyrsta ár Skírnis hefir samið Finnur Magnússon, eins og áður Sagnablöðin, en síðan tóku aðrir við eftir tilmælum stjórnarinnar, fyrst *Þórður Jónassen,* síðar justitiarius, sem þá var að lögfræðanámi í Kaupmannahöfn; hann samdi annað og þriðja ár; þar næst *Baldvin Einarsson,* sem þá var og að laganámi, fjórða ár, en þá tók Þórður Jónasson við aftur. Með fyrsta ári Skírnis byrjaði fjelagið að láta fylgja frjettunum skrá helstu bóka, sem prentaðar höfðu verið á frjettaárinu, einkum í Danmörku; var þessu síðan lengi framhaldið, og á fyrstu árunum voru dómar um bækurnar og skýrt nokkuð frá efni þeirra. Bókaskrá þessa samdi í fyrsta sinn *Þorgeir Guðmundsson,* guðfræðingur, er þá var fjehirðir deildarinnar, en síðan forseti.

Það mun rjettast að greina hjer höfunda Skírnis alla tíð, með því að

þeir eru sjaldnast nefndir í ritinu sjálfu, og síðan segja sögu Skírnis, þótt margt komi þar saman við, er tekur til annarra framkvæmda fjelagsins. Þegar Þórður Jónasson hætti við Skírni, tóku þeir hann að sjer um eitt ár *Konráð Gíslason* og *Jónas Hallgrímsson* (1836); árið eftir (1837) *Jón Sigurðsson* og *Magnús Hákonarson*, síðar prestur; 1838 *Magnús Hákonarson;* 1839—1841 *Brynjólfur Pjetursson;* 1842 *Jón Pjetursson,* síðar justitiarius; 1843 *Brynjólfur Pjetursson;* 1844—1845 *Gunnlaugur Þórðarson,* er þá var að læknisnámi við háskólann; 1846 *Grímur Thomsen,* doktor; 1847 *Gunnlaugur Þórðarson;* 1848 *Gísli Magnússon,* síðar adjunkt, og *Halldór Friðriksson,* síðar yfirkennari; 1849—1851 *Gunnlaugur Þórðarson;* 1852 *Jón Guðmundsson,* ritstjóri Þjóðólfs; 1853 *Arnljótur Ólafsson* og *Sveinn Skúlason,* síðar prestar; 1854 *Sveinn Skúlason;* 1855—1860 *Arnljótur Ólafsson;* 1861—1862 *Guðbrandur Vigfússon,* málfræðingur; 1863—1872, 1875, 1877—1887 *Eiríkur Jónsson,* Garðprófastur; 1873—1874 *Björn Jónsson,* síðar ritstjóri Ísafoldar; 1876 *Guðmundur Þorláksson,* cand. mag.; 1888—1891 *Jón Stefánsson,* doktor; 1892 *Jón Stefánsson* og *Einar Hjörleifsson;* 1893 *Ólafur Davíðsson* og *Einar Hjörleifsson;* 1894—1895 *Einar Hjörleifsson;* 1896—1902 *Jón Ólafsson;* 1903 *Þorsteinn V. Gíslason.*

Því formi, sem Skírnir fekk þegar í fyrstu, hjelt hann lengi. Þó var fellt niður að flytja í honum grafskriftir og erfiljóð og annan kveðskap, sem hann flutti í fyrstu. Þess má geta, að Jón Sigurðsson, síðar forseti fjelagsins, bar upp þá tillögu á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 24. september 1838 að breyta 4. gr. laganna á þessa leið: »Fjelagið skal á ári hverju láta prenta frjettablöð, er innihalda eiga þær helstu nýjungar viðvíkjandi landstjórn, merkisatburðum, búskap, kaupverslun og bókaskrift, bæði innan lands og utan«. Þessi tillaga var samþykkt með 23 atkvæðum gegn 1. Þetta virðist vera heldur meinlausleg tillaga, en svo þótti ekki, þegar málið kom fyrir Reykjavíkurdeildina, og varð úr hinn mesti úlfaþytur, tillagan felld á fundi þar 16. júlí 1839, og síðan skrifaði stjórn deildarinnar Kaupmannahafnardeildinni allharðort brjef út af þessu, dags. 1. ágúst 1839. Brjef þetta er stórmerkilegt að því leyti, að það sýnir vel tíðarandann og skýrir ýmislegt það, sem þá er á dagskrá með Íslendingum. Fyrir því er það tekið upp hjer orðrjett. Það hljóðar svo:

»Oss undirskrifuðum sýnist engin gild orsök til að umbreyta Bókmenntafjelagslaganna 4. § eða burttaka það af honum, sem bannar að lofa eða lasta íslenskar bækur, því 1) ætlum vjer, það sje mótstæðilegt þeirri grein laganna, sem segir, fjelagið ætli sjer að eins að gefa út sem ársrit stutt frjettablað (§ 4); en takist bókadómar inn í Skírni, lengir það ritið töluvert, því eigi þeir að vera að nokkru liði, verða röksemdir að tilfærast bæði fyrir því, sem lofað er og lastað í ritgerðum, sem dæmast. Þeir, sem ritað hafa þá bók, sem í Skírni dæmist, yrðu þá líka að hafa leyfi til, ef þeim svo littist, að bera hönd fyrir höfuð sjer líka í Skírni, sem gæti tekið allt of mikið rúm frá frjettunum, hverjar almenningur hjer helst girnist, en fellir sig lítið við að lesa bókadóma, nema þeir sjeu skrifaðir í þeim tón, er vjer víst ætlum, að fjelag vort mundi aldrei vilja hafa í þeim ritum, sem út kynnu koma undir þess skildi. Hvergi er það heldur nefnt í fjelagsins lögum, að fjelagið skuli dæma um bækur eða ritgerðir. Þess aðaltilgangur er (sjá § 1) að viðhalda íslenskri bókaskrift, og þetta er útlistað í § 2, nefnilega að gefa út rit, sem fyrr meir hafa verið samin á íslensku, einkum þau, hverra höfundar eru dánir, og hættast er við að týnast mundu, en landinu væri mesti sómi að, sem og bækur þarflegar almenningi og hentugar skólabækur. Í § 4 stendur meðal annars, að frjettablaðið skuli innihalda meðal annars »helstu nýjungar viðvíkjandi bókaskrift bæði innan lands og utan«, en strax á eftir er bannað að lofa eður lasta íslenskar bækur, en leyft að segja meiningu sína um bækur á öðrum tungum, þar almenningur á Íslandi getur sjálfur dæmt um og metið verð hverrar íslenskrar bókar, hvað og er satt, því viðkomi ritið lærðum málefnum, geta lærðir menn á Íslandi nær sanni sjeð, hvað mikið er í ritgerðina varið, og sje hún alþýðleg, þá mega greindir og reyndir menn, þó ei hafi til bókmennta verið settir, gera sjer nokkurn veginn rjetta hugmynd um verð bókarinnar. Meining laganna virðist því sú, að dómar bókanna skuli tilheyra almenningi (publico), og til þessa dómstóls heyrum vjer oft rithöfunda skírskota dómum, sem lagðir eru á þeirra ritgerðir af einstökum dómendum. Oss sýnist næst og samkvæmt vors fjelags lögum, að hver íslensk bók lofi og lasti sig sjálf, því verkið lofar meistarann. Almenningur fer ei heldur í sínum dómum eftir því, hvað einstökum mönnum þykir í hverja bók varið. — 2) Virðist nú sama orsök sem áður, þá lögin voru samin, til að láta 4. § laganna standa óraskaðan. Tilefni til að setja þessa lagareglu, vita elstu meðlimir vors fjelags, var það að koma í veg fyrir viðlíka bókadóma og útkomu fyrst eftir að prentsmiðja var sett á Leirárgörðum. Vort fjelag vildi sneiða hjá þessu skeri og ætti enn að vilja sama, gera gagn í kyrrð og spekt, og varast sem mest allt það, er nokkur líkindi væru til, að vakið gæti óánægju, ýmigust eða kala. Hvað annt fjelagi voru var í upphafi um þetta, má sjá af laganna 7. §. Allir vita, hvað rithöfundar eru hörundsárir og ritdómendur oft meinsamir í sínum aðfinningum. Allir muna enn, hvílíkt pennastríð spannst fyrir fáum árum út af dómi, sem kom á prent yfir útlegging Knytlingu, og ekki hafa bókadómar Fjölnis aukið vin-

sæld hans hjer á landi. Vjer óttumst því bæði óeirð og kala fjelaginu búinn, tæki það fyrir sig að útgefa bókadóma. Þeir einu tveir meðlimir vorrar deildar, sem ekki eru á sömu meiningu sem vjer, vilja koma í veg fyrir þetta með því að gefa á vald forseta deildarinnar í Höfn, hverir bókadómar í Skírni skulu inntakast, og gera ráð fyrir, að þá verði þess háttar dómar svo samdir sem vera ber, samt með því að bókadómarinn setji nafn sitt undir dóminn. Vjer þar á móti vitum, hver nú er forseti Kaupmannahafnardeildarinnar, en ekki, hver verða kann að ári, því síður seinna, og þykir laganna vernd í þessari grein miklu vissari heldur en besta von um, að lagaleyfið verði ei misbrúkað. Ekki sýnist oss það heldur vörn fjelaginu í þessu tilliti, þótt bókadómarnir útkomi í Skírni undir nafni þess, er þá hefir samið, því veki dómurinn óánægju, getur ei fjelagið og allra sist forseti fjelagsdeildarinnar í Kaupmannahöfn sloppið hjá ámæli, því þegar dómurinn er prentaður í fjelagsins ársriti og eftir forsetans ráðstöfun, sýnist það hafa samþykkt dóminn, og fjelagið spillir þá fyrir sjálfu sjer, og þó ekki sje víst, að svona fari, ætti mögulegleikinn að vera nóg hvöt fyrir heilt fjelag að brúka þá varkárni, að þetta geti ei skeð. Þetta álit höfum vjer undirskrifaðir á 4. § í Bókmenntafjelagsins lögum, eins og vjer líka höfum þá meiningu, að þegar nærri engin bók er nú skrifuð á íslenskri tungu, sje ekki vert að draga þær fáu í svip fyrir dómstólinn, sem eftir voru ástandi getur trauðlega orðið uppörvun til þess háttar viðburða. Það er mátulegt, að þeim sje leyft að kveðja lífsins skoðunarpláss, sem eru svo áræðnir að láta eitthvað prenta, því það er reglan, að eftir dauðann komi dómurinn. Þeir dómar, sem koma á prent um ritgerðir lifandi höfunda, eru, eins og allir vita, ekki mjög áreiðanlegir ætíð, stundum smjaður og stundum sýnishorn þess, hvað hinum er lagið að leita að og finna lýti á allra verkum nema sínum eigin.«

Eins og sjá má af þessu brjefi, hefir stjórn Reykjavíkurdeildarinnar verið logandi hrædd um, að Fjölnismenn næðu yfirtökum í deildinni í Kaupmannahöfn, en þeir voru þá taldir vargar í vjeum. Þar sem minnst er á þýðinguna á Knytlingu, er átt við þýðing, sem C. C. Rafn gerði, en af reis ritdeila milli Rasks og Baldvins Einarssonar og í drógust flestir menntamenn íslenskir, sem þá voru í Kaupmannahöfn, á einhvern hátt. Þeir tveir, sem brjefið getur um, að verið hafi samþykkir tillögu Kaupmannahafnardeildarinnar, voru gjaldkeri og varagjaldkeri Reykjavíkurdeildarinnar, sem þá voru Þórður Jónasson, síðar justitiarius, og Jón Jónsson (Johnsen), þá assessor, síðar bæjarfógeti í Álaborg. Úr þessari tillögu varð því ekkert í þetta sinn, en við endurskoðun laganna, er fram fór til fullnaðar 1851, varð þó greinin orðuð í samræmi við tillöguna, og kom þá ekki til deilna út af því atriði.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 23. mars 1861 »var það, samkvæmt uppástungu eins fjelagsmanns, álit fjelagsmanna að rita deildinni í Kaupmannahöfn og biðja hana eftirleiðis að sleppa úr að öllu leyti frjettabálkinum úr tjeðu ársriti [Skírni], en í þess stað hafa að eins lista yfir helstu útkomnar bækur á Norðurlöndum, lista yfir meðlimi fjelagsins og ársreikninga beggja deilda«. Samkvæmt þessari fundarályktun skrifaði stjórn Reykjavíkurdeildarinnar Kaupmannahafnardeildinni brjef, dags. 12. ágúst 1861, og segir þar svo:

»Þessi uppástunga [þ. e. um niðurfelling frjettanna í Skírni] var ítarlega rædd og fekk samþykki deildar vorrar, því flestir voru á einu máli um það, að frjettabálkurinn í Skírni gæti nú á tímum ekki haft neina verulega þýðingu í samanburði við það, sem fyrr hefði verið, þar sem nú væru samgöngur orðnar langtum tíðari milli Íslands og útlanda en áður, og innlend blöð væru til, sem kæmu út á hálfsmánaðarfresti og flyttu landsmönnum jafnóðum frjettirnar, svo af því leiddi, að Skírnir, sem kæmi út að eins einu sinni á ári, gæti ekki annað en orðið á eftir og borið frjettirnar löngu eftir að þær væru orðnar almenningi kunnugar. Það varð því álit deildar vorrar að biðja yður, ef þjer yrðuð þessari uppástungu samdóma, að sleppa eftirleiðis frjettabálkinum úr Skírni, en láta í þess stað ársritið einungis innihalda lista yfir helstu útkomnar bækur á Norðurlöndum, lista yfir meðlimi fjelagsins, ársreikninga beggja deilda og annað það, sem fjelag vort snertir.«

Ekki vildi þó Kaupmannahafnardeildin verða við þessari tillögu og barði við vinsældum Skírnis. Skírnir hjelt því áfram að koma út í sama formi framvegis, og sjest nú ekkert á hann minnst nje breytinga á honum æskt um langa hríð.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 6. júlí 1872 bar síra Þórarinn Böðvarsson upp tillögu um það, að Skírnir yrði fluttur hingað og gefinn út af deildinni hjer, og var sú tillaga samþykkt á fundinum. Um þetta ritaði svo stjórn deildarinnar hjer Kaupmannahafnardeildinni, en á fundi þar 18. janúar 1873 var þessari málaleitun Reykjavíkurdeildarinnar hafnað með öllum atkvæðum. Síðan er ekki haggað við Skírni um langa hríð, þangað til á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 25. júní 1887; þar var þá samþykkt svo hljóðandi fundarályktun: »1) Fundurinn skorar á stjórnina að annast um, að Skírnir með sínu núverandi innihaldi fari framvegis ekki fram úr 5 örkum á ári; þó eru þau ár undanskilin, sem hafa frá ein-

stökum styrjöldum eða öðrum allsherjarstórtíðindum að segja. 2) Auk þessara 5 arka er stjórninni heimilt að hafa í ritinu vel samin yfirlit yfir málefni Íslands í útlendum blöðum og ritum; þó má viðauki þessi aldrei fara fram úr 2 örkum á ári og ritlaun og prófarkalestur alls Skírnis ekki fram úr 250 kr.«

Á fundi Reykjavíkurdeildar þann 2. febrúar 1889 ber þá verandi forseti, Björn Jónsson, upp tillögu, sem fer fram á að breyta lögunum í þá átt, að útgáfa Skírnis flytjist til Reykjavíkurdeildarinnar. Stendur þessi tillaga í sambandi við samninga deildanna um »heimflutningsmálið«, er þá var efst á dagskrá, sem síðar mun sagt. Tillagan var samþykkt með samhljóða atkvæðum, og á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. apríl sama ár er þessi lagabreyting samþykkt einnig með samhljóða atkvæðum.

Þá var nú Skírnir kominn hingað, en ekki breyttist samt form hans nje efni að neinu leyti að sinni. En smám saman fara menn að hreyfa því, að Skírnir sje óþarfur í því formi, sem hann var, og samsvari ekki kröfum tímans. Óánægju bryddi og á með Tímaritið, sem skýrt mun frá á sínum stað. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 2. maí 1896 er málið tekið til umræðu, og eru allir ræðumenn sammála um það, að Skírnir sje óþarfur, og sumir vilja einnig hætta við að gefa út Frjettir frá Íslandi. Að loknum umræðum var samþykkt svo hljóðandi fundarályktun: »Það er ósk deildar hins íslenska Bókmenntafjelags í Kaupmannahöfn, að fjelagið hætti að gefa út Skírni og Frjettir frá Íslandi«. Enginn greiddi atkvæði á móti tillögunni. Síðan er málið tekið fyrir á fundi, sem stjórn Reykjavíkurdeildarinnar hjelt með sjer þann 1. júlí 1896. Forseti skýrði frá fundarályktun Kaupmannahafnardeildarinnar, en »vegna undirtekta þeirra, sem þetta mál hafði fengið hjá umboðsmönnum úti um land, var samþykkt að bera ekki að sinni upp neina lagabreytingartillögu í þessa átt«. Enn er málið tekið fyrir á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 8. maí 1897 og þar samþykkt tillaga um að senda í samráði við forseta Reykjavíkurdeildarinnar eyðublöð til allra fjelagsmanna með fyrirspurn um það, hvort þeir vildu halda Skírni eða ekki. Þessi fundarályktun var tekin til meðferðar í Reykjavíkurdeildinni á fundi hennar þann 8. júlí 1897. Urðu um málið töluverðar umræður og allskiptar skoðanir um framhald á útgáfu útlenda

frjettabálksins í Skírni, en allir vildu halda áfram Frjettum frá Íslandi. Það varð þó úr, að samþykkt var með nokkurra atkvæða mun að bera undir fjelagsmenn, hvort fella vildu niður útlendu frjettirnar í Skírni, en fellt með miklum meira hluta atkvæða að láta þessa spurning einnig ná til Frjetta frá Íslandi. Samkvæmt þessum fundarályktunum var nú leitað atkvæða fjelagsmanna. Þann 3. mars 1898 á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar skýrir þá verandi forseti, rektor Björn M. Ólsen, frá árangrinum af atkvæðagreiðslunni, og var hann á þá leið, að samtals höfðu að eins 166 fjelagsmenn greitt atkvæði um málið; þar af höfðu 82 verið andvígir því að leggja niður útlendu frjettirnar, 80 samþykkir því, en 4 fjelagsmenn höfðu bundið atkvæði sín einhverjum þeim skilyrðum, að þeir verða með hvorugum taldir, eða svarað upp á annað en spurt var um. Af þeim atkvæðum, sem gild voru, voru úr Reykjavík 62, þar af 44 já, 18 nei, utan Reykjavíkur 100 atkvæði, þar af 36 já, 64 nei. Af þessu má sjá, að áhuginn á að leggja niður útlendu frjettirnar var mestur í Reykjavík, þar sem menn höfðu blöðin, en þar á móti er mönnum úti um landið enn þægð í frjettunum, ef dæma má eftir atkvæðagreiðslunni. Samkvæmt þessari atkvæðagreiðslu lýsti stjórnin yfir því á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 21. mars 1898, að hún gæti eigi mælt með afnámi útlendu frjettanna í Skírni, og hafði enginn á fundinum neitt við það að athuga.

Þó mun vera af þessum rótum runnin stefna, sem gerir vart við sig í fjelaginu árið eftir og gengur í þá átt, að fjelagið stofni og gefi út alþýðlegt tímarit. Á fundi stjórnarnefndar Reykjavíkurdeildarinnar þann 10. júní 1899 var samþykkt að bera undir næsta aðalfund svo hljóðandi ályktun: »Fundurinn felur stjórninni að fara þess á leit við alþingi að veita Reykjavíkurdeildinni 5000 kr. styrk fyrir árið 1901 til útgáfu alþýðlegs tímarits, er sje 36 arkir á stærð, með drjúgu letri og myndum, og komi út í 6 heftum árlega og kosti í lausasölu 3 kr.« Á fundi deildarinnar þann 4. júlí var svo þessi tillaga rædd, og urðu um hana langar og fjörugar umræður með og móti þörfinni á slíku tímariti og um það, hvaða vöxt og viðgang það gæti fengið, og hver skilyrði væru fyrir hendi, að það yrði vel úr garði gert. En þær urðu lyktir á, að tillagan var felld með 20 atkvæðum gegn 12. Lá nú þetta kyrrt um hríð. En á aðalfundi Reykjavíkurdeildarinnar þann

8. júlí 1903 getur forseti þess, að þeirri ósk hefði verið hreyft á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar, að Tímaritið yrði stækkað og kæmi út í 4 heftum árlega. Urðu nú alllangar umræður um umbætur á Tímaritinu og ráð til að fjölga fjelagsmönnum og gera fjelagið vinsælla. Þær urðu lyktir á, að svo hljóðandi tillaga var borin upp: »Að skipuð sje 3 manna nefnd í samvinnu við stjórnina að íhuga, hverjar breytingar æskilegar væru á fyrirkomulagi og útgáfu Tímaritsins og hvað tiltækilegt væri að gera til að efla hag fjelagsins, og leggja fram tillögur sínar fyrir næsta ársfund«. Tillaga þessi var samþykkt með 19 atkvæðum gegn 6 og í nefndina kosnir: Guðmundur Björnsson, landlæknir, Guðmundur Finnbogason, mag. art., og Þorsteinn Erlingsson, rithöfundur. Á sama fundi var einnig samþykkt svo hljóðandi tillaga um Skírni: »Fundurinn skorar á stjórnina að gera sem fyrst ráðstafanir til, að hinni útlendu bókaskrá með Skírni verði breytt á þann hátt, að í stað hennar komi stuttir ritdómar um merkustu útlendar bækur í helstu fræðigreinum«. Er nú mjög farið að fækka vinum Skírnis í gamla horfinu og dagar hans brátt taldir. Á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 29. nóvember 1903 var samþykkt, eftir tillögum nefndarinnar, að gera tillögur um það fyrir næsta fund að leggja niður Tímaritið og Skírni, en halda í þess stað út tímariti, er út kæmi 4 sinnum á ári, er hjeti Skírnir og sjerstakur ritstjóri væri ráðinn við af stjórninni með sæmilegum launum. Þetta nýja tímarit skyldi selt utanfjelagsmönnum, bæði áskrifendum og í lausasölu. Stærðin hugsuð 20—24 arkir í Skírnisbroti og verð fyrir áskrifendur 3 kr. árlega, en hugsað til, að það byrjaði að koma út 1905. Var Guðmundi Björnssyni falið fyrir næsta fund nefndarinnar að semja skriflegar tillögur um málið. Þessi fundur var haldinn 14. mars 1904, og var öll nefndin á fundi með stjórninni. Guðmundur Björnsson lagði fram, svo sem honum hafði verið falið, skriflegar tillögur og ástæður fyrir þeirri breytingu á Tímaritinu og Skírni að slá þeim saman í eitt rit, er heita skyldi »Skírnir, tímarit hins íslenska Bókmenntafjelags« og koma út 4 sinnum á ári, 6 arkir í senn og seljast fyrir 3 kr. árgangurinn utanfjelagsmönnum, er gerast fastir kaupendur, en 4 kr. í lausasölu. Ritstjóri skyldi ráðinn til tveggja ára með ½ árs uppsagnarfresti með 600 kr. árslaunum; fyrir hverja örk skyldi greiða til uppjafnaðar 40 kr. í ritlaun og prófarka-

lestur; var talið, að kostnaður við ritið mundi verða samtals um 3000 kr. á ári með 1440 eintaka upplagi, og taldist svo til, að það væri um 1600 kr. kostnaðarauki á ári fram yfir útgáfukostnað þann, sem leiddi af Skírni og Tímaritinu. Stjórnin samþykkti í einu hljóði að leggja þessar tillögur fyrir næsta fund deildarinnar. Sá fundur var haldinn 21. mars 1904. Forseti gat þess, að hjer væri um svo mikið fyrirtæki að ræða, að samþykki Kaupmannahafnardeildarinnar þyrfti til, til þess að þetta kæmist til framkvæmdar. Á fundinum voru allar tillögur nefndarinnar samþykktar með þeirri einni viðaukatillögu, að »ritstjóri fái $^1/_3$ nettó-andvirðis þess, sem selst fram yfir 1000 borgað eintök (til fjelagsmanna og áskrifanda samtals)«. Málið var þá tekið fyrir á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 11. maí 1904, en engin ályktun gerð um það þá. Á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 4. júlí 1904, þar sem einnig var komin tímaritsnefndin, var samþykkt að bera upp fyrir aðalfund svo hljóðandi tillögu: »Fundurinn samþykkir að fela stjórninni að gera nauðsynlegar ráðstafanir til þess að koma í framkvæmd ákvörðunum síðasta aðalfundar um útkomu Skírnis, tímarits hins íslenska Bókmenntafjelags, frá næstu áramótum, þótt eigi sje komið samþykki Hafnardeildarinnar, og skyldi samþykki hennar eigi fást, að halda þó fyrirtækinu áfram eigi að síður, þó svo, að beinn kostnaður við það fari eigi 1000 kr. fram úr því, er útgáfa Skírnis og Tímaritsins hefir áður kostað«. Tillaga þessi var borin upp á fundi deildarinnar þann 8. júlí 1904 og samþykkt með samhljóða atkvæðum. Á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 3. september sama ár er rætt nokkuð um fyrirkomulag Skírnis, en ákvörðunum þar um frestað, þar til er ritstjóri væri ráðinn og gæti verið á fundi. Ákveðið var að bjóða Guðmundi Finnbogasyni að takast á hendur ritstjórn tímaritsins. Loks var útgert um málið allt og fyrirkomulag Skírnis á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 13. nóvember. Þar voru gerðar þær ályktanir um tímaritið, sem að mestu hafa gilt síðan og gilda enn, en þær eru þessar í höfuðdráttunum: Skírni skal gefa út í 4 sex arka heftum á ári [nú eru heftin orðin 7 arkir hvert], er komi út eitt hefti fyrir lok hvers ársfjórðungs. Fyrir prófarkalestur má greiða 4 til 5 kr. fyrir örk og í ritlaun 30—35 (eða 36) kr. fyrir örk. Upplag af 1. heftinu skal vera 3000 eintök, og sendist það víðs vegar út um

land, þannig að það komi í allar sveitir landsins og í hendur sem flestra málsmetandi manna. Í þessu hefti skal fyrsta ritgerðin vera um Bókmenntafjelagið, stutt grein, til þess að auglýsa það. Skal þar skýrt frá stefnu, starfsemi og bókaútgáfu fjelagsins og frá hlunnindum þeim, er það veitir fjelagsmönnum. Annars verður upplag ritsins ákveðið síðar áður en 2. hefti verður gefið út, en til bráðabirgða er ráðgert, að það verði 1400—1500 eintök. Auk almennra tímarita-ritgerða skal taka upp í tímaritið skýrslur og reikninga fjelagsins, er komi í 3. hefti, fjelagaskrá, er komi aftan við eða síðast í 4. hefti, útlendar frjettir, er komi í öll heftin, svo sem ½ örk í hvert hefti, og íslenska bókaskrá, líka því, sem að undanförnu hefir verið í Skírni. Útlendu bókaskránni skal sleppa, en í stað hennar er æskilegt, að í ritið komi ritdómar um merkileg útlend ritverk eða stuttorð skýrsla um þau. Myndir skulu vera í tímaritinu, og má verja til þeirra sjerstaklega allt að því 150 kr. á ári. Samþykkt var að kosta kápu á tímaritið eftir teikningu Ásgríms Jónssonar, málara, og var búist við, að eigi þyrfti að greiða meira en 40 kr. fyrir teikninguna og mót af henni. [Síðar var mótinu breytt og fengin ný teikning eftir Sigríði Björnsdóttur, ritstjóra Jónssonar.] Ákveðið var að leita til þriggja prentsmiðja um að gera tilboð í prentun ritsins, Ísafoldarprentsmiðju, Fjelagsprentsmiðju og prentsmiðju Reykjavíkur, og til að leggja pappír í það. Letur skal yfirleitt vera corpus, líkt og í Tímaritinu hingað til; þó má innan um nota smærra letur, þegar vel þykir á því fara. Pappír skal vera líkur því, sem verið hefir í Tímaritinu, og eigi lakari. Auglýsing um forlagsbækur Bókmenntafjelagsins skal árlega vera á kápu 3. heftis, eins og verið hafði á kápu Skírnis. Að öðru leyti má ritstjórinn taka auglýsingar á kápuna og á aukablöð fyrir aftan og framan hvert hefti; tekjurnar renni í sjóð fjelagsins, og auglýsingagjald ákveðist af forseta fjelagsins og ritstjóra tímaritsins. Ritstjórinn skal sjá um útsendingu tímaritsins og hefir reikningshald þess, en gerir forseta skil fyrir. [Síðar var þetta hvort tveggja falið bókaverði.] Bókavörður fjelagsins tekur af upplaginu það, sem þarf til fjelagsmanna. Það, sem eigi selst af ritinu, geymist með öðrum bókum deildarinnar. Cand. mag. Guðmundur Finnbogason tekur að sjer ritstjórn tímaritsins um næstu 2 ár. Tímaritið skal vera alveg laust við stjórnmálaflokka,

og allar ritgerðir skulu vera með höfundarnafni. Um stafsetning var ekkert ákveðið þá, en síðar var samþykkt, að höfundar skyldu ráða, hverja stafsetning þeir vildu hafa á ritgerðum sínum.

Þannig var þá breytingunni á Skírni komið í kring, og hefir hún haldist svo síðan. Ekki var þessi ráðstöfun þó að öllu að skapi Kaupmannahafnardeildarinnar; þykir henni sjerstaklega Reykjavíkurdeildin hafa sýnt fullmikið einræði í meðferð málsins, og á aukafundi þar þann 11. október 1904 var borin upp og samþykkt svo hljóðandi tillaga: »Þar sem Reykjavíkurdeildin hefir á fundi sínum 8. júlí þ. á. ályktað að virða atkvæði vorrar deildar í tímaritsmálinu að vettugi, ef það yrði henni ekki að skapi, ályktar fundurinn að vísa því máli algerlega frá sjer, um leið og hann lýsir megnri óánægju yfir slíkum atförum og frábiður sjer framvegis, að heimadeildin sje að leita álits og samþykkis vorrar deildar, þegar hún hefir fyrir fram ákvarðað að taka ekkert tillit til þess, með því að slíkt getur að eins skoðast sem tilraun til að vekja úlfúð milli deildanna í stað bróðurlegrar samvinnu, sem vor deild vill af fremsta megni styðja«. Þessa ályktun fundarins ljet stjórn Kaupmannahafnardeildarinnar síðan prenta í blöðunum (sbr. Ísafold XXI, 73), og þótti stjórn Reykjavíkurdeildarinnar þá of langt farið og skrifaði Kaupmannahafnardeildinni brjef um þetta mál og ýmsar aðrar aðfinnslur, sem sú deild hafði gert (28. nóvember 1904), en ekki skal það nánara rakið hjer, enda hafði þetta ekki nein áhrif á framgang málsins. Skírnir hinn nýi tók að koma út 1905 og varð brátt mjög vinsæll með mönnum og mun hafa átt öflugan þátt í að fjölga fjelagsmönnum; að minnsta kosti bregður svo við, þegar hann byrjar að koma út, að menn ganga í fjelagið í hópum og hafa gert jafnan síðan. Ritstjórn hans hafa haft á hendi fyrst *Guðmundur Finnbogason*, dr. phil., (1905—1907), þá *Einar Hjörleifsson*, rithöfundur, (1908—1909), því næst *Björn Bjarnason* frá Viðfirði, dr. phil., (1910—1912), en síðan *Guðmundur Finnbogason*, dr. phil. Hefir Skírnir flutt ritgerðir um mjög margvísleg efni, sem hjer yrði of langt upp að telja. Hefir saga ritsins verið rakin hjer svo ítarlega vegna þess, að bæði er hjer um eitt af merkustu ritum fjelagsins að ræða, og hins, að Skírnir mun nú vera langelsta tímarit á Norðurlöndum.

Nú er að hverfa aftur í tímann, þar sem fyrr var frá horfið, og snúa að annarri bókaútgáfu fjelagsins. Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 27. júlí 1818 var samþykkt að gefa út *safn af íslenskum kvæðum* eftir »góð skáld«; á þeim fundi var og valin nefnd til þess að sjá um söfnun kvæðanna og velja úr til prentunar, og voru þessir kosnir í nefndina: Bjarni Thorarensen, síðar amtmaður, síra Árni Helgason og Hallgrímur Scheving, dr. phil. Nefndin vann að starfi þessu og safnaði kvæðum, er hún sendi Kaupmannahafnardeildinni; þetta kvæðasafn mun hafa glatast; að minnsta kosti varð eigi af prentun, og þótti þá veranda foreta Kaupmannahafnardeildarinnar, Finni Magnússyni, handritið eigi alls kostar búið til prentunar, eins og það var þá, en hann bauð þá fjelaginu til prentunar kauplaust kvæði síra *Stefáns Ólafssonar* í Vallanesi, og var því vel tekið. Þó varð ekki af prentuninni þetta ár, en á fundi um veturinn eftir (13. janúar 1823) voru kvæði síra Stefáns tekin til prentunar, og tókust þeir Þorgeir Guðmundsson og Maurus Mattíasson, síðar kennari, á hendur að bera saman handritin, en Hannes Stephensen, síðar prestur á Innra-Hólmi, að lesa prófarkir. Kvæðin komu þá út um vorið, og ritaði Finnur Magnússon formála fyrir þeim. Svo var til ætlast, að þetta væri hin fyrsta deild hins almenna íslenska kvæðasafns, og má sjá af skýrslu fjelagsins, sem prentuð var á dönsku 1822, að ætlast var til, að kvæðasafnið yrði alls í tveim bindum eða meira; áttu tvö hin fyrstu bindin að hafa kvæði frá 16. og 17. öld og einstöku frá 14. og 15. öld. Með fram þess vegna mun hafa verið keypt kvæðasafn Jóns Stefánssonar, það er brann í brunanum 1847 og áður hefir verið lýst. En úr þessu fyrirtæki varð þó aldrei meira en þetta.

Af öðrum bókum, sem fjelagið gaf út hin fyrstu ár, eru þessar helstar, sem nú verða taldar. Þorgeir Guðmundsson bauð fjelaginu (30. mars 1822) *safn af íslenskum orðskviðum,* endurgjaldslaust, eftir föður sinn, síra *Guðmund Jónsson* á Staðastað, og kom fyrri hluti þess út 1830 með dönskum formála eftir Bjarna Thorsteinson, amtmann. Á ársfundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. mars 1827 var lögð fram *æfisaga Jóns Eiríkssonar,* sem *Bjarni* amtmaður *Thorsteinson* hafði sent fjelaginu, en samin var hún af *Sveini* lækni *Pálssyni* að fyrirsögn Bjarna amtmanns og með hans tilstyrk, og ritað hafði hann formála fyrir. Þessi bók kom út 1828,

og fylgdi eirgrafin andlitsmynd af Jóni ásamt rithandar-sýnishorni, og er bókin prýðilega útgefin og betur en aðrar bækur fjelagsins fram að þessu. Engi ritlaun voru greidd fyrir þá bók. *Oddur Hjaltalín,* læknir, sendi fjelaginu að gjöf íslenska *grasafræði;* Kaupmannahafnardeildin kaus nefnd til þess að skoða hana (14. nóvember 1830), og voru þessir kosnir: Finnur Magnússon, Baldvin Einarsson, Hallgrímur Bachmann, síðar læknir, og Eggert Jónsson, síðar læknir; eftir að nefnd þessi hafði sagt álit sitt um handritið, var bókin prentuð þá um haustið og veturinn eftir. *Rask* gaf fjelaginu handrit af stafrófskveri, sem hann hafði sjálfur samið og kallaði „*Lestrarkver* handa heldri manna börnum«; voru prentuð af því 1000 eintök og send hingað heim um vorið 1830.

Eftir þetta dregur nokkuð úr bókaútgáfu um tíma. Var það bæði, að fjelagið hafði þá með höndum ýmsar aðrar framkvæmdir, sem síðar mun vikið að sjerstaklega, t. d. mæling landsins og landsuppdrætti, og hins vegar dró mjög úr tekjum fjelagsins, svo að árstekjurnar námu tæpum 700 ríkisdölum, og var þá nær horfinn allur styrkur fjelagsmanna frá Íslandi og bókasalan ekki mikil; þegar því kostnaðurinn við mælingarnar og útgáfu Skírnis var frá dreginn, en fjelagsstjórnin varð auk þess að leggja ákveðna upphæð við hinn fasta höfuðstól sinn samkvæmt lögunum, þá varð ekki mikið afgangs til útgáfu bóka. Raunar ljet fjelagið engar bækur fyrir tillögin og galt ekki ritlaun, en sá sparnaður í kostnaði var ef til vill fremur orsök þess, að styrktarmönnum fækkaði og að tregt veitti að fá menn til þess að semja nokkurt rit fyrir fjelagið. — Reykjavíkurdeildin hafði ákveðið (14. apríl 1831) að taka til prentunar Messíasarkvæði Klopstocks, sem síra Jón Þorláksson á Bægisá hafði þýtt á íslensku, en ekki gat fjelagið snúist við því að byrja á prentuninni fyrr en um haustið 1833, og um vorið 1836 var bókin fullprentuð í tveim bindum.

En þegar hjer er komið, lifnaði mikill áhugi í Kaupmannahafnardeildinni fyrir því að efla framkvæmdir fjelagsins, bókaútgáfu sjerstaklega. Var þá fyrst lagt til að veita ritlaun fyrir Skírni, og varð það að reglu frá 1837, en að fastri ályktun frá 25. janúar 1840. Önnur tillaga var sú, er fram kom frá *Skafta Tímótheusi Stefánssyni* á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. mars 1836, að kjósa skyldi nefnd manna til þess að íhuga,

hverjar bækur væru Íslandi nytsamlegastar, og skyldi svo fjelagið reyna að fá þær samdar. Til þess að rannsaka þessa tillögu og láta uppi álit sitt um hana var nefnd kosin: Jónas Hallgrímsson, Kristján Kristjánsson, síðar amtmaður, Finnur Magnússon og Magnús Eiríksson, guðfræðingur, og tók nefnd þessi fram ýmisleg rit í álitsskjali sínu. Þriðja tillagan kom frá *Jóni Sigurðssyni,* síðar forseta fjelagsins, á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 31. mars 1837 og fór fram á það, að fjelagið skyldi gefa út árlega safn smárita um ýmisleg fróðleg efni bæði utan lands og innan. Leiddi af þeirri tillögu, að fjelagið ákvað að greiða laun fyrir ritgerðir, og þá komu fram ritlingar þeir, sem prentaðir voru á næstu árum þar eftir, svo sem *Tvær æfisögur* útlendra merkismanna (Franklins og Oberlins), hin fyrri þýdd af Jóni Sigurðssyni, hin síðari af Ólafi Pálssyni, síðar presti, (1839), *Lækningakver* eftir Jón Hjaltalín (1840), *Æfisaga Alberts Thorvaldsens* með mynd, þýdd af Magnúsi Hákonarsyni, síðar presti, (1841), *Lýsing landsins helga* eftir Brammer, þýdd að upphafi af síra Ólafi Indriðasyni, *Ritgjörð um túna og engja rækt* eftir Gunnlaug Þórðarson, cand. phil. Árið 1846 gaf Kaupmannahafnardeildin út hið stórmerka rit *Konráðs Gíslasonar, Um frumparta íslenskrar tungu í fornöld.* Árið þar eftir (1847) komu út kvæðabækurnar báðar eftir *Jónas Hallgrímsson* og *Bjarna Thorarensen,* en mikið af upplagi þeirra beggja brann í brunanum þá um haustið.

Þegar hjer er komið, fer fyrst að bera á framkvæmdum Reykjavíkurdeildarinnar í bókaútgáfu. Að vísu hafði sú deild stutt Kaupmannahafnardeildina í bókaútgáfu með handritum og peningaframlögum, en enga bók hafði hún sjálf gefið út. En 1846 tekur Reykjavíkurdeildin að gefa út *Skýringar yfir fornyrði lögbókar þeirrar, er Jónsbók nefnist,* eftir *Pál lögmann Vídalín;* því riti var allokið 1854. Frumkveði að því verki var *Þórður* justitiarius *Sveinbjörnsson,* og honum var ásamt *Sveinbirni Egilssyni,* rektor, falið á hendur að sjá um útgáfu ritsins, en mest hvíldi það á Þórði, og eftir hann er ævisaga Páls Vídalíns, sem prentuð er framan við ritið. Að ráðstöfun Reykjavíkurdeildarinnar var og gefin út *Eðlisfræði* eftir *Fischer,* sem síra Magnús Grímsson þýddi, (1852) og *Odysseifskvæði Hómers,* sem Sveinbjörn Egilsson lagði út á íslensku, (1853—1854).

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 20. september 1851 bar *Gísli*

*Brynjúlfson,* síðar kennari við Kaupmannahafnarháskóla í íslenskri sögu og bókmenntum, upp tillögu um það, að fjelagið gæfi út árlega tímarit, er ætlað væri ritgerðum og skjölum, er lúta að íslenskum bókmenntum og sögu landsins. Var fyrst borið upp, hvort fundurinn teldi æskilegt, að þess konar rit kæmi út, og var það samþykkt í einu hljóði. Síðan var samþykkt að semja skýrslu um þetta og láta prenta í blöðum og óska þar í ritgerða innan nýárs. Af þessari tillögu spratt ritsafn það, er fjelagið hefir gefið út og kallað er *„Safn til sögu Íslands* og íslenskra bókmennta að fornu og nýju«. Kom fyrsta hefti þess út 1853 og síðan smám saman eftir hentugleikum fjelagsins, svo að nú eru komin út 4 þykk bindi og upphaf hins fimmta. Þetta ritverk var gefið út í Kaupmannahöfn, til þess er sú deild lagðist niður, og var jafnan höfð þar sjerstök nefnd til þess að dæma um ritgerðir þær, er fjelaginu bárust í þetta safn. En síðan hefir það ritverk sem önnur verið algerlega undir umsjá fjelagsstjórnarinnar. Í ritsafni þessu hafa birtst mjög merk rit um sögu landsins og bókmenntir. *Jón Sigurðsson* ritaði þar *Biskupa tal* með athugagreinum og fylgiskjölum og gaf þar út *Biskupa-annála Jóns Egilssonar* og ritgerð *Jóns Gizurarsonar* um siðaskiptatímana með inngangi, athugasemdum og skýringum. Þar er ritgerð eftir *Jón Þorkelsson,* rektor, um *Fagurskinnu* og Ólafs sögu helga, eftir *Guðbrand Vigfússon* um *Tímatal* í Íslendinga sögum, æví *Sturlu lögmanns Þórðarsonar* eftir síra *Svein Skúlason,* athugasemd (málfræðileg) eftir *Konráð* prófessor *Gíslason, Lögsögumanna tal* og *lögmanna* eftir *Jón Sigurðsson, Athugasemdir við Egils sögu Skalla-Grímssonar* eftir *Magnús Grímsson,* ritgerðir um örnefni á landinu eftir *Árna* kaupmann *Thorlacius, Einar Gíslason,* síra *Helga Sigurðsson, Jón Jónsson,* síra *Sigurð Gunnarsson, Pál Sigurðsson* í Árkvörn, síra *Þorleif Jónsson* í Hvammi og *Sighvat Grímsson* Borgfirðing, *Varnarrit Guðbrands* byskups *Þorlákssonar* með athugasemdum síra Arnljóts Ólafssonar, *Hirðstjóra-annáll* síra *Jóns Halldórssonar* í Hítardal með athugasemdum Guðmundar Þorlákssonar, *Skúli landfógeti Magnússon* og Ísland um hans daga eftir *Jón Jónsson,* síðar dósent, *Um Sturlungu* eftir dr. *Björn M. Ólsen, Athuganir við fornættir nokkrar,* er fyrir koma í Sturlungu, eftir síra *Eggert Ólafsson Brím, Um íslensk mannanöfn* eftir síra *Jón Jónsson* á Stafafelli, *Ritgerð um ættir* eftir *Jón*

*Guðmundsson,* lærða, með athugasemdum Hannesar Þorsteinssonar, *Skýrslur um Skaftárgosin,* gefnar út af Þorvaldi prófessor Thoroddsen, *Frásagnir um skólalíf,* gefnar út af sama, *Annáll Magnúsar* sýslumanns *Magnússonar* á Eyri, gefinn út Finni prófessor Jónssyni, *Skýrslur um Kötlugos,* gefnar út af Þorvaldi prófessor Thoroddsen, *Um skattbændatal 1311 og manntal á Íslandi fram að þeim tíma* eftir prófessor *Björn M. Ólsen, Skýrslur um Mývatnselda,* gefnar út af Þorvaldi prófessor Thoroddsen, *Bæjanöfn á Íslandi* eftir *Finn Jónsson,* prófessor, *Um ferðir, siglingar og samgöngur milli Íslands og annarra landa á dögum þjóðveldisins* eftir *Boga Th. Melsteð,* og loks eru í upphafi V. bindis prentuð *Sólarljóð* með skýringum prófessors *Björns M. Ólsens* á þeim.

Um þetta leyti tekur Kaupmannahafnardeildin að gerast allstórvirk og framkvæmdarsöm í bókaútgáfu, enda dafnaði nú vel hagur fjelagsins, og fjölgaði óðum fjelagsmönnum, er Jón Sigurðsson var orðinn forseti; átti hann sjálfur upptökin að flestum hinum meiri háttar ritverkum, er fjelagið gaf út um hans daga, og lagði í öll eitthvert verk sjálfur.

Það hafði lengi verið ósk allra þeirra, sem þekkja vildu ástand og hagi landsins, að fá ljósari hagskýrslur um það, eins og fjelagið hafði frá öndverðu ætlað sjer að styðja að. Eftir að alþing var sett, var þörfin á þessu orðin enn þá brýnni, og sýndi reynslan, að alþingismenn vantaði allar almennar skýrslur um hagfræði landsins í öllum greinum og um alla löggjöf og stjórnarathafnir í landinu. Þessi þörf kom fyrst til umræðu á fundi í Kaupmannahafnardeildinni þann 18. nóvember 1854, og ætluðu menn í fyrstu, að úr þessu mætti bæta með því að auka nokkuð Skírni; en brátt sýndi það sig, að hjer var miklu meira efni fyrir hendi en svo, að þessu yrði við komið. Voru þá um veturinn stofnuð tvö ritsöfn, svo að fyrsta hefti af báðum kom út um vorið eftir; annað var *Skýrslur um landshagi á Íslandi,* hitt *Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands.* Ríkisstjórnin veitti ríflegan styrk til beggja þessara ritsafna, svo sem að framan er sýnt, enda eru hvor tveggja þess konar rit, er landstjórn í öllum löndum telur sjer skylt sjálfri að kosta. *Skýrslur um landshagi* komu út á árunum 1855—1875 í fimm þykkum bindum; að þeim unnu auk Jóns sjálfs ýmsir menn, Sigurður Hansen, aðstoðarmaður í dómsmálastjórninni, Arnljótur

Ólafsson, Halldór Guðmundsson, adjunkt, síra Ólafur Pálsson, Magnús Stephensen, síðar landshöfðingi, og Westergaard, aðstoðarmaður í íslensku stjórnardeildinni. *Tíðindi um stjórnarmálefni Íslands* komu út í 3 þykkum bindum í Kaupmannahöfn á árunum 1855—1875. Að útgáfu þeirra unnu þessir menn: Sveinn Skúlason, síðar prestur, Sigurður Hansen, Sigurður L. Jónasson, Bergur Thorberg, síðar landshöfðingi, Magnús Stephensen, síðar landshöfðingi, og Júlíus Havsteen, síðar amtmaður. Eftir 1875 tók landstjórnin sjálf að sjer að gefa út þessi rit.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 23. ágúst 1854 kom fram tillaga um það frá *Jóni* assessor *Pjeturssyni,* að fjelagið byrji á að útgefa diplomatarium eða *íslenskt fornbrjefasafn,* og yrði varið svo sem 100 ríkisdölum árlega til undirbúnings þessu verki. Jón Guðmundsson, ritstjóri, studdi þessa tillögu á fundinum og vildi jafnframt, að leitað væri samkomulags við stjórnarnefnd Árna-Magnússonar-safnsins um útgáfu fornbrjefasafnsins og fjárframlög til verksins; var samþykkt að skrifa stjórnarnefndinni, en jafnframt, að ráðast skyldi í fyrirtækið, jafnvel þótt stjórnarnefnd Árnasafns vildi engan styrk leggja fram til þess. Þetta mál var tekið fyrir á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 18. nóvember 1854, og var fundurinn hlynntur því. Jóni Sigurðssyni tókst að fá nokkuru síðar styrk frá stjórninni til að semja upphaf ritsins, og mun stjórnarnefnd Árnasafns hafa stutt hann að því, þótt ekkert legði hún sjálf af mörkum til styrktar fyrirtækinu. En þetta varð til þess, að Jón Sigurðsson gat boðið fjelaginu handrit að fyrsta hefti fornbrjefasafnsins til prentunar ritlaunalaust, gegn því að fjelagið tæki að sjer prentunarkostnaðinn, á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 18. desember 1855, og kom það hefti út árið eftir. En alldræmt gekk verkið, svo að fyrsta bindi þess er ekki lokið fyrr en 1876, en miklu hafði þó Jón safnað til ritsins um fram þetta. Eftir þetta lá útgáfa safnsins í dái um hríð, til þess er *Jón Þorkelsson,* síðar dr. phil. og landskjalavörður, brautst í því að hrinda útgáfunni áfram og fekk til þess styrk hjá kennslumálastjórninni dönsku og alþingi (1886). Byrjaði nú fornbrjefasafnið að koma út aftur 1888 og hefir komið út alla tíð síðan jafnt og þjett, og eru nú komin út af því 10 bindi gild eða fram um árið 1544, og hefir dr. Jón Þorkelsson jafnan haft á hendi útgáfuna upp frá því, að

safnið byrjaði að koma út aftur. Það er öllum kunnugt, hvílíkt nytjaverk þetta er, og að hjer er um að ræða hina gildismestu undirstöðu undir sögu landsins.

Á þessum sama fundi Kaupmannahafnardeildarinnar (18. nóvember 1854) var afráðið, að fjelagið skyldi taka að gefa út *Biskupasögurnar;* fyrsta hefti þeirra kom út 1856 og var framhaldið eftir hentugleikum fjelagsins, til þess er verkinu var lokið að fullu árið 1878. Biskupasögurnar eru í tveim þykkum bindum og hafa að þeim unnið, auk Jóns Sigurðssonar, Guðbrandur Vigfússon, sem einnig ritaði hinn merkilega formála, sem er við fyrra bindið, Sigurður Hansen, síra Þorvaldur Bjarnarson, síðar prestur á Mel(stað), Eiríkur Jónsson, Garðprófastur.

Reykjavíkurdeildin gerðist og eigi alllítilvirk þessi ár, eftir því sem efni hennar leyfðu. Þegar komnar voru út *Skýringar Páls Vídalíns* á fornyrðum lögbókar, komu út að hennar tilhlutun þessi rit frá 1856 og hin næstu ár, *Hómers Ilionskvæði,* sem *Benedikt Gröndal* þýddi; fyrsta deildin kom út árið 1856 og nær yfir 12 fyrstu kviðurnar, en framhaldið kom aldrei. *Íslenskar rjettritunarreglur* eftir *Halldór Friðriksson* komu út 1859; áður (1854) hafði fjelagið stutt að því, að út kæmi eftir sama höfund *stutt kennslubók í landafræði* (sem sniðin er eftir danskri kennslubók eftir Ingerslev); enn kom út eftir sama höfund *íslensk málmyndalýsing* (1861). *Íslensk sálmasaungs og messubók* með nótum kom út sama ár eftir Pjetur Guðjóhnsen. *Þýðing brjefa Hórazar* eftir Gísla Magnússon og Jón Þorkelsson, skólakennara, 1864, 1. hefti; framhaldið af því riti kom aldrei út. *Tölvísi* eftir *Björn Gunnlaugsson,* yfirkennara, kom út, 1. hefti, 1864, en ekki komst það verk lengra, og er þó til í handriti höfundar það, sem eftir er verksins. *Jón Þorkelsson* gaf út árið 1865 *Nokkur blöð úr Hauksbók og brot úr Guðmundarsögu.* Þessi ár byrjar deildin að gefa út sögubækur *Páls Melsteðs,* málaflutningsmanns og sögukennara, er mikilla vinsælda hafa notið með alþýðu og mjög hafa stutt að því að breiða út söguþekking manna og glætt fróðleiksfýst manna í þeirri grein. *Fornaldarsagan* kom út 1864, *Miðaldasagan* 1866, *Nýja sagan* 1868 og síðan smám saman í heftum uns lokið var 1887, en *Norðurlandasögu* eftir sama höfund gaf deildin út 1891.

Þessi ár keypti og fjelagið til útbýtingar meðal fjelagsmanna nokkur rit, auk kennslubókar þeirrar í landafræði eftir Halldór Friðriksson, er fyrr var getið, voru þau: *Lítil fiskibók* með uppdráttum og útskýringum handa fiskimönnum á Íslandi eftir *Jón Sigurðsson,* er út kom 1859, *Lítil varningsbók* handa bændum og búmönnum á Íslandi eftir sama höfund (1860), *Ný jarðabók fyrir Ísland,* staðfest af konungi með tilskipun 1. apríl 1861, og síðast, en eigi síst, *Íslenskar þjóðsögur og æfintýri,* sem safnað hafði *Jón Árnason,* en gefin voru út af Hinrichs-bókaverslun í Leipzig á árunum 1862—1865, ein sú bók, sem einna mestra vinsælda hefir notið allra rita hjer á landi.

Kaupmannahafnardeildin hafði, eins og sýnt er hjer að framan, bundið sig við útgáfu stórra ritverka; frá henni var því ekki hægt að vænta að sinni mikilla rita, þar sem hin urðu að sitja í fyrirrúmi. Það, sem eftir var forsetatíðar Jóns Sigurðssonar, og á næstu árum komu þó út að tilhlutun þeirrar deildar þessi rit: Árið 1867 kemur út fimmtíu ára *minningarrit* fjelagsins að mestu eftir Jón Sigurðsson. Árið eftir (1868) *skýrsla um forngripasafnið* eftir *Sigurð Guðmundsson,* málara; framhald þeirrar skýrslu eftir sama höfund gaf deildin út 1874, en Reykjavíkurdeildin gaf út síðustu skýrsluna eftir Sigurð Vigfússon 1881. Það ár (1868) gaf deildin og út *Einfalda landmælingu* eftir Björn Gunnlaugsson. Árið 1869 gaf deildin út *Presta tal* og prófasta á Íslandi eftir síra *Svein Níelsson,* enn fremur *Skýrslu um handritasafn* Bókmenntafjelagsins, er *Sigurður L. Jónasson* hafði samið; framhald þeirrar skrár gaf fjelagið út 1885, og er samið af *Sigurði L. Jónassyni* og *Finni Jónssyni,* síðar prófessor. Árið 1871 gefur deildin út *kvæði Jóns* sýslumanns *Thoroddsens,* sem fjelagið hafði keypt af erfingjunum. Um útgáfu þeirra annaðist þriggja manna nefnd, er deildin kjöri til, Jón Sigurðsson, Steingrímur Thorsteinsson, síðar rektor, og Eiríkur Jónsson, Garðprófastur. Þá kom og út ritgerð *Um framfarir Íslands* eftir *Einar Ásmundsson* í Nesi, sú er hann hafði fengið verðlaun fyrir, svo sem áður er á vikið. Árið 1872 gefur deildin út *Kennslubók í goðafræði Grikkja og Rómverja* eftir Stoll, sem Steingrímur Thorsteinsson hafði þýtt, og árið eftir myndir við sama rit. Árið 1876 gefur deildin út skáldsöguna *Maður og kona* eftir *Jón Thoroddsen,* sem fjelagið hafði keypt af erfingjunum; þeirri útgáfu

fylgir ævisaga höfundarins eftir Jón Sigurðsson. Árið 1878 kemur út ritgerð *Sigurðar Guðmundssonar,* málara, *Alþingisstaður hinn forni.* Árið eftir byrjar deildin á því að gefa út *Íslenskar fornsögur,* og var því framhaldið til 1883; er það prýðilega vönduð útgáfa, en því miður nær hún of skammt. Útgáfuna höfðu á hendi *Guðmundur Þorláksson,* cand. mag., og *Finnur Jónsson,* síðar prófessor. Gaf hinn fyrr nefndi út I. bindi með ítarlegum formála, en hinn síðar taldi II. og III. bindi sömuleiðis með ítarlegum formálum og greinagerðum. Í I. bindinu eru þessar sögur: Glúma, Ljósvetninga saga; í II. bindi: Reykdæla saga, Valla-Ljóts saga; í III. bindi: Svarfdæla saga, Þorleifs þáttr jarlsskálds. — Þegar litið er til þess, að deildin gaf þá út árlega stór verk, verður ekki annað sagt en að bókaútgáfa hennar sje undramikil á þessu tímabili.

Allt öðru máli er að gegna um Reykjavíkurdeildina á þessu tímabili, enda hafði fjárhagur hennar ekki batnað nje árstekjur aukist verulega frá því, sem áður var. Þessi ár gefur deildin út *Nýju sögu Páls Melsteðs* í heftum. Árið 1873 fer deildin að gefa út *Frjettir frá Íslandi* sem sjerstakt rit og hjelt því áfram til 1891. Áður höfðu þær byrjað að koma út með Skírni árið 1870 og taka þar yfir árin 1869 og 1870, og eru þær ritaðar af *Eiríki Briem,* síðar prófessor. Frjettirnar rituðu síra *Valdimar Briem* (1871—1878), síra *Jónas Jónasson* (1879—1884), síra *Jón Steingrímsson* (1885—1888), *Pálmi Pálsson,* síðar yfirkennari, (1889—1890). Frá 1892 voru Frjettir frá Íslandi prentaðar með Skírni til 1905, er fyrirkomulagi Skírnis var breytt og frjettirnar lagðar niður. Þessi ár rituðu þær: *Pálmi Pálsson* (1891—1892), síra *Bjarni Símonarson* (1893—1897), *Bjarni Jónsson* (frá Vogi), síðar dósent, (1898—1901), síra *Gísli Skúlason* (1902—1903). Árið 1878 gefur deildin út ritgerð síra *Þorkels Bjarnasonar* á Reynivöllum *Um siðbótina á Íslandi.* Árið eftir (1879) og næsta ár (1880) gefur deildin út *Stafróf náttúruvísindanna,* þrjá bæklinga, og fekk til þess styrk úr landsjóði. Þessir bæklingar voru: *Efnafræði* eftir *Roscoe,* sem þýdd var af Benedikt Gröndal, adjunkt, *Eðlislýsing jarðarinnar* eftir *Geikie* og *Eðlisfræði* eftir *Balfour Stewart,* er báðar voru þýddar af Halldóri yfirkennara Friðrikssyni.

Af þessu sjest, að framkvæmdir Reykjavíkurdeildarinnar voru ekki

miklar þessi ár. Þó höfðu ýmsir áhuga á því að efla framkvæmdir deildarinnar. Á fundi hennar þann 8. júlí 1875 var rætt um ýmislegt, er verða mætti til þess að efla framfarir hennar og þar með fjelagsins alls, og á fundi hennar 15. s. m. var kosin nefnd manna til þess að hrinda málinu áfram og jafnframt endurskoða lögin og láta uppi álit sitt um, hvort breyta þyrfti, (Einar Ásmundsson, Jón Sigurðsson, forseti Kaupmannahafnardeildarinnar, dr. Grímur Thomsen, Jón Sigurðsson á Gautlöndum og Hallgrímur Sveinsson, þá dómkirkjuprestur, síðar byskup). Í þessari nefnd var Grímur Thomsen formaður, en Einar Ásmundsson skrifari. Lagði sú nefnd fram álit sitt 26. ágúst sama ár, og er það mjög stutt. Henni þykir ekki að svo komnu ástæða til þess að leggja til breytinga á lögum fjelagsins. En um framkvæmdir fjelagsins segir svo í álitsskjalinu, að nefndinni hafi komið »fyrst og fremst saman um, að stjórn fjelagsins ætti nú þegar að beiðast 1000 kr. styrks hjá landshöfðingjanum af þeim 10000 kr., sem ætlaðar eru á fjárhagstímabilinu 1876—1877 til vísindalegra og verklegra fyrirtækja, til þess að gefa út »Safn til sögu Íslands« og framhald af »Fornbrjefasafninu«, sem eigi hefir komið út um hríð«. Í annan stað vildi nefndin láta minnka Skírni og eigi hafa hann stærri en hjer um bil 10 arkir. Í þriðja lagi taldi »nefndin mjög æskilegt, að fjelagið hefði fastan augastað á því að starfa sem fyrst að textaútgáfum af fornsögum vorum og öðrum fornritum«. Af þessum tillögum nefndarinnar leiddi það, að stjórn fjelagsins leitaði til landsstjórnarinnar um styrk til fjelagsins og fekk hann, svo sem fyrr er sagt. Enn fremur leiddi tillaga nefndarinnar um fornritin til þess, að byrjað var nokkuru síðar á útgáfu fornsagna vorra. En að öðru leyti bar starf þessarar nefndar fjelaginu engan árangur.

En skömmu eftir þetta lifnar þó yfir deildinni, og árið 1879 afræður hún að gefa út tvö stórmerk rit, en þau voru *Sýslumannaæfir* eftir *Boga Benediktsson* á Staðarfelli og *Tímarit* hins íslenska Bókmenntafjelags. Þessi rit eru svo merk, að rjett er að segja sögu þeirra hvors um sig með fáum orðum.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 29. apríl 1879 hreyfir *Jón Pjetursson*, justitiarius, því, að deildin taki sjer fyrir hendur að gefa út Sýslumannaævir Boga á Staðarfelli, og býðst sjálfur til þess að sjá um útgáfuna gegn

30 kr. ritlaunum á örkina. Á fundi deildarinnar þann 8. júlí sama ár afræður deildin að taka þessu boði, og er þá ráðgert, að verkið muni alls nema 24 örkum prentuðum og nái að koma út í 3 heftum. Þetta reyndist þó á allt annan veg, eins og kunnugt er. Útgáfa ritsins hófst eigi fyrr en 1881, og kom ritið síðan út öðru hverju til 1891, er útgáfan stöðvaðist, með fram eða eingöngu vegna þess, að eftir þetta varð fjárhagur deildarinnar mjög bágborinn um langan tíma. Þá var komið út af ritinu I. bindi og 2 hefti af II. bindi. Við þetta sat nú lengi. En á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 15. maí 1901 var ályktað að mæla fram með því við Reykjavíkurdeildina, að sem fyrst væri haldið áfram útgáfunni. Þetta var síðan tekið fyrir á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 7. júlí og því næst á aðalfundi sömu deildar daginn eftir. Tjáði fundurinn sig hlynntan því, að útgáfu ritsins yrði haldið áfram. Var þá leitað til við *Hannes Þorsteinsson,* þá ritstjóra, um að takast á hendur útgáfu á framhaldi ritsins, og tókst hann það á hendur með að mun lægri ritlaunum en áður höfðu verið greidd. Voru samningar um þetta gerðir á stjórnarfundi Reykjavíkurdeildarinnar 14. mars 1902, og þeir samþykktir til fullnustu af deildinni á fundi hennar þann 19. sama mánaðar. Þegar árið 1902 kom út fyrsta hefti framhaldsins, og kom ritið síðan út í heftum árlega, til þess er verkinu var lokið sumarið 1915. Þó vantar enn registur við ritið, nema við I. bindi þess. Þetta rit má teljast grundvallarrit í ættvísi þessa lands, og með viðaukum þeim og athugasemdum, er útgefendurnir hafa aukið við ritið, sem svo eru miklar, einkum eftir að Hannes Þorsteinsson tók við útgáfunni, að langt tekur fram úr sjálfu frumritinu, er svo að segja öllum Íslendingum auðgert að leita ætta sinna, þeim er nokkuð kunna að rekja ætt sína til göfugra manna.

Hitt ritið, sem afráðið var að stofna 1879, var *Tímarit hins íslenska Bókmenntafjelags* eða »Tímaritið«, eins og það var jafnan kallað. Þau voru tildrög þess, að á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 8. júlí 1879 bar dr. Grímur Thomsen fram þá tillögu, að fjelagið tæki að gefa út ritsafn, líkt því sem gömlu fjelagsritin (Lærdómslistafjelagsritin) voru, »eins konar magasín«. Þessu var svo tekið á fundinum, að samþykkt var að skipa nefnd til að athuga málið og í hana kosnir: dr. Grímur Thomsen, Jón

Pjetursson, justitiarius, og Jón Árnason, bókavörður. Nefndin samdi álitsskjal um málið; er það undirritað af nefndarmönnum 1. ágúst sama ár og hljóðar svo:

»Vjer undirskrifaðir, er á síðasta fundi deildar hins íslenska Bókmenntafjelags í Reykjavík vorum kosnir til þess að íhuga og ákveða stefnu og fyrirkomulag tímarits þess, er á fundinum var samþykkt, að út skyldi gefa, urðum ásáttir um eftirfylgjandi atriði. A. Að því er stefnu og innihald ritsins snertir, álítum vjer, að það ætti að vera yfir höfuð fræðandi fyrir alþýðu og þá 1) sögulegs efnis, einkum að því, er snertir sögu Íslands og þá sjerstaklega kúltúrsögu þess, og virtist oss, að það þyrfti eigi að koma í bága við »Safn til sögu Íslands«, sökum þess að ritnefndin hefði það á sínu valdi að taka að eins í tímaritið þær ritgerðir, sem eigi virtust geta átt heima í safninu, og sjá um, að þær, er til safnsins ættu að ganga, kæmust í það, 2) búfræðilegs efnis, 3) náttúruvísindalegs efnis og 4) læknisfræðilegs efnis, ef ritgerðirnar væru svo ljóst ritaðar, að alþýða gæti haft gagn að þeim, 5) ævisögur merkra Íslendinga, einkum dáinna, 6) uppgötvanir nýjar, 7) bókafregnir; 8) kvæði frá fyrri tímum, er gætu gefið upplýsingar um hið einkennilega í hugsunarhætti og hið mismunandi menntunarástand þjóðar vorrar á ýmsum tímum, ættu og að prentast í því. — B. Að því, er stærð ritsins snertir, virtist oss hæfilegt að ákveða hana 20—25 arkir á ári hverju, og C. Að því, er fyrirkomulag þess snertir, virtist þægilegast, að það kæmi út í heftum, smærri og stærri, frá 2—6 örkum, eftir því sem stæði á ritgerðum og ferðum, því oss virtist rjettast, að reynt væri að senda hefti og hefti með hverri póstferð, ef unnt væri, eða svo oft sem kringumstæður leyfðu, þar það fyrirkomulag mundi verða kærkomið fjelagsmönnum upp til sveita. — D. Til að dæma um ritgerðir þær, er berast kynnu til þessa tímarits, skal kosin 3 manna nefnd, er vinni í sameiningu með fjelagsstjórninni að útgáfu ritsins.«

Á aukafundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 10. október 1879 voru síðan þessar tillögur nefndarinnar teknar til umræðu og ályktunar. Voru tillögurnar samþykktar í flestum greinum eftir nokkurar umræður. Að eins var tillögunni um stærð ritsins breytt svo, að það skyldi vera minnst 12 arkir og mest 20—25 arkir á ári, og að kvæðin skyldu vera bæði forn og ný. Björn M. Ólsen, þá adjunkt, óskaði þess, að fróðlegar málfræðilegar ritgerðir gætu komist að í ritinu; sömuleiðis óskaði síra Mattías Jochumsson, að »æstetiskar ritgerðir« kæmust að. Gagnvart þessum óskum leit fundurinn svo á, að allt þess konar »gæti og yrði tekið til greina af fjelagsstjórninni og ritnefndinni«. Þar var þá kosin hin fyrsta ritnefnd, og hlutu kosningu: dr. Grímur Thomsen, Jón Árnason, bókavörður, og Bene-

dikt Gröndal, adjunkt. Síðar var breytt til um ritnefndina á þá leið, að hún skyldi skipuð 5 mönnum; þar af skyldi forseti deildarinnar vera sjálfkjörinn. Þannig var þá Tímaritið stofnað og byrjaði að koma út 1880. Kom það út í heftum fyrst framan af, eins og til hafði verið ætlast. Síðar var þó farið að gefa út hvert ár í einu lagi, í sparnaðar skyni. Tímaritið virðist hafa verið allvinsælt lengi framan af, enda var það löngum fjölbreytt að efni, og rituðu í það hinir hæfustu menn þjóðarinnar í flestum greinum. En síðar meir tekur að brydda á nokkurri óánægju með það, og á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 29. júní 1895 vakti Einar Hjörleifsson, þá ritstjóri, máls á því, að Tímaritið hefði ekki verið eins fjölbreytt að efni og til stóð og ákveðið var í upphafi. Í sama streng tóku þá verandi varaforseti deildarinnar, dr. Þorvaldur Thoroddsen, og fleiri. Þær urðu lyktir á í þetta sinn, að samþykkt var með öllum þorra atkvæða svo hljóðandi tillaga frá Halldóri Jónssyni, bankagjaldkera: »Fundurinn skorar á stjórn fjelagsins að gera sjer far um, að Tímaritið verði framvegis fjölbreyttara að efni, alþýðlegra og nær upphaflegu program sínu«. Ekki virðist samt Tímaritið hafa skipt um efni við þetta. En fram úr þessu er farið að hugsa til breytinga á því, og er víða til þeirra vikið í blöðum um þau ár. Ekkert var þó gert í þessu skyni fyrr en á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 8. júlí 1903, er nefnd var kosin til þess að íhuga breytingar á fyrirkomulagi Tímaritsins og gera tillögur í þá átt (Guðmundur Björnsson, Guðmundur Finnbogason og Þorsteinn Erlingsson). Frá tillögum þeirrar nefndar og fundarályktunum, sem þar af spruttu, hefir verið skýrt áður hjer að framan, þar sem rakin er saga Skírnis. Þær urðu lyktir á, að Tímaritið var lagt niður og Skírnir í hinu gamla horfi og þar með Frjettir frá Íslandi, en aftur ráðist í að gefa út tímaritið Skírni. Þá hafði Tímaritið staðið um 25 ár, er það var lagt niður, og kom síðasti árgangur þess út 1904. Það er eitt hinna allramerkustu tímarita, er gefin hafa verið út á íslenska tungu, og er mjög víðtækt að efni og fjölskrúðugt. Um efni þess frá 1880—1900 vísast í ítarlega *efnisskrá*, er *Jón Ólafsson*, þá ritstjóri, hefir samið og deildin gaf út 1901; en eftir það er ekki önnur skrá en sú, sem er í hverjum árgangi, enda urðu þeir ekki nema 4 eftir þetta.

Um aðrar framkvæmdir Reykjavíkurdeildarinnar í bókaútgáfu á tíma-

bilinu frá 1880 til aldamóta er það að segja, að vart er við miklu að búast eftir þau stórvirki, er deildin hafði nú fest sig við. Þó koma jafnan nokkurar bækur út því nær árlega, auk hinna fastráðnu. Árið 1882 gaf deildin út *Upphaf allsherjarríkis á Íslandi* eftir Konrad Maurer, er Sigurður Sigurðarson, adjunkt, hafði þýtt. Næsta ár (1883) gefur deildin út þýðing síra Mattíasar Jochumssonar á leikritinu *Óthelló* eftir *William Shakespeare* og árið 1887 þýðing sama á *Rómeó og Júlíu* eftir sama höfund. Árið 1884 gaf fjelagið út *Stutt rithöfundatal á Íslandi,* 1400—1882, eftir *Jón Borgfirðing.* Árið 1892 byrjar að koma út hjá Reykjavíkurdeildinni hið mikla ritverk dr. *Þorvalds Thoroddsens, Landfræðissaga Íslands,* en síðan kom eigi framhald verksins fyrr en 1896, og varð Kaupmannahafnardeildin þá að taka verkið að sjer sökum bágborins fjárhags Reykjavíkurdeildarinnar, og gaf hún það síðan út, uns lokið var 1904. Þetta verk er í fjórum þykkum bindum og er eitt hið þjóðnýtasta rit og fróðlegasta, sem út hefir komið frá einum manni, enda er það mjög vinsælt. Árið 1900 gefur deildin út rit dr. *Björns M. Ólsens Um kristnitökuna á Íslandi* árið 1000. Frá aldamótum og til 1911 hefir deildin ekkert rit gefið út, auk rita þeirra, er áður hafa verið talin. En síðan deildirnar sameinuðust, hafa komið út hjer þessi rit: Árið 1911 *Brjef Jóns Sigurðssonar* í aldarminningu hans; um útgáfu þeirra sáu Jón Jensson, yfirdómari, og Þorleifur H. Bjarnason, adjunkt. Árið 1913 *Goðafræði* Norðmanna og Íslendinga eftir *Finn Jónsson,* prófessor, og 1914—1915 *Víkingasaga* eftir síra *Jón Jónsson* á Stafafelli.

Á tímabilinu 1880 til 1911, er deildin var lögð niður, gaf Kaupmannahafnardeildin út allmörg rit, auk þeirra, er áður voru ákveðin til útgáfu. Árið 1880 gaf deildin út *Auðfræði* eftir síra *Arnljót Ólafsson.* Árið 1883 *Ljóðmæli og önnur rit Jónasar Hallgrímssonar.* Um þá útgáfu sá nefnd manna, sem kosin var á fundi deildarinnar 16. maí 1882, og sátu í henni Björn Jensson, síðar adjunkt, Hannes Hafstein, nú bankastjóri, Jón A. Sveinsson, adjunkt, Konráð Gíslason, prófessor, og forseti deildarinnar, Sigurður L. Jónasson. Æfisaga Jónasar fylgir útgáfunni, samin af Hannesi Hafstein. Á fundi deildarinnar þann 19. maí 1883 var og afráðið að gefa út kvæði *Bjarna Thorarensens* af nýju. Nefnd var kosin til þess að sjá um útgáfuna, þeir Bogi Melsteð, sagnfræðingur, Einar Hjörleifsson, rithöfundur, Finnur

Jónsson, Hannes Hafstein og Jón Þorkelsson, nú landsskjalavörður. Nefndin safnaði ýmsum kvæðum, er áður voru óprentuð, og kom bókin út 1884. Þar með fylgir ævisaga Bjarna eftir Einar Hjörleifsson. Báðar þessar kvæðabækur eru með myndum höfundanna. — Ein af fyrstu bókunum, sem fjelagið gaf út, var *kvæði Stefáns Ólafssonar* (1823). Sú útgáfa hefir ekki þótt sem fullkomnust; því var það, að *Jón Þorkelsson,* síðar dr. og landskjalavörður, skrifaði stjórn deildarinnar laust eftir nýár 1884 og bauðst til þess að sjá um nýja útgáfu kvæðanna, enda var þá fyrri útgáfan uppseld fyrir löngu. Tilboðið var borið fram á fundi deildarinnar 28. febrúar 1884, og var afráðið að taka því. Kom síðan kvæðabókin út í tveim bindum á árunum 1885—1886, og fylgdi ævisaga síra Stefáns og nákvæm greinagerð kvæðanna eftir Jón Þorkelsson. Árið 1887 gaf fjelagið út *Gátur,* er safnað hafði *Jón Árnason,* bókavörður; var það verk skoðað sem framhald á *Íslenskum þjóðsögum og æfintýrum,* og skyldi hafa að geyma þjóðleg fræði, er þar var ekki að finna, og voru gáturnar I. bindi í því ritverki; en næsta ár andaðist Jón Árnason, og tók þá *Ólafur Davíðsson* við útgáfu ritverksins, sem einu nafni nefnist *Íslenskar gátur, skemtanir, vikivakar og þulur* og út kom smám saman í Kaupmannahöfn til 1903, er verkinu var lokið. Það er í 4 bindum gildum. — Það ár (1887) gaf deildin og út *Íslendingabók Ara fróða,* og sá Finnur Jónsson um útgáfuna. Árið 1892 kemur út hjá deildinni *Stutt íslensk bragfræði* eftir *Finn Jónsson.* Á árunum 1893—1896 gaf deildin út *Íslenskar ártíðaskrár;* sá um útgáfu þeirra dr. *Jón Þorkelsson,* og fylgja þeim miklar athugasemdir og skýringar frá hans hálfu. Árið 1896 gaf deildin út *Ferna fornislenska rímnaflokka;* þar í eru þessar rímur: Lokrur, Þrymlur, Griplur og rímur af Völsungi hinum óborna; útgáfu þeirra hafði Finnur Jónsson á hendi. Árið 1899 komu út *Jarðskjálftar á Suðurlandi* eftir dr. *Þorvald Thoroddsen,* en árið 1906 kom út framhald þess rits með titlinum *Landskjálftar á Suðurlandi. Fornaldarsögu* eftir *Hallgrím Melsteð,* bókavörð, gaf deildin út árið 1900 og árið eftir (1901) rit um grasafræði Íslands eftir *Stefán Stefánsson,* kennara á Möðruvöllum, *Flóru Íslands.* Næsta ár hefst að koma út *Íslendinga saga* eftir *Boga Th. Melsteð;* hefir hún komið út síðan í heftum við og við, eftir hentugleikum, til 1910, og kom þá út fjórða hefti annars bindis, en síðan

hefir ekkert komið út af því riti. — *Bókmentasögu Íslendinga* fram undir siðbót eftir *Finn Jónsson* hóf deildin að gefa út 1904 og lauk við hana næsta ár.

Á fundi deildarinnar þann 11. nóvember 1904 skýrir þá verandi forseti, Valtýr Guðmundsson, frá því, að stjórninni hefði komið til hugar að stinga upp á útgáfu alþýðurita, til þess að bæta úr ritskorti næsta ár. »Sú hlið á starfsemi fjelagsins [alþýðuritin] hefði lengi verið vanrækt, og það hefði orðið til hnekkis fyrir það. Kennslubækur handa skólanum, sem getið er um í lögunum, að fjelagið skuli gefa út, er varla þörf á, að fjelagið gefi út. Hann skýrði þá nánara frá uppástungu stjórnarinnar og las upp svo hljóðandi tillögu frá stjórninni: »Fundurinn ályktar að fela stjórn deildarinnar að stofna og gefa út smáritasafn, er nefnist: *Nútíðarfræði,* ritsafn handa alþýðu, er komi út í stærri eða minni heftum eða bæklingum, eftir því sem ástæður og efni leyfa, þó ekki meira en 15 arkir á ári, og skal stjórninni heimilt að ráða menn til að rita í safnið, þegar fjelaginu ekki bjóðast nægilegar eða hentugar ritgerðir í það af sjálfsdáðum. — Í safn þetta skal taka hvers konar ritgerðir, er miðað geta til almennra þjóðþrifa, verið menntandi og uppörvandi og vakið menn til íhugunar á nauðsynlegum umbótum bæði í andlegum og verklegum efnum. Sem dæmi þessa má nefna: 1. Um uppgötvanir og hagnýting náttúrukraftanna. 2. Um náttúrufræði, landfræði, þjóðfræði og mannfræði. 3. Um heilsufræði og varnir gegn stórsóttum. 4. Um þjóðfjelagsfræði og mannrjettindi. 5. Um atvinnumenntun og verklegar umbætur. 6. Um fjármál og skattamál. 7. Um skólamál og uppeldisfræði. 8. Um bókmenntir og listir. 9. Um samgöngumál og póstmál. 10. Um bjargráð og íþróttir. 11. Ævisögur þjóðskörunga, sem orðið geta til uppörvunar og fyrirmyndar fyrir æskulýðinn«.« — Út af tillögu þessari spunnust nokkurar umræður, en sjálf tillagan var að lokum samþykkt í einu hljóði með þeirri einu breytingu (eftir tillögu Boga Th. Melsteðs), að breytt var nafni ritsafnsins, svo að það skyldi heita *Alþýðurit Bókmenntafjelagsins.* Úr þessu lofsverða fyrirtæki varð þó minna en til mun hafa verið ætlast, og komu að eins út tvö rit í ritsafni þessu, hið fyrra 1905, *Um ættgengi og kynbætur* eftir *Kölpin Ravn,* en þýtt af Helga Jónssyni, grasafræðingi, síðar dr. phil., og hið síðara 1907 um *Willard*

*Fiske* eftir Boga Th. Melsteð. — Árin 1906 og 1907 gaf deildin út grasfræðarit eftir *Helga Jónsson,* dr. phil., *Bygging og líf plantna.* Á árunum 1907—1910 gaf deildin út *Lýsing Íslands* eftir *Þorvald Thoroddsen,* prófessor, í 2 bindum. Á árunum 1908 og 1909 gefur deildin út *Æfisögu Jóns Ólafssonar Indíafara,* sem Sigfús Blöndal, bókavörður, hafði umsjá með, og er hún í tveim bindum.

Auk þess, sem nú hefir verið talið, að fjelagið sjálft beint gaf út af bókum, kom það og fyrir, að það keypti bækur eða studdi að útgáfu rita á þessu tímabili. Svo var 1884, er fjelagið (Kaupmannahafnardeildin) keypti af »Samfund til udgivelse af gammel nordisk literatur« 400 eintök af *Reykholtsmáldaga* til útbýtingar meðal fjelagsmanna. — Þá hafði og fjelagið nokkur afskipti af útgáfu þjóðlagasafns síra *Bjarna Þorsteinssonar* á Hvanneyri, *Íslensk þjóðlög,* er út kom í Kaupmannahöfn á árunum 1906—1909 á kostnað Carlsbergssjóðsins, en þau afskipti voru sem nú skal greina. Á ársfundi deildarinnar 27. apríl skýrir þá verandi forseti, Kristján Jónsson, frá fyrirhugaðri útgáfu á þjóðlagasafni síra Bjarna Þorsteinssonar og las upp tillögu frá stjórnarnefndinni um það, hvernig útgáfunni skyldi háttað, ef síra Bjarni gengur að tilboðinu. Tillagan var þessi: »Deildin tekur að sjer að gefa út nefnt þjóðlagasafn með væntanlegum 1000—1500 kr. styrk frá Carlsbergssjóðnum, þó þannig, að útgáfukostnaðurinn deilist á 2 ár, eða að safnið sje gefið út í 2 pörtum og að höfundurinn eigi fái ritlaun frá deildinni að svo komnu.« Þessi tillaga var samþykkt með öllum þorra atkvæða. Á sama fundi skýrði forseti frá styrkbeiðni frá *E. H. Lind,* bókaverði í Uppsölum, til þess að gefa út ritverk, er hann hefir í smíðum og nefnist »Norsk-isländska dopnamn och fingerade namn från medeltiden«, og las upp brjef um það mál frá forseta Kaupmannahafnardeildarinnar (Þorvaldi prófessor Thoroddsen), C. Holm, prófessor í Kaupmannahöfn, og Adolf Noreen, prófessor í Uppsölum. Frestað var til næsta fundar að útkljá þetta mál. Á fundi stjórnarnefndar deildarinnar 5. júlí 1906 skýrir forseti frá því, að síra Bjarni Þorsteinsson hefði skriflega tilkynnt, að hann gengi ekki að útgáfutilboði deildarinnar frá síðasta fundi. Þá var og stjórnarnefndinni kunnugt um, að Carlsbergssjóðurinn hafði boðist til þess að gefa ritið út, samkvæmt brjefi stjórnar sjóðsins, dags. 24. mars s. á., en þar mælist sjóðstjórnin til þess,

að deildin leggi í notum þess styrk til útgáfu rits Linds bókavarðar, er áður var nefnt. Stjórnarnefnd deildarinnar kom sjer þá saman um að leggja svo hljóðandi tillögu fyrir næsta fund deildarinnar: »Fjelagsdeildin leggur fram 1000 kr. styrk til útgáfu ritsins »Norsk-isländska dopnamn och fingerade namn från medeltiden« eftir bókavörð Lind í Uppsölum, svo framarlega sem Carlsbergfondet í Höfn tekur að sjer að kosta að öllu leyti útgáfuna á þjóðlagasafni síra Bjarna Þorsteinssonar, og að því áskildu, að fjelagsdeildin fái ókeypis hjá Carlsbergssjóðnum 500 eintök af nefndu þjóðlagasafni, svo að fjelagsmenn hjer á landi geti fengið það ásamt forlagsbókum fjelagsins«. Á fundi deildarinnar þann 9. júlí s. á. var þessi tillaga borin upp og samþykkt, þó með þeirri breytingu (eftir tillögu Klemens landritara Jónssonar), að síðari hluti ályktunarinnar varð svo: »að því áskildu, að fjelagsdeildin fái hjá síra Bjarna Þorsteinssyni 500 eintök af nefndu þjóðlagasafni, fyrir 75 aura hvert eintak, til útbýtingar meðal fjelagsmanna hjer á landi, og greiðist andvirðið á öðru ári eftir að bókin er komin út«. Þannig var þessu útgáfumáli til lykta ráðið. Þess skal að eins getið, að styrkurinn til Linds bókavarðar var honum greiddur, eins og til stóð, og er rit hans nú komið út að öllu (prentað á árunum 1905—1915), og þakkar höfundurinn fjelaginu styrkinn í formála sínum. Er þetta í eina skiptið, sem fjelagið hefir stutt að útgáfu útlends rits eftir útlending.

Þótt nú fjelagið í eðli sínu væri einkum bókaútgáfufjelag, þá hefir það einnig snúist við ýmsum öðrum framkvæmdum, eins og ráð er fyrir gert í lögum þess, og eru sumar þeirra mjög gildismiklar og hafa verið stórgagnlegar landi og lýð.

**Mæling landsins.** Eitt af því, sem lengst mun halda minningu Bókmenntafjelagsins á lopti, er afskipti þess af mælingum landsins og útgáfa landsuppdrátta. Allt það mál er svo merkt, að vert er að rifja það upp hjer.

Í fimmtíu ára minningarriti Bókmenntafjelagsins er gerð góð grein fyrir mælingum hjer á landi og tilraunum manna til þess að gera uppdrátt af landinu. Ítarlega er þessu og lýst í *Landfræðissögu Íslands* eftir Þorvald prófessor Thoroddsen. Hjer verður því að teljast óþarft að rekja sögu þess máls fyrr en Bókmenntafjelagið tekur að hafa afskipti af því. Þess skal að

eins getið um fram það, sem segir í fimmtíu ára minningarritinu, að í handritasafni Bókmenntafjelagsins í Landsbókasafninu (Í. Bmf. 234, 4to.) er að finna *Astronomiske og meteorologiske Observationer*, er Rasmus Lievog hefir haldið frá septembermánuði 1779 til ársloka 1794. Er það safn mjög merkilegt og nákvæmt og með mörgum fróðlegum skýringum og athugasemdum. Árið 1820 má kalla, að væri lokið mælingum á ströndunum umhverfis landið. Kostnaðurinn við mælingar þessar var að mestu greiddur af hinum svo kallaða kollektusjóði, sem þó var sjerstök eign Íslands og upphaflega gjafafje til nauðstaddra við Skaftáreldana 1783. En samt sem áður voru uppdrættirnir gefnir sjávaruppdráttasafninu danska, og varð þó kollektusjóðurinn enn hjer á ofan að greiða eftirlaun þeim mönnum, sem við mælingarnar höfðu verið hjer. Sjávaruppdráttasafnið ljet nú prenta uppdrætti og lýsingar allra strandanna, og er hvort tveggja talið allvel af hendi leyst, einkum það, sem Hans Jacob Scheel átti hlut að; en þó er á þessu sá mikli galli, að mörg nöfn eru þar afbökuð og sum óþekkjanleg. En þótt mælingunum væri nú vel á veg komið að þessu leyti, þá var þó enn allt ómælt, þegar frá sjó dregur, og engin líkindi til þess, að þar á yrði ráðin bót fyrir framkvæmd stjórnarinnar.

En þá kemur *Björn Gunnlaugsson* til sögunnar. Hann bar þá tillögu upp við stiftsyfirvöldin 12. ágúst 1829, að þau vildu leggja til við stjórnina, að látin yrðu vera við Bessastaðaskóla, sem hann var kennari við, landmælingartól, svo að þau væru til taks, þegar á þyrfti að halda. Krieger, sem þá var stiftamtmaður hjer, mælti fram með tillögunni við rentukammerið, og var þá farið að líta eftir verkfærum þeim, sem áður höfðu verið notuð við landmælingar, og gera við þau, en sú viðgerð gekk svo seint, að ekkert af þeim varð sent til Íslands um vorið 1830; leið svo allt það ár, að ekkert varð að gert. En á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 15. febrúar 1831 var það ályktað, að fjelagið skyldi verja nokkuru af árstekjum sínum, þó ekki yfir 100 ríkisdali árlega, til þess að fá allt Ísland mælt og sett á landabrjef; þetta var og samþykkt á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 14. apríl s. á., og tókst Björn Gunnlaugsson á hendur mælingarstarfið, í þeirri von, að mælingartólin mundu koma þá um vorið, enda var hann upphafsmaður að þessu fyrirtæki. Það var ákveðið, að

mælingar skyldu fyrst byrja í Gullbringu- og Kjósarsýslum með Reykjavík, og síðan skyldi Björn Gunnlaugsson ferðast á hverju sumri um landið, eftir að skólanum væri sagt upp, fram til hausts, er skóli væri settur aftur, uns verkinu væri að öllu lokið og allt Ísland mælt. Krieger stiftamtmaður ritaði þá enn af nýju rentukammerinu (29. febrúar 1831) og skýrði frá fyriræتlun þessari og mælti með því, að stjórnin styrkti þetta fyrirtæki öfluglega, að því leyti sem það væri ofvaxið fjelaginu, bæði með því að ljá verkfæri til mælinganna og allt það, sem þyrfti af hinum fyrri strandmælingum. Rentukammerið brást þá vel við og sendi þegar um vorið með brjefi til stiftamtmanns 7. maí ýmis mælingartól og uppdrætti og ljet í ljósi ánægju sína yfir þessari fyrirætlun fjelagsins. Þá um haustið, 29. september 1831, var ákveðið á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar, að deildin skyldi leggja einnig af sinni hálfu styrk til mælinganna, en jafnframt að skjóta því til Reykjavíkurdeildarinnar að sækja um styrk til stjórnarinnar þessu mikla fyrirtæki til framkvæmdar, því að menn sáu fram á það, að efni fjelagsins mundu hvergi nærri hrökkva til. Um veturinn eftir var hinn fyrsti uppdráttur fullger frá hendi Björns Gunnlaugssonar og sendur fjelaginu með brjefi hans 2. febrúar 1832. Þessi uppdráttur tók yfir alla Gullbringu- og Kjósarsýslu og nokkurn hluta af Árnessýslu, og var í brjefinu skýrt frá, hver aðferð væri höfð við mælinguna. Kaupmannahafnardeildin ræddi málið á fundi 1. maí 1832, og var þar ákveðið »að ráðfæra sig við þá menn, sem vit hafa á að dæma um, hvort nokkuð er athugavert við það eða ábótavant, hvort betra muni að prenta það á steintöflum eða koparblaði og hvað prentunin muni kosta. Nú spurðist forseti deildarinnar fyrir og safnaði að sjer skýrslum ýmsra, sjerstaklega náttúrufræðingsins Schouws prófessors og O. N. Olsens, sem þá var höfuðsmaður við herforingjaskólann. Eftir þessum skýrslum var auðsætt, að efni fjelagsins mundu ekki hrökkva til þess að koma bæði mælingunni í verk og láta prenta uppdrættina að auki, en gagnslítið hins vegar að eiga uppdrættina óprentaða í handritum. Fjelagsstjórn Kaupmannahafnardeildarinnar tók það því til bragðs að skýra rentukammerinu frá málavöxtum í brjefi 1. ágúst 1832, og er þar komið svo að orði um hinn fyrsta uppdrátt, að »þeir menn, sem eru nákunnugir, hvernig hagar öllu landslagi í hjeraðinu, segi,

að uppdrátturinn sje mjög greinilegur og nákvæmur og hafi marga og mikla yfirburði yfir þá, sem áður voru til«. Eftir að rentukammerið hafði leitað álits ýmsra manna tók það mikinn og góðan þátt í því að styðja fjelagið að verkinu, bæði með því að fá Olsen, þann er áður var nefndur, til þess að sjá um tilbúning og útgáfu uppdráttanna, og H. J. Scheel til þess að starfa að öllum útreikningi við þríhyrningamálið. Það jók og nokkuru við ferðastyrk þann, er fjelagið hafði samið um við Björn Gunnlaugsson; aldrei urðu þó reikningar Björns hærri en 180 ríkisdali mest á sumri, auk þess sem hann fekk 10 spesíur fyrir að teikna hvern sjerstakan uppdrátt. Loks beittist og rentukammerið fyrir því að fá fje úr ríkissjóði til stungu og prentunar á uppdráttunum. Hið konunglega danska vísindafjelag styrkti og fyrirtæki þetta rausnarlega með því að leggja 500 ríkisdali til fyrsta fjórðungsins (1835). Björn ferðaðist nú um landið á hverju sumri og mældi og sendi jafnharðan uppdráttu til Kaupmannahafnardeildarinnar, en þar tók Olsen við þeim. Svo er að sjá á bókum fjelagsins, og svo segir Jón Sigurðsson frá, að verk þetta hafi orðið fyrir allmiklum andróðri ýmsra fjelagsmanna, er þótti það liggja fyrir utan verksvið fjelagsins samkvæmt lögunum. Um þetta bil var forseti Kaupmannahafnardeildarinnar Þorgeir Guðmundsson. Hann beittist fast fyrir að hrinda þessu máli áfram og sparaði til þess enga fyrirhöfn að styðja framgang þess og útvega fje til þess. Slíkt hið sama gerði Finnur Magnússon, er hann tók við forsetadómi (27. mars 1839), en þá var verk þetta komið á góðan rekspöl. Í fyrstu hafði fjelagið ætlast til þess, að prentaður væri uppdráttur af hverri sýslu sjerstaklega; en það sýndi sig brátt, er menn tóku að rannsaka málið betur, að þetta mundi kosta svo mikið, að fjelaginu væri það með öllu ofvaxið, og ekki svo mikils styrks að vænta annarstaðar frá, að koma mætti þessu fram. Því var það ráð tekið að skipta landinu í fjóra hluta, sem setja mætti saman í heild; var mælikvarði tekinn í stærðarhlutfallinu $\frac{1}{480000}$ og fyrsta sýnishorn lagt fram á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. mars 1836, og líkaði öllum vel. Fyrsti fjórðungur landsins var altilbúinn til prentunar árið 1840, en á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 19. apríl 1845 var skýrt frá því, að öllum uppdráttunum væri svo langt komið, að þeim mundi lokið að tveim árum liðnum. Um haustið 1846

komu til Kaupmannahafnardeildarinnar síðustu uppdrættirnir frá Birni Gunnlaugssyni, og leið þá ekki á löngu til þess er síðasti fjórðungurinn var prentaður og allur landsuppdrátturinn þar með fullger. Þess skal getið, að Jón Sigurðsson, síðar forseti fjelagsins, hafði á hendi umsjón með rjettri ritan staðanafnanna á uppdrættinum. Olsen, höfuðsmaður, hafði búist við því, þegar hann hafði stóra landsuppdráttinn í smíðum, að menn mundu verða til þess að búa til eftir honum minna uppdrátt til þess að græða á og selja í bága við fjelagið. Til þess að aftra þessu, tók hann sjer sjálfur fyrir hendur að búa til uppdrátt á einu blaði í stærðarhlutfallinu $\frac{1}{960000}$ og láta hann koma út um líkt leyti og uppdrátt fjelagsins. Fekk hann styrk til þessa hjá stjórninni, en entist ekki til þess að fá verkið fullgert, en miklu var þó aflokið, er hann andaðist. Brynjólfur Pjetursson var þá forseti í deildinni; hann sá, að fjelaginu gat orðið hagur að því að leysa til sín þenna minna uppdrátt og fekk því framgengt í deildinni að kaupa hann af ekkju Olsens; þó var sett það skilyrði, að kostnaðurinn færi ekki fram úr 500 ríkisdölum. Brynjólfi tókst að koma samningnum svo heppilega fyrir, að eirspjaldið varð fjelaginu ekki svo dýrt; fjelagið galt ekkjunni 700 ríkisdali og 425 ríkisdali fyrir að fullgera uppdráttinn á spjaldinu, en þar á móti fekk fjelagið 1000 ríkisdali, sem eptir stóðu af styrk þeim, sem stjórnin hafði veitt til uppdráttarins, svo að í rauninni fekk fjelagið uppdráttarmótið fullgert fyrir 125 ríkisdali. Hinn stóri uppdráttur Íslands kom út 1845 og kostaði, á 4 blöðum með landslagslitum 7 ríkisdali hjer, 9 ríkisdali erlendis, með sýslulitum hjer 6 ríkisdali 48 sk., erlendis 7 ríkisdali 32 sk., með vatnalitum hjer 5 ríkisdali 48 sk., erlendis 7 ríkisdali. Hinn minni uppdráttur landsins kom út 1849 á einu blaði með sýslulitum og kostaði 3 ríkisdali.

**Lýsing landsins.** Eigi löngu eftir það, að landmælingarnar hófust, rjeðst fjelagið og í annað stórmerkt fyrirtæki, náskylt landsuppdrættinum. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 25. ágúst 1838 bar *Jónas Hallgrímsson* upp tillögu um »að kjósa nefnd manna og fela henni á hendur að safna öllum fáanlegum skýrslum, fornum og nýjum, er lýsi Íslandi eður einstökum hjeruðum þess, og undirbúa svo til prentunar nýja og nákvæma lýsingu á Íslandi, er síðan verði prentuð út af fyrir sig á

fjelagsins kostnað«. Í deildinni var þá þegar kosin sex manna nefnd (Jónas Hallgrímsson, Konráð Gíslason, Magnús Eiríksson, Jón Sigurðsson, Finnur Magnússon og Eggert Briem), til þess að rannsaka og láta uppi álit sitt um tillögu þessa. Nefndin lagði álit sitt fyrir næsta fund deildarinnar 24. september s. á.; mælti hún fram með tillögunni, og var þá ákveðið að velja fimm manna nefnd til þess að safna til landslýsingarinnar. Þessir urðu í nefndinni: Jónas Hallgrímsson, Konráð Gíslason, Jón Sigurðsson, Brynjólfur Pjetursson og Finnur Magnússon. Nefndarmönnum kom saman um það, að haganlegast og best væri að byrja á því að safna lýsingum sókna og sýslna sjer í lagi, svo mörgum sem fá mætti, og væri til þess best fallið að senda brjef til allra presta og allra sýslumanna og treysta á góðvild þeirra, að þeir sendu fjelaginu lýsingar hver á sinni sókn eða sýslu. Nefndin taldi, að með þessum hætti mundi safnast hið besta og hentugasta efni, sem fáanlegt væri, og hin besta og öruggasta undirstaða til hjeraðalýsingar á Íslandi, sem fjelagið gæti þá að minnsta kosti geymt, ef ekki heppnaðist að koma lýsingunni á prent svo fljótt, og yrði þetta þá með tímanum því betra safn sem fleira bættist við. Samkvæmt þessu ljet Kaupmannahafnardeildin prenta tvö brjef frá nefndinni 30. apríl 1839. Eru þau bæði prentuð meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Var annað til allra sóknarpresta á Íslandi, og er þar skýrt stuttlega frá efni og niðurskipan, sem ætlast var til, að höfð yrði á bókinni; þar með voru einnig látnar fylgja spurningar í 70 liðum til þess að fá greinilegar skýrslur um þau atriði, sem menn vildu helst óska, að lýst yrði í sóknaskýrslum prestanna. Hitt brjefið var til allra sýslumanna á landinu; því fylgdi einnig sú bón, að þeir sendu lýsing hver á sinni sýslu, og voru spurningar sendar með í 12 liðum, þeim til bendingar og leiðbeiningar um þau atriði, er æskilegast þótti að fá lýst. Sýslumönnunum var og sent brjefið og spurningarnar til prestanna, til enn nánari vitneskju um þetta fyrirtæki fjelagsins. Bæði sýslumenn og prestar brugðust ágætlega við þessari áskorun, og bráðlega söfnuðust lýsingar frá flestum þeirra á næstu árum. Safn þetta er nú að finna í handritasafni Bókmenntafjelagsins í Landsbókasafninu (Í. Bmf. 18—21, fol.).

Enn var um líkt leyti stofnað til fyrirtækis í fjelaginu, er teljast mátti

í sambandi við landslýsinguna, en það var að fá safnað veðurbókum frá ýmsum stöðum um land allt. *Jónas Hallgrímsson* bar upp tillögu þess efnis á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 6. október 1840, og var hún samþykkt og einkum vænst styrktar prestanna á tilteknum stöðum. Reykjavíkurdeildin gaf því út prentað boðsbrjef til þessara presta og ýmsra annarra manna þann 20. mars 1841, ásamt sýnishorni af veðurbók svo lagaðri sem fjelagið óskaði sjer. Þetta boðsbrjef er prentað meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. En til þess að veðurbækurnar yrðu sem öruggastar, þá var nauðsynlegt að sjá mönnum fyrir verkfærum, hitamælum o. fl., til þess að menn gætu gert þær sæmilega úr garði. Vísindafjelagið danska ljet þá halda veðurbækur víðs vegar um Danmörk og hafði fasta nefnd til þess að sjá um þær; því var þá skýrt frá fyrirætlun Bókmenntafjelagsins, og brást það svo vel við, að það sendi Bókmenntafjelaginu 45 hitamæla, ætlaða til handa þeim, er taka vildu að sjer að halda veðurbækur. Reykjavíkurdeildin ljet nú ganga út ítarlegri fyrirsögn um samning veðurbóka, og er hún prentuð með boðsbrjefi deildarinnar 20. ágúst 1841 og aftur meðal fylgiskjalanna í fimmtíu ára minningarriti fjelagsins. Brugðust menn yfirleitt vel við þessum tilmælum, og bárust fjelaginu þaðan af margar veðurbækur árlega. Þó voru sumir, sem ekki vildu sinna þessu, nema fjelagið greiddi þeim kaup fyrir; aðrir kröfðust þess, að fjelagið legði til pappír í bækurnar, en sumir skoruðust algerlega undan verkinu af ýmsum ástæðum. Fjelagið gaf öllum Skírni ókeypis, þeim er veðurbækur sendu. Þetta veðurbókasafn er nú að finna í handritasafni Bókmenntafjelagsins í Landsbókasafninu (Í. Bmf. 57 og 73, fol.).

Jónas Hallgrímsson var sjálfkjörinn til þess að semja landslýsinguna; var hann bæði frumkvöðull að þessu fyrirtæki, náttúrufræðingur, hafði ferðast um land allt, að kalla mátti, og var hinn ötulasti í því að hrinda fram þessu máli. Þau ár, sem hann var hjer á landi, safnaði hann af alefli, einkum til eðlisfræði landsins. Kaupmannahafnardeildin ályktaði því á fundi 23. apríl 1842 að bjóða honum 200 ríkisdala styrk á ári til þess að semja lýsinguna og koma þá þegar um haustið til Kaupmannahafnar. Jónas þekktist þetta boð og vann nú að verkinu, meðan hann lifði, en eftir andlát hans (26. maí 1845) tók fjelagið við því, er hann hafði safnað

og samið af verkinu, og er það að finna í handritasafni Bókmenntafjelagsins í Landsbókasafninu (Í. Bmf. 4 og 13, fol., og 27—29, 4to.; sbr. og Í. Bmf. 10, fol., og 6–8, 8vo.). Eftir andlát hans varð enginn til þess að taka upp verk hans. En mikinn stuðning hafa ýmsir rithöfundar haft af sókna- og sýslnalýsingunum, bæði í staðalýsingum (t. d. *Kålund:* Historisk-topografisk beskrivelse af Island, Kh. 1877—1882) og í þjóðsagnafræðum (Jón Árnason, Ólafur Davíðsson og Jón Þorkelsson). Síðan danska stjórnin tók að gera mælingar hjer á landi og uppdrætti eftir þeim (nú frá því laust eftir aldamót), hefir Generalstabens topografiske Afdeling jafnan útvegað sjer eftirrit af lýsingunum, allt er lýtur að staðalýsingu, til hliðsjónar jafnótt sem mælingarnar hafa farið fram.

**Landsbókasafnið.** Þá er að minnast þess, að Bókmenntafjelagið átti drjúgan þátt í stofnun *Landsbókasafnsins* eða *Stiftisbókasafnsins,* sem það var kallað lengi. Frumkvöðlar að stofnun safnsins eru í rauninni tveir menn, nær samtímis, annar Dani, hinn Þjóðverji, og vissi hvorugur um tillögu annars. En sökum þess, að um ákveðnari tillögu er að ræða frá hinum fyrr nefnda, er hann hjer fyrr talinn, eins og áður hefir verið gert almennt. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. mars 1818 bar Carl Christian *Rafn* upp tillögu um það, að kjósa skyldi nefnd til þess að hugleiða, hvernig hentugast yrði að stofna bókasafn á Íslandi. Jafnframt lagði hann fram skrá yfir bækur, sem hann hafði safnað saman eða menn höfðu lofað að gefa í þessu skyni. Deildin vottaði tillögumanni þakklæti sitt fyrir tillöguna og ákvað að skrifa Reykjavíkurdeildinni um málið og gerði það 14. apríl s. á., en Reykjavíkurdeildin ritaði stiftsyfirvöldunum þegar, og var þannig kominn rjettur rekspölur á málið. Þann 28. ágúst 1817 hafði *Friedrich Schlichtegroll,* »generalsekretær« við hið konunglega vísinda-akademí í München, skrifað Münter Sjálandsbyskupi, Finni prófessor Magnússyni, svo og Grími Thorkelín og Byrgi Thorlacius og hvetur til þess, að stofnað verði fjelag til viðreisnar íslensku menntalífi; gerir hann ýmsar tillögur í þessa átt, meðal annarra þá að stofna bókasafn á Íslandi, og býðst til þess að gefa bókasafninu bækur og útvega því bækur að gjöf frá ýmsum menntavinum á Þýskalandi. (Sjá handritasafn Landsbókasafnsins, Í. Bmf. 41, fol.) Þessir menn svöruðu brjefi Schlichtegrolls

með þökkum, en hann skrifar þeim aftur 16. ágúst 1818. Þessi skjöl lagði Finnur prófessor Magnússon fram á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 26. febrúar 1819. Deildin ályktaði að þakka þetta boð og auglýsti, að hún vildi fúslega taka við bókum, er gefnar væru í þessu skyni, og geyma þær, þar til er fullnaðarráðstöfun yrði gerð um hið fyrirhugaða bókasafn. Eftir þetta söfnuðust og til fjelagsins töluverðar bókagjafir, og annaðist fjelagið geymslu á þeim og sendingar, greiddi band á bókum fyrir Stiftisbókasafnið, sömuleiðis bókastimpil og gaf út á sinn kostnað *Registr yfir Íslands Stiftisbókasafn,* Kh. 1828, er samið mun af P. F. Hoppe, stiftamtmanni, er hafði þá á hendi bókvörslu safnsins eða var í nefnd manna, er umsjá hafði með því. Styrkti fjelagið safnið eftir föngum, meðan það var að komast á fót.

Slíkt hið sama styrkti fjelagið og amtsbókasafnið á Akureyri með bókagjöfum og lestrarfjelög ýmis hjer á landi, er þess fóru á leit.

**Verðlaun o. fl.** Þess er enn að geta, þótt lítinn árangur bæri, að á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 8. júlí 1873 var kosin nefnd til þess að segja álit sitt um áskorun frá Þingvallafundi þá um sumarið, er fór fram á það, að »stofna eitthvað þarflegt og fagurt í minningu 1000 ára aldurs þjóðar vorrar«, einkum að samin yrði sem fyrst saga Íslands. Nefndin lagði fram álit sitt á fundi deildarinnar 29. s. m. og lagði til, að heitið væri 500 ríkisdala verðlaunum fyrir sögu Íslands, er lokið væri og send deildinni fyrir árslok 1874. Deildin fjellst á tillöguna og ljet auglýsa í Þjóðólfi verðlaunaboðin. Kaupmannahafnardeildin tók í sama streng með því fororði, að hún fengi að leggja dóm á ritin, svo framarlega sem hún ætti að greiða eitthvað af verðlaununum. Fjelaginu barst að eins ein ritgerð (frá síra Jóni Ingjaldssyni), en ekki vildi nefndin leggja með því, að veitt væru verðlaun fyrir þá ritgerð, en taldi henni þó ýmislegt til gildis.

Í líka átt fór og sömu afdrifum sætti tillaga frá þá veranda forseta Reykjavíkurdeildarinnar, Birni M. Ólsen, er hann bar fram á stjórnarfundi deildarinnar þann 3. mars 1898 og svo hljóðaði: »Fundurinn gefur stjórninni heimild til að semja við Hafnardeildina um, að báðar deildir í sameiningu heiti verðlaunum, allt að 500 kr., fyrir hina bestu ritgerð um sögu Íslands á þessari öld, með þeim nánari skilyrðum, sem stjórnum deildanna kemur saman um«. Stjórnin aðhylltist tillöguna, og var hún einnig

samþykkt á fundi deildarinnar 21. mars sama ár og á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 30. apríl s. á. Frestur var settur til ársloka 1905 um skil á ritgerðum í þessa átt og verðlaunin auglýst, en engin ritgerð kom fram í þessu skyni.

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 11. október 1904 ber stjórn deildarinnar enn fram tillögu um verðlaun fyrir skáldrit. Taldi forseti ljóðskáldskapinn vera orðinn hreina landplágu á Íslandi; væri því gott, að fjelagið reyndi að leiða skáldin til að snúa að öðrum greinum skáldskapar, leikritum og skáldsögum. Tillagan hljóðaði svo: »Fundurinn ályktar, að Hafnardeild Bókmenntafjelagsins skuli heita þrenns konar verðlaunum fyrir þrjár hinar bestu skáldsögur eða leikrit með efni úr íslensku nútíðarlífi eða sögu þjóðarinnar, sem berast stjórn deildarinnar fyrir 1. janúar 1906 og dæmd eru verð verðlaunanna af 3 manna dómnefnd, er þannig sje skipuð, að 2 þeirra sjeu kosnir á almennum fundi deildarinnar, en 1 tilkvaddur af stjórn hennar. Handritin eru eign höfundanna, en deildin áskilur sjer útgáfurjett til þeirra gegn venjulegum ritlaunum. Þeir einir geta keppt um verðlaunin, sem hafa verið eða eru orðnir meðlimir fjelagsins fyrir árslok 1905. Verðlaunin eru þessi: *1. verðlaun:* 300 kr. (200 kr. í peningum og 100 kr. í bókum og uppdráttum fjelagsins, eftir eigin vali þess, er verðlaunin hlýtur). — *2. verðlaun:* 200 kr. (100 kr. í peningum og 100 kr. í bókum og uppdráttum). — *3. verðlaun:* 150 kr. (50 kr. í peningum og 100 kr. í bókum og uppdráttum). — Stjórn deildarinnar sjer um birting þessarar ályktunar fyrir almenningi og setur reglur um, á hvern hátt ritin skuli send henni«. Umræður urðu allmiklar um tillöguna, en eigi varð þó nema einn maður til þess að andmæla henni, og að lyktum var hún samþykkt með öllum greiddum atkvæðum gegn 1. — Ekki varð mikill árangur af þessari ályktun. Þó er svo að sjá sem eitt skáldrit hafi borist deildinni út af þessari ályktun, því að í fundargerð Kaupmannahafnardeildarinnar 23. apríl 1907 segir svo: »Þá lagði forseti fram nefndarálit um skáldrit það, er deildin hafði heitið verðlaunum fyrir. Allir nefndarmenn rjeðu frá að verðlauna ritið. . . . Var þá borið upp fyrir fundinn, hvort hann vildi samþykkja dóm nefndarinnar. Tjáðu fundarmenn sig í einu hljóði nefndinni samþykka«.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 8. júlí 1905 bar mag. art. Guðmundur Finnbogason fram svo látandi tillögu: »Fundurinn skorar á stjórn Bókmenntafjelagsins að hlutast til um, að rituð verði æfisaga Jóns Sigurðssonar og gefi Bókmenntafjelagið hana út á 100. fæðingardegi hans. Sje hún í hvívetna svo úr garði gerð, að samboðið sje minningu Jóns Sigurðssonar«. Var tillaga þessi samþykkt með öllum atkvæðum. Stjórn deildarinnar tók nú málið til athugunar á fundi, sem hún átti með sjer þann 24. apríl 1906, og kom ásamt um að bera svo hljóðandi tillögu upp við deildina: »Fjelagsdeildin býður fram verðlaun fyrir æfisögu Jóns heitins Sigurðssonar forseta, er innihaldi ítarlega lýsingu á hinni pólitisku og hinni vísindalegu starfsemi hans og sje að öðru leyti gagnger lífssaga hans. Æfisagan í handriti sje komin til stjórnarnefndar deildarinnnar fyrir janúarmánaðarlok 1910. Þriggja manna nefnd, kjörin af aðalfundi deildarinnar, dæmir um ritið. Verðlaunum heitir deildin, 1200 kr., fyrir ritgerðir þær, er nefndin álítur verðlauna verðar, og skiptir hún þeim milli tveggja bestu ritgerðanna, eftir því sem henni þykir hæfa. Stærð ritsins fari eigi fram úr 50 örkum í venjulegu 8 blaða broti. Fjelagið gefur síðan ritið út og greiðir vanaleg ritlaun fyrir«. Tillagan var borin upp á fundi deildarinnar þann 27. apríl 1906 og samþykkt í einu hljóði. Síðan voru verðlaunin auglýst í blöðunum, en enginn varð árangurinn. Þegar því útsjeð var um það, að deildinni mundi berast nokkurt rit í þessa átt, var afráðið að gefa út úrval af brjefum Jóns Sigurðssonar í aldarminning fæðingar hans, og er þessa áður getið.

Enn ber þess að geta, að á alþingi 1911 lá fyrir frumvarp til laga um stofnun háskóla. Var um tíma tvísýna á, hvort háskólinn yrði hafinn þá eða eigi og fje lagt til hans. Þetta mun hafa leitt til þess, að á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 22. apríl 1911 hreyfði Mattías Þórðarson, fornmenjavörður, þessu máli og kvað æskilegt, eins og því máli væri nú komið á þingi, að Bókmenntafjelagið ljeti til sín heyra um það. Eftir nokkurar umræður var borin upp svo látandi tillaga frá Halldóri bankagjaldkera Jónssyni: »Fundurinn lætur í ljósi, að mjög æskilegt væri, að alþingi, er nú er starfandi, sjái sjer fært að veita fje til, að háskólinn taki til starfa nú á þessu ári, 100 ára afmæli Jóns Sigurðssonar«. Var tillagan

samþykkt með 57 atkvæðum gegn 3. Fjárveitingarnar höfðust fram á þinginu, og háskólinn var stofnaður, eins og kunnugt er, á 100 ára afmælisdegi Jóns Sigurðssonar, þann 17. júní 1911.

Að endingu á það við á þessum stað að geta þess fjelaginu til sæmdar, að á sínum tíma átti það mikinn þátt í því að styðja tvo efnilega unga menn, er þá voru illa staddir, til ferða utanlands. Urðu þeir síðan báðir nafnkenndir menn og unnu landi og þjóð gagn og sæmd. Var annar Tómas Sæmundsson. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 1. maí 1832 gengst deildin undir það að ábyrgjast fyrir hönd Tómasar 800 ríkisdala lán úr »Fondet ad usus publicos« til ferðalags þess, er hann hafði fyrirhugað suður í lönd. Hinn var Konráð Gíslason. Konráð þjáðist af augnveiki, og var um eitt skeið tvísýnt um, að hann hjeldi sjóninni. Þá var það á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 10. ágúst 1844 með atfylgi Brynjólfs Pjeturssonar, að deildin samþykkti að veita Konráði 300 ríkisdala lán til þess að dveljast á Saxlandi og leita sjer þar lækninga við augnveiki. Þetta hreif; Konráði batnaði til fulls. Þess þarf naumast að geta, að bæði þessi lán voru greidd skilvíslega.

---

## IV. Sæmdir og virðingar,
### er fjelagið hefir látið í tje.

Það er gamall siður í fjelögum þeim, er við bókaútgáfu fást, og fleiri fjelögum, að votta þeim mönnum, er hlynnt hafa að fjelaginu, þakklæti á einhvern hátt. Þetta er tíðast gert í því formi, að fjelag það, er í hlut á, gerir góðgerðamenn sína eða þá, er það vill sóma sýna, að *heiðursfjelögum,* sem svo eru nefndir. Bókmenntafjelagið tók upp þenna sið, sem önnur slík fjelög, og virðist hafa verið allört á að veita slíkar sæmdir, einkannlega í fyrstu, meðan það var ungt, sem von var, og hafði ekki enn náð festu. Það kaus til heiðursfjelaga ýmsa menn, sem menn mundi nú tæplega hafa grunað, að fyrir slíkum sæmdum hefðu orðið. Það var aldrei nema sjálfsagt, að helstu styrktarmenn fjelagsins hlytu þessar sæmdir, enda er svo, að þeir menn, er meiri háttar gjafir lögðu til fjelagsins, hvort sem var í peningaframlögum eða bókagjöfum, hlutu þessa sæmd; um aðrar þakkir þeim til handa var naumast hægt að ræða frá fjelagsins hálfu. Sama er að segja um menn, sem lagt höfðu á sig mikla vinnu í þarfir fjelagsins, svo sem forsetarnir og aðrir starfsmenn þess. Líkt er að segja um merka vísindamenn, og sá háttur hefir verið hafður á hin síðari ár, að fjelagið virðist hafa verið mjög varkárt í að veita mönnum þessar sæmdir. Þar á móti framan af, meðan fjelagið var að komast í efni, reið því á að koma sjer í mjúkinn hjá öllum þeim, er góða áheyrn höfðu hjá þeim mönnum, er almannasjóðum áttu að ráða; þetta gerðu öll fjelög á þeim tíma, og því ekki nema eðlilegt, að Bókmenntafjelagið í fátækt sinni færi að dæmi annarra fjelaga. Þess má enn geta, að sú fordild fylgdi aldaranda um þetta leyti, að sá þótti mestur maðurinn, sem hrúgað gat saman á titilblað bóka þeirra, er hann gaf út, sem mestu af titlum og nafnbótum, og þótti þá eigi

hvað minnst í það spunnið að geta talist fjelagi, ekki síst heiðursfjelagi, í svo og svo mörgum vísinda- og mennta-fjelögum. Þetta munu menn sjá, ef þeir vilja skyggnast í rit þau, er út voru gefin á öndverðri 19. öld og fram eftir þeirri öld. Er því ekki trútt um, að ýmsir menn hafi beint sótst eftir þessari sæmd til þess að geta hampað henni fram, þegar þeim þótti við eiga, og jafnvel eigi skorast undan að láta eitthvað fjekyns fremur af hendi rakna fyrir vikið. Þegar þetta allt er athugað, þá er í rauninni furða, að eigi skuli fleiri hafa orðið fyrir þessari sæmd í Bókmenntafjelaginu heldur en raun hefir á orðið. Allir þeir, sem hlotið hafa þá sæmd að verða heiðursfjelagar, eru taldir hjer upp í skrá um heiðursfjelaga aftan við, í þeirri röð, sem þeir urðu það. *Heiðursforsetar* hafa tveir orðið, *Árni* byskup *Helgason*, er var annar aðalstofnandi fjelagsins og hafði veitt Reykjavíkurdeildinni forstöðu um 32 ára bil. Hinn er *Napóleon* prins, er hingað kom til lands 1856; gaf hann fjelaginu mikið í bókum og hjet enn meira; Reykjavíkurdeildin kaus hann til þess að vera »fjelagsins fyrsta heiðursforseta«. Þar þótti þó Kaupmannahafnardeildinni fulllangt farið, og í fundargerð deildarinnar þann 16. desember 1856 er farið um þetta svo felldum orðum: »Í tilefni af því, að deildin á Íslandi hefir kosið prins Napóleon til »fyrsta heiðursforseta«, áleit fjelagið, að rjettast væri að tilkynna deildinni í Reykjavík, að deildinni hjer [þ. e. í Kaupmannahöfn] ekki þætti eiga við, að slíkar kosningar færu fram, nema það væri gert að lögum, þar eð ekkert væri um þetta í lögum fjelagsins«.

Það kom og fyrir í Bókmenntafjelaginu, sem enn tíðkast í ýmsum vísindafjelögum, að menn voru gerðir að *brjefafjelögum*, sem kallað var, og er það skör lægra en heiðursfjelagi. Þeir eru fjórir, sem þessa sæmd hafa hlotið hjá fjelaginu, það er *Hallgrímur Jónsson*, djákni, *P. Iversen*, kennari í Middelfart, *Jón Borgfirðingur* (hann var síðar kjörinn heiðursfjelagi) og jungfrú *Margarethe Lehmann-Filhès.*

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 29. september 1831 var samþykkt að fara þess á leit, að valinn væri *patronus* fyrir báðar deildirnar, og lagði deildin fyrir sitt leyti til, að til þessa væri kjörinn *Moltke*, greifi og ráðgjafi konungs, mestur góðgerðamaður fjelagsins allra einstakra manna, en ekki vildi Reykjavíkurdeildin fallast á það á fundi sínum 12.

desember sama ár, mun hafa þótt rjettast að reyna að fá konungborinn mann til að taka að sjer vernd fjelagsins, sem síðar varð raun á (sbr. 12. bls.). Úr þessu varð því ekkert.

Þá minntist og fjelagið stofnanda síns, *Rasmusar Rasks,* er hafin voru samskot árið 1839, til þess að reisa honum minnisvarða, með því að leggja fram til þeirra samskota 50 ríkisdali. Sömuleiðis var sama manns minnst hátíðlega í báðum deildum fjelagsins á 100 ára fæðingardegi hans, og gaf fjelagið út minningarrit um hann, samið af nú veranda forseta fjelagsins, prófessor Birni M. Ólsen. Enn fremur var á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 2. janúar 1888 samþykkt að fela stjórninni að leita samskota til minnisvarða yfir Rask.

Þess er enn að geta, að þýskur maður einn göfugur og skáld gott, *Friedrich de la Motte-Fouqué,* fríherra, sendi og tileinkaði fjelaginu kvæði, er hann hafði ort til Íslands og mikið þótti til koma. Til hans orti þá *Bjarni Thorarensen* kvæðið »Íslands riddari«. Síðan sneri de la Motte-Fouqué Gunnlaugs sögu ormstungu á þýsku, eða þó öllu heldur færði í skáldsögubúning (»Die Sage von dem Gunlaugur, genannt Drachenzunge«, gefin út í Wien 1826 í 3 bindum), og eignaði hana fjelaginu. Þetta sýndi bæði góðvild til fjelagsins og var og líklegt til að auka veg þess, er svo mætur maður varð til þess að sýna því sóma. Fyrir þetta orti Finnur prófessor Magnússon kvæði til Fouqués á þýsku fjelagsins vegna, »Thules Gruss«, er fjelagið ljet prenta á sinn kostnað árið 1827. — *John Heath,* sá er gaf út þýðing síra Jóns Þorlákssonar á Paradísarmissi Miltons, varð og fyrir svipaðri sæmd hjá fjelaginu: Finnur Magnússon orti til hans kvæði á íslensku og ensku, sem prentað var á kostnað fjelagsins, »Minnisljóð um Jón Milton og Jón Þorláksson«.

---

## V. Lög fjelagsins og breytingar á þeim.

Þess hefir verið getið hjer að framan, að Rask samdi sjálfur uppkastið til hinna fyrstu laga fjelagsins, og var það síðan samþykkt að mestu óbreytt af báðum deildum. Hin fyrstu lög fjelagsins eru prentuð í Kaupmannahöfn 1818, bæði á íslensku og dönsku, og eru í 48 greinum. Að framan hefir verið rakið, hvert markmið fjelaginu hafi verið sett í lögunum, og verður naumast sagt, að þar um hafi verið nokkurar breytingar gerðar til muna frá því sem fjelagið var í öndverðu. Öðru máli er nokkuð að gegna um lögun fjelagsins og ytri atriði ýmis. Það sjest greinilega á lögunum, hverjar grundvallarreglur hafa vakað fyrir Rask og fjelögum hans, er þeir stofnuðu fjelagið, bæði það er tekur til sjálfrar stjórnar fjelagsins og framkvæmda þess. Það er bert, að þeir hafa í hvoru tveggja leitast við að haga fjelaginu svo, að það gæti orðið sem nytsamlegast og þó sem þjóðlegast og sneitt hjá þeim skerjum, sem hin fyrri fjelög, Lærdómslistafjelagið og Landsuppfræðingarfjelagið, höfðu strandað á. Það er kunnugt, að Lærdómslistafjelagið hafði valið sjer danska forstöðumenn og haft stjórn sína einungis í Kaupmannahöfn; en einmitt þetta varð fjelaginu að fjörlesti, því að þetta varð til þess, að Íslendingar sjálfir vildu ekki leggja rækt við það. Til þess að komast hjá þessu skeri, var öll stjórn fjelagsins löguð svo, að Íslendingar skyldu sjálfir ráða fjelagi sínu; þess vegna var ákveðið í lögunum, að engan skyldi mega kjósa til embætta í fjelaginu nema Íslending eða þann, sem væri jafnoki íslenskra manna að þekkingu málsins og landsins; því var það enn fremur boðið, að á fjelagsfundum skyldi allt munnlegt og skriflegt yfirleitt fram fara á íslensku. Loks hnje í sömu átt ákvæðið um það, að deildin í Reykjavík skyldi vera aðaldeildin

(sjá 9., 17., 20. og 33. grein laganna 1818). Landsuppfræðingarfjelaginu hafði orðið það að fjörtjóni, að það sneið sjer ekki stakk eftir þjóðlegri tilfinningu Íslendinga. Á því skeri máttu framkvæmdir fjelagsins ekki stranda. Því var það í lögin sett, að gefin skyldu út góð rit merkra manna, sem dánir voru, með því að ella mátti óttast, að rit þeirra mundu týnast, en ekki eingöngu ný rit. Þar með var og tilgangurinn sá að efla sem mest menntun og þekking Íslendinga, ekki einungis meðal alþýðu manna, heldur og glæða menntalífið og örva sjálfa hina menntuðu menn til kappsamlegrar viðleitni í þá átt. Þess vegna skyldi fjelagið gefa út árlega tímarit, svo að menn gætu af því fengið greinilegt yfirlit um merkisatburði, sem yrðu á ári hverju, og um helstu bækur, sem út kæmu á prenti. En sjerstaklega var það hlutverk fjelagsins að auka og efla þekking Íslendinga á öllu því, sem laut að sögu landsins og högum þess. Enn var það og ætlun fjelagsins að gefa út kennslubækur handa skólanum. En þó vildi fjelagið ekki leggja undir sig verkefni, sem önnur fjelög höfðu tekið sjer.

Hjer skal nú rakið nokkuð, hverjar breytingar urðu á tilhögun fjelagsins, að svo miklu leyti sem ekki hefir verið vikið að því áður.

Á öðrum fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 13. apríl 1816 var sú ályktun gerð, að lagafrumvarp það, sem Rask hafði samið og látið ganga út meðal fjelagsmanna og sumir þeirra höfðu gert athugasemdir við, skyldi ekki lögtekið fyrr en álit Reykjavíkurdeildarinnar væri komið þar um. Þetta lagafrumvarp var svo samþykkt óbreytt að kalla á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 15. ágúst sama ár. Þann 7. nóvember 1817 er kosin nefnd í Kaupmannahafnardeildinni (Bjarni Thorsteinson, Finnur Magnússon og Sveinbjörn Egilsson) til þess að yfirfara lögin enn; skyldu þau því næst verða borin upp á fundi og síðan prentuð. Á næstu fundum er svo rætt um lögin og þau samþykkt til fullnaðar á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 23. mars 1818 og þá ákveðið að prenta þau, og á fundi deildarinnar þann 28. apríl s. á. tilkynnir forseti, að þau sjeu komin út. Þá var ákveðið, að lögin skyldu seld öllum nema heiðursfjelögum. Þar á móti ákvað Reykjavíkurdeildin að úthluta lögunum ókeypis til allra þeirra, sem gyldu 4 ríkisdala tillag nafnverðs árlega, eða þar yfir, eða 40 ríkisdali nafnverðs í eitt skipti fyrir öll, eða þar yfir; öðrum skyldu lögin verða seld.

Við þessi fyrstu lög fjelagsins var nú lengi látið sitja. Þó eru ýmsar smábreytingar gerðar, sem hjer skulu taldar. Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 21. janúar 1822 var ákveðið, að 7 fjelagsmenn skyldu nægja til þess að gera fund ályktunarbæran, í stað 9 áður. — Á fundi sömu deildar þann 1. apríl 1823 er 32. grein laganna breytt þannig, að sá fjelagsmaður, sem vegna sjúkdóms eða efnaskorts eða af öðrum óumflýjanlegum ástæðum hefir eigi greitt árstillag sitt fyrir 30. nóvember, skuli samt talinn í fjelaginu næsta ár; en ef skuldin er þá eigi greidd, skal koma til úrskurðar fjelagsins, hvort hann skuli lengur liðinn um skuldina. — Á fundi sömu deildar 13. maí 1823 er gerð ályktun um það, að reikningsárið skuli talið byrja 1. mars og enda síðasta dag í febrúar. Þessu var þó aftur breytt á fundi sömu deildar 27. apríl 1841 þannig, að reikningarnir skyldu ná frá nýári til nýárs. — Á fundi sömu deildar 7. desember 1825 er samþykkt sú tillaga Páls Árnasonar (Arnesens), rektors, að fela stjórninni að endurskoða lögin í samkomulagi við höfund fjelagsins, Rask, og hafa lokið verkinu innan febrúarloka næsta ár. Á fundi sömu deildar þann 8. febrúar 1826 var lagt fram álit stjórnarinnar og Rasks og breytingartillögur þeirra samþykktar, enda eigi mikilvægar. Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 11. september 1826 eru lögin með breytingartillögum stjórnarinnar þar borin upp og samþykkt. Helsta breytingin þar var sú, að fjelagið byndi sig ekki við 500 eintök sem hámark í upplagi rita, ef stjórnendum fjelagsins þættu líkindi til þess, að tiltekið rit mundi seljast vel; þó skyldi bera undir fundi, hve mikið upplagið yrði þá haft. Síðan voru lögin samþykkt til fullnaðar í Kaupmannahafnardeildinni á fundi 5. janúar 1827. — Síðan voru smábreytingar gerðar um fundardaga. — Þar á móti varð ekki af þeirri breytingu, sem Reykjavíkurdeildin samþykkti á fundi þann 8. ágúst 1831, um 20. gr. laganna, sem deildin vildi breyta svo, að stjórnendur mætti velja meðal »orðulima«, þ. e. fella niður skilyrðið, að hver stjórnarmaður væri Íslendingur eða jafnoki Íslendinga að þekkingu á máli og landshögum; þó skyldi skrifari ætíð vera íslenskur. Þessi tillaga fekk þau afdrif í Kaupmannahafnardeildinni á fundi þann 29. september 1831, að hún var felld með 13 atkvæðum gegn 5, enda er auðskilið, hvert þessu skeyti Reykjavíkurdeildarinnar var stefnt; í því falst sem sje ákúra til Kaupmannahafnardeildarinnar

út af kosningum á forseta, þegar Rask fór frá þá í marsmánuði, og mun þetta rakið gerr í kaflanum um samvinnu og samband deildanna. — Lögin voru þó ekki prentuð fyrr en 1836 (í Viðey); voru hin fyrstu lög uppprentuð, en skeytt aftan við í viðbæti þeim breytingum og viðaukum, sem gerðar höfðu verið til þess tíma, og eru þær breytingar eigi aðrar en taldar hafa verið auk þeirrar merku viðaukatillögu, sem samþykkt var í Reykjavíkurdeildinni þann 5. september 1828 og hnje í þá átt, að í hvert skipti sem mikilvæg málefni eru fyrir hendi til ályktunar, skuli leita skriflegra atkvæða fjelagsmanna, sem eru of langt burtu til þess að sækja fund deildarinnar í Reykjavík.

Þessar smábreytingar gengu greiðlega fram. En öðru máli var að gegna um tvær meginbreytingar, sem ýmsir vildu gera á lögunum og lengi áttu örðugt uppdráttar. Ýmsum hinna áhugasamari manna þóttu lengi tvær greinir í lögum fjelagsins vera til fyrirstöðu framkvæmdum þess. Önnur sú, að því var bannað að gefa út nokkurt ritsafn, er framhaldið væri árlega, annað en frjettaritið; hin sú, að það var skyldað að leggja við fastan höfuðstól sinn hjer um bil einn fimmtung af árstekjunum. Hvort tveggja þetta var nauðsynlegt, á meðan fjelagið var að komast á fastan fót, sjerstaklega meðan hvorki voru goldin ritlaun nje fjelagsmenn fengu bækur fyrir tillög sín. En eftir því sem fjelagið komst betur til efna, eftir því varð mönnum það ljósara, að sú reglan mundi verða gagnsamari til framkvæmda að gefa frjálsar hendur í þessu hvoru tveggja, en banna einungis að skerða fastan höfuðstól fjelagsins. Samt var þessi breyting ærið lengi að komast í kring, því að tillögur um það komu fyrst fram í Kaupmannahafnardeildinni 1838. Á fundi þeirrar deildar 22. desember 1842 var loks kosin þriggja manna nefnd samkvæmt tillögu forsetans, Finns Magnússonar, »til að safna og raða niður lagagreinum fjelagsins og stinga upp á breytingum, ef þurfa þætti«. Í þessari nefnd sátu Jónas Hallgrímsson, Jón Sigurðsson og Brynjólfur Pjetursson. Nefndin var á einu máli um það að breyta lögunum í þessum atriðum, en deildirnar komu sjer ekki að öllu leyti saman um lagafrumvarpið fyrr en nokkurum árum síðar. Það var samþykkt til fullnaðar á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 25. febrúar 1850. Þegar það kom til Kaupmannahafnardeildarinnar aftur þá um vorið, varð það ekki tekið til

umræðu, með því að forsetinn, sem þá var Brynjólfur Pjetursson, var orðinn veikur af sjúkdómi þeim, sem dró hann til dauða (27. október 1851), og var það fyrst á ársfundi árið eftir (31. maí 1851), að ályktað var, að frumvarpið skyldi ganga um meðal fjelagsmanna, áður en rætt yrði á fundi. En á fundi deildarinnar þann 20. september 1851 var lagafrumvarpið samþykkt til fullnaðar og prentað síðar um haustið.

Eftir þetta leið langur tími svo, að lögunum var í engu breytt, heldur voru þau gefin út jafnóðum, eftir því sem upplagið þraut. Árið 1889 var útgáfa Skírnis flutt til Reykjavíkur og þá gerðar þær breytingar á 8. grein laganna, sem nauðsynlegar voru þessa vegna, eftir því sem samþykkt var á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 2. febrúar 1889 og á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 30. apríl s. á. Voru lögin svo með þeim breytingum prentuð árið eftir (1890).

Síðan er ekki um neinar breytingar að ræða fyrr en 1911, er sú stórfellda breyting komst í kring, að deildirnar sameinuðust í eitt óskift fjelag, og verður frá því máli öllu skýrt í sjerstökum kafla, eftir að lýst hefir verið samvinnu og sambandi deildanna.

---

# VI. Samband og samvinna deildanna.

Um sambandið milli deildanna er ákveðið í þriðja kapítula fyrstu laganna (1818). Reykjavíkurdeildin skyldi vera aðaldeildin, þó svo, að báðar deildirnar væru »jafnsjálfráðar í öllu því, sem ekki hindrar, heldur framar beggja aðaltilgang«. Hvor deildin kjósi embættismenn sjer, dæmi um þau rit, er henni sendast, hafi reikning fyrir sig og láti prenta rit sín þar sem henni þykir best henta. Það var enn í anda þeirra grundvallarreglna, sem vöktu fyrir stofnendum fjelagsins, að svo var ákveðið, að heldur skyldi prenta og binda bækur fjelagsins á Íslandi en í Kaupmannahöfn, ef það gæti orðið fjelaginu að skaðlausu; en lítt varð þessu ákvæði við komið framan af. Síðar (1851) var það ákvæði sett inn í lögin, að hvorug deildin skyldi ein sjer hafa vald til þess að úrskurða um þau fyrirtæki, sem varða 500 ríkisdala kostnaði eða meira, nema leitað sje samþykkis hinnar deildarinnar.

Framan af gekk samvinna milli deildanna í mestu spekt og friði, og verður ekki annað sjeð en að samkomulag hafi verið ágætt fram til 1831. En þá hljóp snurða nokkur á þráðinn, og voru tildrögin þau, sem nú skal greina.

Árið 1831 spannst deila á milli þeirra Rasks og Baldvins Einarssonar, út af þýðingu C. C. Rafns á Jómsvíkinga sögu og Knytlinga sögu, og magnaðist hún svo, að flestir íslenskir menntamenn í Kaupmannahöfn urðu við hana riðnir og skiptust í 2 flokka, með og móti Rask. Mun þetta hafa leitt til þess, að Rask vildi ekki taka við kosningu í Kaupmannahafnardeildinni, þegar hann var endurkosinn forseti þann 13. mars 1831, og var þá Þorgeir Guðmundsson kosinn forseti, er kosið var í annað sinn.

Þetta leiddi til nokkurrar sundrungar milli deildanna, og af þessu var sprottin tillaga sú um 20. gr. laganna, er áður er á vikið og fram kom frá Reykjavíkurdeildinni 8. ágúst 1831. Með þeirri breytingartillögu ritaði stjórn Reykjavíkurdeildarinnar Kaupmannahafnardeildinni svo hljóðandi brjef þann 11. ágúst 1831:

»Með brjefi af 26ta apríl þ. á. hafið þjer tilkynnt oss þá umbreytingu, sem varð á stjórn yðar fjelagsdeildar þann 13da Martii í ár, og það með þeim orðum, sem gefa oss tilefni til nokkuð hjer um að skrifa.

Vjer merkjum af brjefi yðar, eins og sjá má líka af Skírni, oss til ekki lítils fagnaðar, að þjer nauðugir vilduð missa frá forsetaembættinu höfund vors fjelags og Íslands gamla vin, prófessor Rask, en þegar ekki var kostur til að fá hann til að vera við þetta embætti, af hverjum sem helst orsökum, furðar oss stórlega, að valið skyldi þá ei lenda á landsmanni vorum, prófessor og geheime-archivarius F[inni] Magnusen, um hvers álit nú meðal lærðra manna í Evrópu ekki fer tvennum sögum, og sem áður með sóma og ráðvendni hafði í fleiri ár veitt forstöðu yðri fjelagsdeild. Hefði hann ekki þegið valið, svo hefðum vjer ekkert tekið til þess, þó sá hefði orðið vors fjelags formaður, sem þjer völduð, hvar til vjer víst vitum, að hann er fær og höfum ei nema gott til hans að segja.

En oss sýnist það nauðsyn, að forseti vorrar fjelagsdeildar í Kaupmannahöfn sje svo göfugur og víðfrægur sem verður, að því verulega ógleymdu, því það eykur vors fjelags heiður bæði í Danmörku og utanríkis. — Af þessu hefir oss komið til hugar, — þar vjer þykjumst sjá, að þeir tímar gætu komið, að erfitt yrði að fá hentugan forseta vorrar fjelagsdeildar í Kaupmannahöfn, hvar oftast ei eru nema ungir landsmenn, af hverjum ei má vænta, að fengið hafi með dugnaði og lærdómi mikið nafn, — samhuga að stinga upp á þeirri umbreytingu laga vorra, að hinum 20. § með tilliti til hins 27. væri þannig umbreytt: »Forseta og gjaldkera má velja hvern þann, sem skilur íslensku, þótt hvorki skrifi hann nje tali rjett þetta mál, þegar fjelagið veit, að hann elskar landið og landsins mál og hefir það álit og þá ráðvendni, sem gefur honum nauðsynlega tiltrú, en skrifari má enginn vera nema innfæddur Íslendingur, hvers skylda það er, ef forsetinn ekki talar íslensku, að frambera allt það, sem forsetinn fyrir hann leggur á hverjum fjelagsfundi«. Hjer um væntum vjer nú yðar álits með hentugleikum, undir eins og vjer vonum og biðjum, að þjer takið ei þetta öðru vísi heldur en svo, að það sje af oss gert til að viðhalda og efla sem mest heiður og heillir vors fjelags.«

Þessu brjefi tók Kaupmannahafnardeildin illa, sem von var til, því að þessi afskiptasemi Reykjavíkurdeildarinnar var með öllu ósamkvæm lögunum. Tillaga Reykjavíkurdeildarinnar var felld, svo sem áður er sagt, og

stjórn Kaupmannahafnardeildarinnar mun hafa ritað Reykjavíkurdeildinni allharðort brjef; en því miður er ekki hægt að birta það hjer, með því að brjefabók Kaupmannahafnardeildarinnar þessi ár brann í brunanum 1847. En því brjefi er svarað svo af stjórn Reykjavíkurdeildarinnar þann 29. febrúar 1832:

»Yðar heiðraða brjef af 30ta september f. á. viðvíkjandi vorum uppáslætti um umbreytingu hins 20ta §s fjelagsins laga með tilliti til ens 27., undirskrifað af fjelagsdeildarinnar aukaforseta og sekretera, höfum vjer kunngert á aukafjelagsfundi, sem haldinn var í vorri fjelagsdeild þann 12. december f. á.

Hverjar hugsanir og tilfinningar þetta brjef vakti, er ekki vert á að minnast, en geta má þess, að fjelagsdeildin hjer gat ekki fundið sig seka í neinu því, er þyrfti að hamla yðar forseta frá að meðdeila eins þessa ályktun yðar fjelagsdeildar eftir atkvæðafjölda sem hverja aðra, því vor uppásláttur miðaði ekki og gat ekki miðað til hans forseta embættis, sem var res transacta og oss óviðkomandi, heldur til forseta og gjaldkera embættis yfir höfuð eftirleiðis. Vjer hefðum og látið oss lynda að vita útfall vors uppásláttar, þó ekki hefðu verið tilfærðar ástæðurnar fyrir því, að hann gat ei fengið framgang, einkum þar fleiri af þessum ástæðum geta ei verið svo sannfærandi fyrir oss sem þær sýnast vera fyrir yður. Oss virðist sem þjer hafið tekið vorn uppáslátt rjett eins og undirbúning til að útiloka íslenska frá þessum embættum, í stað þess að við að eins ætluðumst til, að þegar sjálfir fjelagslimir í Kaupmannahöfn þóttust ekki hafa góð forsetaráð, hefðu einmitt hjer fyrir fríari hendur til að kjósa sjer þá danskan, svenskan, þýskan eða hvern, sem þeir ætluðu þar til betur fallinn, heldur en þá Íslendinga, sem völ væri á. Svo raunar var það þá ekki annað, sem oss hugsaðist hjer að koma í veg fyrir, heldur en þetta, að Kaupmannahafnarfjelagsdeildin hefði aldrei tilefni til að skrifa fjelagsdeildinni hjer með þessum orðum: »þó að það mætti virðast, að fjelagsdeild vorri hefðu verið mislagðar hendur í stjórnarvali sínu, þá verður það nú að vera sem orðið er«, hver orð standa í yðar brjefi til vor af 26. apríl f. á. — En þegar yður hefir nú ekki geðjast að vorum uppáslætti, svo höldum vjer honum ekki framar fram.«

En ekki varð þessi misklíð lengri, og er ekki oftar að þessu máli vikið í bókum deildanna.

Nú þótt svo væri ákveðið með lögum, að Reykjavíkurdeildin skyldi vera aðaldeildin, það er til virðinga tæki, þá var allt öðru máli að gegna um framkvæmdirnar; þær voru lengi framan af nær eingöngu í höndum Kaupmannahafnardeildarinnar. Það var því eðlilegast, að þangað rynni mest af tillögunum, enda var svo gert; en fullnaðarákvæði eru ekki um

það sett fyrr en á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 25. ágúst 1842; þar eru Kaupmannahafnardeildinni ætluð öll fjelagatillög erlendis og hjer á landi annarstaðar en úr Sunnlendingafjórðungi; tillög þaðan skyldu renna til Reykjavíkurdeildarinnar, svo sem einnig verið hafði alla tíð áður. Reykjavíkurdeildin var þannig sett skör lægra en Kaupmannahafnardeildin og framan af lítið annað í framkvæmdinni en eins konar innheimtustofnun Kaupmannahafnardeildarinnar, er sendi henni árlega það, sem hún náði í af tillögum hjer á landi, að svo miklu sem ekki þurfti að greiða það hjer eða setja það á vöxtu. Reykjavíkurdeildin ljet sjer lengi lynda þetta fyrirkomulag. En eftir því sem Reykjavíkurbær stækkaði, eftir því sem hann nálgaðist það æ meir og meir að verða miðstöð menntalífsins á Íslandi, eftir því tóku menn að finna til þess sárara og sárara, að hið eina vísindafjelag landsins hafði aðalbækistöð sína í Kaupmannahöfn og að Reykjavíkurdeildin, sem að lögum skyldi vera aðaldeild fjelagsins, var í rauninni lítið annað en undirtylla Kaupmannahafnardeildarinnar. Af þessu var sprottin tillaga, sem samþykkt var á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 27. sept. 1866, að skora á Kaupmannahafnardeildina að senda hingað allt að helmingi af öllum árstekjum fjelagsins, og var Kaupmannahafnardeildinni skrifað um þetta 22. okt. s. á. En Kaupmannahafnardeildin sinnti ekki þessari málaleitan, og var málinu ekki heldur hreyft á næstu fundum Reykjavíkurdeildarinnar.

En á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 6. júlí 1872 voru samþykktar þrjár tillögur, allar frá síra Þórarni Böðvarssyni, og gengu þær mjög í berhögg við Kaupmannahafnardeildina. Ein var tillaga til breytingar á 8. gr. fjelagslaganna þess efnis að láta Reykjavíkurdeildina taka við útgáfu Skírnis og Frjetta frá Íslandi af Kaupmannahafnardeildinni. Önnur og þriðja voru áskoranir til stjórnar Reykjavíkurdeildarinnar að skrifa öllum umboðsmönnum hjer á landi og biðja þá að greiða tillög þau, er þeir tækju á móti, til Reykjavíkurdeildarinnar, og í annan stað að skora á stiftamtmann að hlutast til um, að sömu deild yrði sendur helmingur þess styrks, sem fjelagið fengi af almannasjóðum og eins af gjöfum, en þessa hafði Kaupmannahafnardeildin ein notið hingað til. Fyrsta tillagan, um lagabreytinguna, var samþykkt með 19 atkvæðum gegn 10, en hinar tillögurnar urðu

ekki fyrir neinum mótmælum, og voru því taldar samþykktar án atkvæðagreiðslu. Stjórn Reykjavíkurdeildarinnar skrifaði samkvæmt þessu öllum umboðsmönnum fjelagsins á Íslandi og bað þá greiða til Reykjavíkurdeildarinnar eftirleiðis eigi að eins tillög fjelagsmanna, heldur og andvirði seldra fjelagsbóka, sem ekki var tekið fram í fundarályktuninni (24. júlí 1872). En af málaleitunum stjórnarinnar við stiftamtmann greinir ekki, hver árangur hafi af orðið.

Þessar tiltektir Reykjavíkurdeildarinnar voru næsta óvenjulegar og ekki kurteislegar gagnvart Kaupmannahafnardeildinni, enda kvartar Jón Sigurðsson mjög undan þessari aðferð í ræðu sinni á ársfundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 24. maí 1873; taldi hann þessa tiltekju geta valdið mikilli óreglu á innheimtu fjelagsgjaldanna og bakað fjelaginu fjárskaða, en vildi þó ekki skrifa umboðsmönnunum þvert ofan í Reykjavíkurdeildina. Áskorun Reykjavíkurdeildarinnar bar og eigi meira árangur en svo, að einungis þrír umboðsmannanna urðu til þess að gjalda til hennar.

Árið 1875 (15. júlí) var í Reykjavíkurdeildinni kosin nefnd til þess meðal annars að íhuga lög fjelagsins og gera breytingar á þeim, ef þurfa þætti, en sú nefnd vildi ekki láta gera nokkurar breytingar á lögum fjelagsins »að svo komnu« (sjá um tillögur nefndarinnar bls. 64 hjer að framan).

En allar voru þessar tilraunir Reykjavíkurdeildarinnar sprottnar af vilja manna hjerlendis til þess að fá jafnari skipti á tekjunum milli deildanna, þótt eigi bæru þær neinn árangur, og má telja þær fyrirrennara heimflutningsbaráttunnar.[1])

Í reyndinni hjelst því sú skipan á fjárskiptum deildanna, sem gerð var 25. ágúst 1842, allt til 1889, en þá var samþykkt önnur skipting á árstekjunum, sem síðar mun sagt verða. Þessi skipan hjelst síðan óbreytt til þess er báðar deildirnar sameinuðust.

**„Heimflutnings"-baráttan fyrri.** Það er athyglis vert, að fyrsti maður, sem gefur í skyn, að þeir tímar kunni að koma, að heppilegast verði, að báðar deildirnar renni saman, er einmitt Jón Sigurðsson. Hann minnist á það í

1) Um þenna kafla, tekjuskiptingatilraunirnar, vísast til ritgerðar próf. *Björns M. Ólsens, Jón Sigurðsson og Bókmenntafjelagið* í *Skírni* 1911 (sjá bls. 252—256).

ræðu á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 24. maí 1873 á þann hátt, að svo virðist sem sú sameining hafi vakað fyrir honum sem framtíðardraumur. Þessi ræða hans er um ágreininginn milli deildanna út af brjefi Reykjavíkurdeildarinnar um umboðsmennina, og farast honnm þar svo orð: »Annað væri það, ef hún (þ. e. Reykjavíkurdeildin) treystist til að taka að sjer eða gæti náð til sín allri aðalstjórn fjelagsins, bæði prentun bóka, útsendingum reikninga og öðru, og annast þetta að fullu, þá mundi vor deild (þ. e. Kaupmannahafnardeildin) ekki í neinn handa máta mæla á móti þessu eða veita því mótstöðu, þegar það gæti staðist fjelaginu að skaðlausu. En þess mun varla kostur, eins og nú er ástatt«. (Sbr. síðast tilvitnaða ritgerð próf. Björns M. Ólsens, bls. 257.)

Að öðru leyti hefi jeg ekki getað fundið í skjölum fjelagsins, að því hafi nokkurn tíma verið hreyft í fjelaginu að leggja niður Hafnardeildina fyrr en á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 22. maí 1880. Þar segir segir svo: »Tryggvi Gunnarsson vildi, að fundurinn ræddi spursmálið um það, hvort ráðlegt væri, að deildin hjer yrði lögð niður. Fór hann svo nokkrum orðum um það mál. Síðan töluðu ýmsir aðrir um hið sama«. Meira stendur ekki í fundarbókinni um málið, og engin ályktun er gerð að þessu sinni.

Þar næst er málinu hreyft á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 9. mars 1883 og þar um þetta bókað í fundarbók: »Stakk Gestur Pálsson, cand. phil., upp á því, að kosin væri nefnd til að undirbúa flutning Hafnardeildarinnar bæði sjóðs og handrita hingað til Reykjavíkur, er ætti að hafa aflokið starfa sínum 14 dögum fyrir næsta fund«. Samþykkt að setja 3 manna nefnd til að íhuga lögin, sjerstaklega í þá átt að steypa saman deildunum og flytja aðsetur þeirra til Reykjavíkur, og að prenta uppástunguna til lagabreytingarinnar. Í nefndina voru kosnir Magnús Stephensen, Gestur Pálsson og Jón Ólafsson. Nefndin lagði það til, að deildirnar yrðu sameinaðar, og bar upp lagabreytingartillögur í þá átt á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 9. júlí 1883. Voru allar tillögur nefndarinnar samþykktar og síðan lögin sjálf með áorðnum breytingum með 90 atkvæðum gegn 12 að viðhöfðu nafnakalli. Þessar lagabreytingartillögur sendir síðan stjórn Reykjavíkurdeildarinnar til stjórnar Hafnardeildar í brjefi dags. 20.

júlí 1883 og skorar á hana að fara með þær eftir 53. grein fjelagslaganna, en hún mælir svo fyrir, að ef lagabreytingartillögur eru samþykktar í annarri hvorri deildinni, þá skuli leita samþykkis hinnar deildarinnar, og sje þá gilt, þegar tveir þriðjungar allra fjelagsmanna beggja deildanna samtals, þeirra sem atkvæði greiða, hafi samþykkt breytingartillögurnar á lögmætum fundum beggja deilda; annars sje þeim hrundið. Með þessu er hafin af hálfu Reykjavíkurdeildar barátta sú, sem nefna má *heimflutningsbaráttuna fyrri.*

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 24. nóvember 1883 minntist forseti á heimflutningsmálið og las upp brjef þau, er komið höfðu frá Reykjavíkurdeildinni; var málið þá rætt fram og aftur, en engin ályktun gerð. Á næsta fundi deildarinnar þann 28. febrúar 1884 er borin fram tillaga Reykjavíkurdeildarinnar um að afnema Kaupmannahafnardeildina og flytja alla stjórn fjelagsins til Reykjavíkur. Nefnd var þá kosin í málið, þeir Finnur Jónsson, Sigurður L. Jónasson, Ólafur Halldórsson, Páll Briem og Jón Þorkelsson. En ekkert lætur nefndin til sín heyra lengi og ekkert fyrr en á fundi 23. mars 1885; þá les forseti upp brjef frá nefndinni, þar sem farið er fram á, að nefndinni sje heimilað að taka mann í stað Jóns Þorkelssonar, sem sagst hafði úr nefndinni. Þessi heimild var veitt, og kaus nefndin í stað Jóns Hjálmar kaupmann Johnsen. Loks kom prentað álit frá nefndinni og er undirskrifað þann 1. mars 1886 af öllum nefndarmönnum, nema Páli Briem, sem var fjarverandi. Formaður var Ólafur Halldórsson, en framsögumaður Finnur Jónsson. Þeir leggja eindregið móti afnámi Kaupmannahafnardeildarinnar, og er varla unnt í stuttu máli að tilgreina ástæður þeirra, þar sem álitið er 20 bls. í stóru 8 blaða broti. Þeir bera það fram, að deildirnar sjeu alveg sjálfstæðar og óháðar hvor annarri; því hafi og eigi önnur deildin vald til þess upp á sitt eindæmi að leggja hina niður, heldur hafi hún »og *hún ein* vald og heimild til að fella sig, án þess að atkvæði hinnar deildarinnar komi þar til greina«. Auk þess er bent á það í nefndarálitinu, »að það yrði til hins mesta óhagnaðar í fjárhagslegu tilliti að afnema deildina« og að sama gildi um »samband Íslands við önnur lönd«, því að »Bókmenntafjelagsdeild vor [ɔ: Kaupmannahafnardeildin] hefir nú, að því er hið andlega líf snertir, verið millumliður

milli Íslands og annarra landa, og er það alveg ómetanlegt gagn, sem hún hefir unnið oss á þenna hátt«. Enn færa þeir það til, að Kaupmannahafnardeildin hafi í framkvæmdunum jafnan verið höfuðdeildin, vinnustöðvar sjeu þar nauðsynlegar og því eðlilegt, að þar sje stjórn og fundir með samþykktarvaldi; það sje og kostnaðarminna og ritsemjendum og öllum viðskiptamönnum hentugra en ein stjórn í Reykjavík, auk þess sem deildin í Kaupmannahöfn sje nauðsynlegur sambandsliður milli Íslands og annarra landa, eins og hún á hina hliðina styrkir fjelagið og álit þess í útlöndum og veitir því aftur þar með mikinn og góðan styrk útlendinga. Að lyktum ber nefndin fram svo hljóðandi tillögu til fundarályktunar:

»Fundurinn fær eigi betur sjeð en að tillögur þær til lagabreytinga, er Reykjavíkurdeildin samþykkti á fundi 9. júlí 1883, sjeu að forminu til rangar og geti ekki komið til atkvæða hjer á fundi sem tillögur til lagabreytinga samkvæmt 53. gr. í lögum hins íslenska Bókmenntafjelags. Að því er til efnisins í þessum tillögum kemur, og farið er fram á að fá samþykki fundarins til þess að umsteypa grundvelli fjelagsins, með því að afnema deild þess hjer, þá fær fundurinn ekki sjeð neinar ástæður til þessarar breytingar, en álítur þvert á móti, að hún myndi verða fjelaginu til hins mesta ógagns í alla staði. Af þessum ástæðum neitar fundurinn að taka málið í heild sinni frekara til meðferðar.«

Áliti þessu var síðan útbýtt meðal fjelagsmanna ásamt fundarboði, og var sá fundur haldinn 30. mars s. á. og fundarefni tillaga nefndarinnar. Urðu nú umræður miklar og þeir margir, er til máls tóku. Urðu þeir Tryggvi Gunnarsson, Þorsteinn Erlingsson og Hannes Hafstein einir til andmæla gegn niðurstöðu nefndarinnar. Færðu þeir það til, að fjelagið væri eitt með tveim vinnustöðvum, og væri hjer að eins undirstjórn, en málið löglega fram komið í aðaldeildinni. Svo lauk, að tillaga nefndarinnar, sem að framan greinir, var samþykkt með nafnakalli með 30 atkvæðum gegn 7, en 4 fundarmenn greiddu ekki atkvæði.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 1. júní 1886 voru birt þau úrslit, sem málið hafði fengið í Kaupmannahafnardeildinni. Þar var þá samþykkt tillaga frá Birni M. Ólsen um að skipa nefnd í málið; kosning hlutu í nefndina: Björn M. Ólsen, Hallgrímur Sveinsson, Magnús Stephensen, Björn

Jónsson og Þórhallur Bjarnarson. Þessi nefnd lauk skjótt störfum sínum og gaf út prentað álit, sem undirskrifað er þann 15. júní s. á. af öllum nefndarmönnum ágreiningslaust. Það er 18 bls. í líku broti sem hitt álitið. Eru þar færð þau rök fyrir afnámi Kaupmannahafnardeildarinnar, að þær ástæður, sem áður bönnuðu Reykjavíkurdeildinni framkvæmdir og gerðu Kaupmannahafnardeildina ómissandi, sjeu nú ekki lengur til; samgöngur sjeu nú orðnar greiðar milli Reykjavíkur og annarra hluta landsins, prentun bæði ódýrari og fljótunnari í Reykjavík en í Kaupmannahöfn; til Reykjavíkur hafi smám saman dregist saman allir helstu andlegu kraftar landsins, og sje þar því orðinn miðdepill alls menntalífs á Íslandi. Enn fremur að nauðsynlegt sje hverju fjelagi að hafa stjórnina sem óskiptasta og best samhenta. Þá segir nefndin það um kostnaðarhliðina, að fjelagið mundi græða að miklum mun á afnámi Kaupmannahafnardeildarinnar. Enn er því og mótmælt, að andlegu sambandi Íslands við önnur lönd sje hætta búin, ef Kaupmannahafnardeildin legðist niður, því að þau rit, sem innleitt hafi hinar nýju hreyfingar tímans, hafi verið alveg óháð Bókmenntafjelaginu. Loks er andmælt skilningi Kaupmannahafnardeildarinnar á 53. gr. fjelagslaganna. En þessar voru tillögur nefndarinnar:

»Aðalályktun:

Fundurinn felur forseta deildarinnar hjer að skora enn á ný á forseta deildarinnar í Kaupmannahöfn að boða sem fyrst fund í sinni deild og bera þar upp til atkvæða samkvæmt 53. grein í lögum hins íslenska Bókmenntafjelags tillögur þær til lagabreytinga, sem deild vor samþykkti á fundi 9. júlí 1883.

En til vara:

Ef forseti deildarinnar í Kaupmannahöfn ekki vill verða við þessum tilmælum, er þetta tillaga fundarins:

Báðar deildir hins íslenska Bókmenntafjelags koma sjer saman um að velja einn óvilhallan gerðarmann til þess að skera úr, *hvort* fara eigi með tillögur þær til lagabreytinga, sem Reykjavíkurdeildin samþykkti á fundi 9. júlí 1883, eftir 53. grein laga hins íslenska Bókmenntafjelags, *eða* Kaupmannahafnardeildin eigi sjálfstætt samþykktaratkvæði um þessar tillögur. Til þessarar gerðar velja deildirnar heiðursfjelaga Bókmenntafjelagsins,

geheime-etazráð A. F. Krieger, og eru báðar deildir skyldar að hlíta úrskurði hans.

Þessa tillögu má skoða sem samþykkta af vorri deild, ef Kaupmannahafnardeildin aðhyllist hana.«

Voru nú þessar tillögur hvorar tveggja bornar upp á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 8. júlí 1886 og samþykktar í einu hljóði.

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 12. janúar 1887 er skýrt frá þessum ályktunum Reykjavíkurdeildarinnar. Eftir miklar umræður bar forseti upp svo hljóðandi tillögur til fundarályktana:

»1. Fundurinn fellst á þá skoðun forseta, að eigi geti komið til greina að taka málið um afnám Kaupmannahafnardeildar hins íslenska Bókmenntafjelags upp af nýju, með því að bera undir fundinn tillögur þær til lagabreytinga, er Reykjavíkurdeildin samþykkti á fundi 9. júlí 1883. — Samþykkt í einu hljóði.

»2. Jafnframt þessu lýsir fundurinn yfir því, að hann verði enn sem fyrr að halda fram þeirri skoðun óbreyttri, að mál um afnám annarrar deildarinnar nái eigi fram að ganga, nema með samþykki deildarinnar sjálfrar. — Samþykkt með 20 atkvæðum gegn 2.

»3. Fundurinn getur ekki fallist á uppástungu deildarinnar í Reykjavík um, að einn gerðarmaður skeri úr, *hvort* fara eigi með tillögur þær til lagabreytinga, sem Reykjavíkurdeildin samþykkti á fundi 9. júlí 1883, eftir 53. grein laga hins íslenska Bókmenntafjelags, *eða* Kaupmannahafnardeildin eigi sjálfstætt samþykktaratkvæði um þessar tillögur, en lýsir því yfir, að, ef leggja skyldi málið í gerð, ættu gerðarmenn að vera þrír, og ætti þá jafnframt hinu að skera úr um rjettan skilning á 53. gr. fjelagslaganna, hvort eigi þurfi samþykki hvorrar deildar um sig til lagabreytinga samkvæmt þeirri grein. Ef Reykjavíkurdeildin kemur fram með uppástungu í þessa átt, mun deildin hjer taka til álita, hvort hún vilji ganga að henni. — Samþykkt með 21 atkvæði gegn 5.«

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 7. febrúar 1887 voru þessar ályktanir teknar til umræðu. Forseti lagði fram tillögu til fundarályktunar frá fjelagsstjórninni og meira hluta nefndarinnar í heimflutningsmálinu, og hljóðaði hún svo:

»1. Fundurinn samþykkir, að sú spurning sje lögð undir gerð 3 manna, hvað útheimtist samkvæmt lögum fjelagsins til þess, að uppástungur þær til breytingar á lögum þess, sem samþykktar voru á fundi í Reykjavíkurdeildinni 9. júlí 1883, verði að lögum, að áskildu samþykki Hafnardeildarinnar til slíkrar gerðar svo fljótt, að það geti kunnugt orðið vorri deild með næstu póstskipsferð (í marsmánuði 1887).

2. Gerðina framkvæma gerðarmenn á þann hátt, að gerðarmenn þeir, sem hvor deildin kýs ein fyrir sig, rita hvor sinn úrskurð, er oddamaður, sameiginlegur fyrir báðar deildir, tekur við og birtir, verði þeir samdóma, en greini þá á, kveður hann sjálfur upp fullnaðarúrskurð. Úrskurðinum skulu síðan báðar deildir skyldar að hlíta tafarlaust.

3. Í gerðardóm þenna kýs Reykjavíkurdeildin af sinni hálfu yfirdómara Kristján Jónsson og fyrir sitt leyti sem oddamann geheime-etazráð A. F. Krieger.

Uppástungan var eftir nokkrar umræður samþykkt með öllum þorra atkvæða fundarmanna, 3. liðurinn í einu hljóði.«

Þessar ályktanir komu nú til umræðu í Kaupmannahafnardeildinni 26. febrúar 1887. Urðu nú enn hinar kappsamlegustu umræður um málið. En þessar urðu lyktir á samkvæmt niðurlagi fundarbókarinnar, sem tilfærist hjer orðrjett:

»Forseti bar þá upp svo hljóðandi uppástungu:

»Í gerðardóm þenna kýs Kaupmannahafnardeildin af sinni hálfu Hannes Finsen, stiftamtmann í Rípum.« Samþykkt með öllum atkvæðum.

Þá bar hann upp Krieger sem oddamann, og var hann felldur með öllum atkvæðum.

Síðan bar hann upp svo hljóðandi uppástungu:

»Deildin samþykkir fyrir sitt leyti fyrir oddamann prófessor dr. juris Konrad Maurer í München.« Samþykkt í einu hljóði.«

Ekki dró þó þetta til sátta, því að þegar þetta kom fyrir Reykjavíkurdeildina á fundi 2. maí 1887, þá var eftir nokkurar umræður samþykkt með öllum atkvæðum gegn 1 svo hljóðandi tillaga frá stjórninni:

»Með því að maður sá, prófessor Konrad Maurer í München, sem Hafnardeildin hefir á fundi [í] febrúar þ. á. kosið fyrir oddamann í hinum

fyrirhugaða gerðardómi, er einmitt sá eini útlendingur, sem hefir þegar, og það fyrir löngu, látið upp álit sitt í þessu máli og meira að segja tjáð sig greinilega samdóma henni í aðalágreiningsatriðinu um skilninginn á 53. gr., getur fundurinn með engu móti aðhyllst þá kosningu að sínu leyti, en lýsir því jafnframt yfir, að þessi ágæti Íslandsvinur [hefði] að öðrum kosti verið manna best til þessa starfa kjörinn.«

Á næsta fundi sömu deildar þann 8. júlí s. á. var málið enn tekið fyrir, og er þar um þetta skráð í fundarbók: »Forseti bar fram uppástungu frá stjórninni um, að nefnd væri enn sett í málið og það yrði svo útkljáð á aukafundi, sem yrði haldinn svo fljótt sem nefndin yrði búin með álit sitt. Skyldi nefndin skipuð 5 alþingismönnum, svo sem þeim, er þá kæmu fram fyrir hönd fjelagsmanna á öllu landinu, og auk þess skyldi stjórn fjelagsins eiga sæti í nefndinni. Var uppástunga þessi samþykkt með meira hluta atkvæða. Kosnir voru þessir í nefndina með stjórninni: síra Benedikt Kristjánsson, Júlíus amtmaður Havsteen, síra Sigurður Stefánsson í Vigur, Jón Sigurðsson á Gautlöndum og Arnljótur Ólafsson með hlutkesti milli hans og Gríms Thomsens.«

Nefndin lauk störfum sínum í sama mánuði, og var síðan haldinn fundur þann 29. s. m. Þar um er þetta bókað í fundarbókinni:

»1. Lesið upp álit þingmannanefndarinnar um heimflutningsmálið, og lagði hún til, að deildin hjer bjóði deildinni í Kaupmannahöfn það sáttaboð: »Að Reykjavíkurdeildin fái til umráða allar fjelagstekjurnar hjer á landi, en Hafnardeildin fjelagstekjurnar erlendis«.

2. Hjer við hafði Jón alþingismaður Sigurðsson gert þá varatillögu: »Að ef Hafnardeildin aðhyllist eigi ofan greinda sáttakosti, sje tafarlaust leitað úrlausnar dómstólanna um rjettan skilning 53. gr. fjelagslaganna«.

3. Stjórn Reykjavíkurdeildarinnar hafði fallist á aðaltillögu nefndarinnar, með því móti að við hana væri bætt: »Fundurinn ályktar að áskildu samþykki Hafnardeildarinnar, að frá nýári 1888 skuli Reykjavíkurdeildin hafa til umráða allar tekjur frá fjelagsmönnum hjer á landi, en Hafnardeildin fjelagstekjurnar erlendis, að áskildu samþykki Hafnardeildarinnar fyrir 1. nóv. þ. á.«

4. Síra Hallgrímur [Sveinsson] stakk upp á, að sett væri framan við

tillögu nefndarinnar þessi viðaukauppástunga: »Jafnvel þó að deildin haldi enn fast við skoðun sína um nauðsyn heimflutningsins, vill fundurinn þó að sinni una við, að frá nýári (etc.)«.

Tillaga nr. 3 samþykkt með 19 atkvæðum gegn 11.

Tillaga nr. 4 samþykkt með 18 atkvæðum gegn 7.«

Þessar ályktanir voru teknar fyrir á fundi í Kaupmannahafnardeildinni 28. október 1887. Eftir nokkurar umræður var eftir uppástungu stjórnarinnar samþykkt svo látandi ályktun í einu hljóði:

»Fundurinn getur ekki skilyrðislaust fallist á þá tillögu Reykjavíkurdeildarinnar frá fundi 29. júlí þ. á., að öll fjelagsgjöld frá Íslandi skuli frá nýári næsta renna inn til hennar, þar eð Hafnardeildin með þessu móti færi varhluta af fjelagstekjunum, og henni yrði gert ómögulegt að leysa það af hendi, sem á henni hvílir, svo sem útgáfa Skýrslna og Skírnis og Diplomatariums, auk heldur að framkvæma meiri þarfir fjelagsins. Hins vegar verður fundurinn að láta í ljósi, að ef til kæmi að gera ákvæði um fjársambandið frekari en lögin segja, þá bæri tekjum öllum að skipta jafnlega, eftir ástæðum öllum og málavöxtum.«

Reykjavíkurdeildin sinnti þessu þannig á fundi 2. janúar 1888, að forseti bar upp svo hljóðandi tillögu frá stjórninni, og var hún samþykkt með öllum þorra atkvæða gegn 1:

»Fundurinn felur stjórn fjelagsdeildarinnar á hendur að leitast enn við að ná samkomulagi við Hafnardeildina í þá átt, er farið var fram á á fundi hjer 29. júlí f. á. og með hliðsjón af undirtektum Hafnardeildarinnar á fundi 28. okt. f. á., þannig að allar tekjur frá fjelagsmönnum hjer á landi renni hjeðan af til Reykjavíkurdeildarinnar.«

Stjórn Reykjavíkurdeildarinnar bauð nú Kaupmannahafnardeildinni að taka að sjer útgáfu á Skírni og Skýrslum og reikningum gegn því, að öll tillög fjelagsmanna hjer á landi rynnu til Reykjavíkurdeildarinnar. En þessu tilboði var hafnað með öllum atkvæðum á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 14. apríl 1888. Þó var gert þar það boð til sátta, að tillagatekjur af Íslandi skyldu renna til Reykjavíkurdeildarinnar, gegn því að hún gyldi til Kaupmannahafnardeildarinnar 500 kr. á ári og auk þess tæki að sjer að hálfu skuld Kaupmannahafnardeildarinnar, er þá nam á 6. þúsund

króna. Þessu boði sá stjórnarnefnd Reykjavíkurdeildarinnar sjer ekki fært að sinna á fundi, sem hún átti með sjer þann 5. maí 1888; þar á móti lagði hún svo hljóðandi tillögur fyrir fund deildarinnar þann 9. s. m.:

»1. Fundurinn felur stjórninni að leita enn samkomulags við Hafnardeildina um aðra skipting á tekjum fjelagsins en verið hefir, þannig að Reykjavíkurdeildin hafi eftirleiðis fjelagstekjurnar hjer á landi, en Hafnardeildin erlendis, þó svo að af hinum innlendu tekjum renni 500 kr. á ári til Hafnardeildarinnar fyrst um sinn í 5 ár, svo framarlega sem Reykjavíkurdeildin fær að minnsta kosti 1000 kr. árstillag úr landsjóði þann tíma, og að Reykjavíkurdeildin taki að sjer útgáfu Skírnis og Skýrslna og reikninga.

2. Náist eigi slíkt samkomulag svo fljótt sem tíminn leyfir, veitir fundurinn stjórninni heimild til að beita þá tafarlaust lögsókn til að ná rjetti vorrar deildar gegn Hafnardeildinni á hvern þann hátt, sem hentast þykir samkvæmt áður gerðum ályktunum vorrar deildar, sbr. fund 9. júlí 1883.«

Fyrri tillagan var samþykkt »með meira hlut atkvæða«, en síðari tillagan með 26 atkvæðum gegn 18 að viðhöfðu nafnakalli.

Við þessar ályktanir Reykjavíkurdeildarinnar slakaði Kaupmannahafnardeildin svo til, að á fundi þann 16. júní 1888 var þar samþykkt með 21 atkvæði gegn 2 svo hljóðandi tillaga:

»Fundurinn veitir fyrir sitt leyti samþykki til, að deildir hins íslenska Bókmenntafjelags skipti svo með sjer árstekjum fjelagsins, að deildin á Íslandi hafi til umráða allar fjelagstekjur þaðan, en beri jafnframt upp frá því allan kostnað af útgáfu ársritanna Skírnis og Skýrslna og reikninga og borgi Kaupmannahafnardeildinni 500 kr. á ári, sem auk þess skal hafa allar tekjur af fjelagssjóðnum og fjelagstekjur erlendis. Þessi skipti skulu fram fara eftir að reikningar eru gerðir og samþykktir á fundum fyrir árið 1889.«

Þegar þetta boð Kaupmannahafnardeildarinnar kom fyrir fund Reykjavíkurdeildarinnar 9. júlí 1888, þótti mönnum það óljóst orðað og óvíst eftir því, hvort Skýrslur og reikningar og Skírnir skyldu eftirleiðis útgefin af Reykjavíkurdeild. Var út af þessu samþykkt á fundinum svo hljóðandi tillaga:

»Í því trausti, að stjórnin framfylgi afdráttarlaust ályktun deildarinnar á fundi 9. maí þ. á. um lögsókn á hendur Hafnardeildinni, svo framarlega sem hún fær eigi við fyrsta tækifæri viðunandi skýringu og undirtektir frá stjórn þeirrar deildar, að því er snertir síðustu ályktun hennar á fundi 16. f. m. — tekur fundurinn fyrir næsta mál á dagskránni«.

Samkvæmt þessari fundarályktun krafðist forseti Reykjavíkurdeildarinnar í brjefi, dags. 26. júlí 1888, skýringar af hálfu Kaupmannahafnardeildarinnar um það, hvort ummælin í fundarályktuninni frá 16. júní 1888 væru ekki svo að skilja, að Reykjavíkurdeildin eigi að sjá að öllu leyti um útgáfu ársritanna Skírnis og Skýrslna og reikninga og hvort stjórnin sje eigi fús til þess að bera upp og styðja á fundi í sinni deild breytingar á lögunum í þá átt, að þessi rit sjeu gefin út af Reykjavíkurdeild.

Kaupmannahafnardeildin gaf viðunandi skýringar hjer að lútandi í brjefi, dags. 11. ágúst 1888. Síðan var áður greind fundarályktun Kaupmannahafnardeildarinnar 16. júní borin upp til atkvæða á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 2. febr. 1889 og samþykkt í einu hljóði ásamt þeim breytingum á lögunum, sem nauðsynlegar voru sakir heimflutnings Skírnis og Skýrslnanna, og samþykkti Kaupmannahafnardeildin fyrir sitt leyti þessar lagabreytingar í einu hljóði á fundi 30. apríl 1889.

Þannig lauk þá þessari hörðu deilu, sem staðið hafði í 6 ár. Kaupmannahafnardeildin bar hærra hlut í aðalmálinu. Henni hafði tekist að verja tilveru sína með því að neita að bera upp til atkvæða löglega til orðnar lagabreytingartillögur frá hinni deildinni. Þetta var efalaust lagabrot, þó að einstakir merkir lögfræðingar (Vilhjálmur Finsen og Konráð Maurer) teldu það rjettmætt. Til þess að brjóta þetta vígi Kaupmannahafnardeildarinnar hafði Reykjavíkurdeildin ekki annað vopn en lögsókn. En því vopni skirrðust menn í lengstu lög við að beita gagnvart systurdeildinni. Því varð það niðurstaðan í Reykjavíkurdeildinni, að menn skyldu fyrst um sinn láta heimflutningsmálið hvíla sig, en nota það hins vegar sem svipu á Kaupmannahafnardeildina til þess að knýja fram rjettlátari skipting á tekjum fjelagsins milli deildanna. Þetta hafði Reykjavíkurdeildin fram, þar sem hún við fullnaðarsamninginn fekk umráð yfir öllum fjelagstekjum hjer á landi. Að vísu varð hún að gjalda Kaupmannahafnardeild-

inni 500 kr. á ári til þess að jafna skiptin. En þó var þessi skipting mikill ávinningur fyrir deildina hjá því sem áður var, einkum þó eftir 1905, þegar hjerlendum fjelögum fer að fjölga til muna, og jafnframt komst við þetta eining og regla á innheimtu þessara fjelagstekna, sem hafði verið í mestu óreglu að undanförnu, meðan hvor deild um sig reyndi að toga til sín sem mest af tillögum hjerlendra fjelaga. 500 kr. skatturinn til Kaupmannahafnardeildarinnar varð ekki heldur eilífur, því að árið 1899 bauð Kaupmannahafnardeildin af sjálfsdáðum að láta það gjald falla niður gegn því, að Reykjavíkurdeildin tæki að sjer útgáfu Fornbrjefasafnsins, og afsalaði deildin sjer um leið í hendur Reykjavíkurdeildinni 500 kr. landssjóðsstyrk, sem hún hafði haft til útgáfunnar, og gekk Reykjavíkurdeildin að þessum kostum á fundi sínum 4. júlí 1899. Jafnframt jókst verksvið Reykjavíkurdeildarinnar við fullnaðarsamninginn, þar sem hún tók að sjer útgáfu ársritanna Skírnis og Skýrslna og reikninga (sbr. bls. 49).

**Heimflutningsbaráttan síðari.** Nú komst friður á um þetta mál, og er hvergi í bókum fjelagsins minnst á afnám Kaupmannahafnardeildarinnar fyrr en 1906. Þá hefst af nýju hörð barátta um þetta svo kallaða heimflutningsmál. En þá horfir málið svo við, að hreyfingin er vakin í sjálfri Kaupmannahafnardeildinni. Það var á fundi þeirrar deildar þann 21. apríl 1906, að Gísli Sveinsson, þá stud. jur., hreyfði málinu af nýju; »tók hann fyrstur til máls og taldi heimflutningi deildarinnar margt til gildis; mótbárur þær, er komið hefðu fram gegn honum, væru ljettvægar, og það mundi efla fjelagið í heild sinni,« eins og að orði er kveðið í fundarbókinni um þetta. Urðu nú miklar umræður um málið bæði með og móti. Þá verandi forseti fjelagsins (Þorvaldur prófessor Thoroddsen) »gat þess, að umræður gætu ekki farið fram um smámuni. Kvað hann sjer óskiljanlegt, að Hafnardeildin gæti orðið Íslandi til ósóma; aðrar þjóðir hefðu vísindafjelög í fjarlægum löndum — Þjóðverjar í Japan — og teldu sjer heiður að meira.« Að lyktum var samþykkt svo hljóðandi tillaga frá Mattíasi stud. mag. Þórðarsyni: »Fundurinn fellst á að kosin verði nefnd til að athuga og koma með tillögur um, hverjar breytingar muni heppilegt að gera á fyrirkomulagi og stefnu fjelagsins á komandi tíð. Nefndin skal hafa lokið störfum sínum fyrir næsta ársfund og leggja þá fram frumvörp sín.«

Samþykkt með 15 atkvæðum. Þá lagði Bogi Th. Melsteð til, að 5 manna nefnd yrði skipuð í málið, og væri forseti sjálfkjörinn. Kosnir voru: Finnur Jónsson, Mattías Þórðarson, Gísli Sveinsson og Bogi Th. Melsteð.

Á fundi sömu deildar þann 23. apríl 1907 les forseti upp nefndarálit frá nefndinni og brjef frá Gísla Sveinssyni til meðnefndarmanna sinna um það mál. Rjeð nefndin frá því að flytja deildina heim, en Gísli Sveinsson óskaði, að það yrði gert. Urðu nú umræður miklar um málið, en engar ályktanir gerðar að því sinni.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 8. júlí 1907 vakti Gísli Sveinsson máls á heimflutningnum, og urðu þá umræður nokkurar um málið, en engi ályktun var þá gerð.

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar 11. apríl 1908 hreyfir Gísli Sveinsson málinu af nýju utan dagskrár. Stendur þar um svo í fundarbók: »Talaði hann um heimflutningsmálið og fór yfir sögu þess máls á síðari árum. Taldi það skömm, að fjelagið þægi styrk úr ríkissjóði Dana. Minnti á, að þegar málið kom síðast fyrir í deildinni, var sett nefnd í það, en meiri hluti í henni andstæðingar málsins, og það því látið lognast út af. Nú hafi hann í tæka tíð sent forseta tillögu til lagabreytingar, sem gengi út á það að flytja deildina heim, en forseti hefði neitað að taka þetta mál á dagskrá og rökstyddi þá aðferð sína með því, að þetta væri ekki lagabreyting, en gengi lengra. Forseti hafi hjer beitt sig gerræði. En málið skuli ekki detta niður fyrir það. Hann vildi ekki gera þetta mál að stjórnarsteypumáli og vildi helst óska, að prófessor Thoroddsen væri forseti fjelagsins heima á Íslandi.« Þessu svaraði forseti á þessa leið samkvæmt fundarbókinni: »kvaðst ekki hafa gert neitt lagabrot. Vilhjálmur Finsen og Konrad Maurer hefðu talið, að ekki mætti nota 53. gr. laganna í þessu tilfelli. Menn hafa enn ekki komist að neinni fastri niðurstöðu, en menn töldu 1886, að best væri að láta dómstólana skera úr því, hvernig lögin ætti að skilja. Þó varð samkomulag og því ekkert úr málaferlum. Forseti Reykjavíkurdeildarinnar lýsti líka yfir því í fyrra, að hann skoðaði deildirnar sem tvö fjelög. Almenn skoðun lögfræðinga, að ýmis meginatriði væru undanþegin úrskurðarvaldi funda, t. d. tilvera fjelaganna. Að fáeinir fjelagsmenn hjer gætu ráðið slíku, væri ranglátt gegn fjelögum okkar í

Ameríku og annarstaðar. Reykjavíkurdeildin hefir enga löngun látið í ljósi um afnám deildarinnar. Þá las forseti upp nefndarálit í lagamálinu frá í fyrra og brjef Jóns Sigurðssonar um heimflutningsmálið 1866. Frá Gísla Sveinssyni eða öðrum styðjendum heimflutningsmálsins hafa engin rök komið. Jón Sigurðsson hjelt því fram, að engin pólitík mætti komast inn í Bókmenntafjelagið. Menn ættu hjer að reyna að efla deildina eftir megni og gera hana góðan millilið milli Íslands og útlanda. Það væri frægð fyrir okkur að eiga vísindafjelag hjer, og þó þessi deild væri lögð niður, mundi annað íslenskt vísindafjelag sjálfsagt rísa upp. Að leggja deildina niður nú af tómri þjóðernislýrik væri mesta óhæfa.«

Síðan urðu nokkurar umræður um málið, en engi ályktun var gerð, enda var málið tekið fyrir utan dagskrár.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar 8. júlí 1908 las forseti upp brjef frá 5 fjelagsmönnum í Kaupmannahöfn um heimflutningsmálið og skýrði nánara frá því máli og las upp þá tillögu frá stjórnarnefndinni: »Að kosin sje nefnd, 4 fjelagsmenn með forseta sjálfkjörnum, til að endurskoða lög fjelagsins og sjerstaklega segja álit sitt um og gera tillögur um, hvort nú sje ráðlegt að sameina báðar deildir fjelagsins í eina deild. Nefndin skal hafa lokið starfi sínu fyrir árslok.« Allmiklar umræður urðu um málið, en að lyktum var tillaga stjórnarnefndarinnar samþykkt með öllum samhljóða atkvæðum. Í nefndina voru kosnir, auk forseta, prófessor Þórhallur Bjarnarson, dr. phil. Jón Þorkelsson, dósent Jón Helgason og bóksali Jón Ólafsson með hlutkesti milli hans og Haralds Níelssonar, sem fengu jöfn atkvæði.

Á fundi Reykjavíkurdeildarinnar þann 8. júlí 1909 var borin upp svo látandi tillaga frá Hannesi Þorsteinssyni: »Fundurinn álítur, að nefnd sú, sem skipuð var í fyrra til að endurskoða lög fjelagsins og íhuga heimflutningsmálið, sje enn starfandi, og skorar á hana að lúka störfum sínum fyrir árslok«. Tillagan var samþykkt með öllum þorra atkvæða. Enn fremur var samþykkt með 13 atkvæðum gegn 12 viðaukatillaga frá Eggert Claessen um að bæta tveim mönnum í nefndina. Kosnir voru Halldór Jónsson og Halldór Daníelsson.

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 29. nóvember 1909 skýrir forseti frá ástæðum til þess, að aðalfundi hafi verið frestað. »Fyrst hefði

þurft að bíða eftir áliti heimadeildarinnar um heimflutningsmálið. Svo hefði farið, að engin ákvörðun hefði enn verið gerð þar í málinu fyrr en á júlífundinum. Stjórnin hefði sent í haust fyrirspurn til fjelaga viðvíkjandi heimflutningsmálinu. Meiri hluti deildarmanna hefði verið heimflutningi mótfallinn (32 með heimflutningi, 68 móti alls — í Ameríku hefðu verið 21 með, 22 móti, Danmörk 10 með, 25 móti, í öðrum löndum 1 með, 21 móti). Fjelagið »Árgalinn« í Ameríku hafði sent skriflega fundarályktun gegn heimflutningi, sem forseti las upp.« Á þessum sama fundi hreyfir Gísli Sveinsson enn heimflutningsmálinu utan dagskrár og vildi fá nefnd kosna til þess að íhuga það, en forseti neitaði að láta kjósa slíka nefnd þá, enda stæði málið ekki á dagskrá.

Nefnd sú, er Reykjavíkurdeildin hafði kosið til að íhuga heimflutningsmálið, hjelt fund með sjer 7. jan. 1910, og var hún *„einhuga á því, að samþykkt heimflutnings Hafnardeildar væri skilyrði fyrir því, að tímabært væri að koma fram með lagabreytingar um fyrirkomulag fjelagsins“*, en kom sjer saman um að leggja til, að næsti fjelagsfundur samþykki svo hljóðandi tillögu: »Fundurinn lýsir yfir því, að hann haldi fast við þá skoðun, sem oft hefir áður komið fram í deildinni, að Bókmenntafjelagið eigi að vera eitt og óskipt og hafa aðsetur sitt í Reykjavík, og treystir því, að Hafnardeildin taki nú sjálf frumkvæði í því máli«. Eftir áskorun nefndarinnar lagði forseti síðan tillögu þessa fyrir fund deildarinnar 16. apríl 1910 og skýrði þar frá ástæðum þeim, sem vakað höfðu fyrir nefndinni. Tillagan var samþykkt með öllum þorra atkvæða (41 : 6) og síðan tilkynnt Hafnardeildinni.

Á fundi Kaupmannahafnardeildarinnar þann 20. ágúst 1910 »skýrði forseti frá brjefaviðskiptum við Reykjavíkurdeildina um heimflutningsmálið. Hann gat þess, að hann skrifaði forseta heimadeildarinnar á þessa leið:

»Eins og sjest af skýrslunni um aðalfund í Kaupmannahöfn 29. nóv. 1909 hefir stjórn Hafnardeildar þegar tekið frumkvæði í hinu svo kallaða heimflutningsmáli, og fjelagsmenn deildarinnar ljetu þá í ljósi með miklum atkvæðamun, að þeir væru mótfallnir heimflutningi. Oss þykir því að svo stöddu engin ástæða til að kveðja til nýrrar atkvæðagreiðslu í þessu máli, því svar deildarinnar var í fyrra svo glöggt, að ekki var um að villast«.«

Svona var þá málinu komið síð sumars 1910, og virtust nú allar líkur benda til, að hin síðari heimflutningsbarátta mundi lenda í sömu ógöngum sem hin fyrri og stranda á sama skerinu, mótþróa forseta Hafnardeildar gegn því að bera lagabreytingar þær, sem nauðsynlegar voru og til stóðu, undir fund þar í deildinni, og virtist þá ekki annar vegur opinn fyrir Reykjavíkurdeildina en að beita lögsókn gegn systurdeildinni.

Samt sem áður horfði málið nú nokkuð öðru vísi við en í fyrri baráttunni. Þá voru svo að segja allir Hafnardeildarmenn andstæðir heimflutningi og veittu stjórn sinnar deildar eindreginn stuðning á aðalfundum. En nú áttu andstæðingar heimflutnings í deildinni í vök að verjast gegn öflugum flokki innan deildar, sem sótti heimflutning af kappi, og var mjög lítill munur á atkvæðamagni flokkanna. Þetta sýndi sig við embættismannakosningar í deildinni á aðalfundunum 29. nóv. 1909 og 20. ág. 1910. Heimflutningsmenn gerðu þá atrennu til að steypa forseta úr stóli og velja forseta úr sínum flokki til að koma heimflutningsmálinu fram, og lá nærri, að þeim tækist það. Á fundinum 1909 voru atkvæði jöfn við forsetakosninguna, og notaði forseti sjer þá þann rjett, sem 41. grein fjelagslaganna heimilaði honum, til að úrskurða, að hann sjálfur væri rjett kosinn, en heimflutningsmenn ljetu bóka mótmæli sín móti kosningunni. Á fundinum 1910 varð mikill ágreiningur um forsetakosninguna, sjerstaklega út af því, hvort menn, sem voru í skuld við fjelagið, hefðu atkvæðisrjett, og þóttust heimflutningsmenn ólögum beittir, er slíkir menn fengu ekki að greiða atkvæði. Lauk svo, að 11 heimflutningsmenn gengu af fundi. Var síðan forseti endurkosinn með 12 atkvæðum, en þeir ellefu, sem af fundi gengu, sendu kæru yfir aðförum forseta bæði á þessum fundi og fyrra árs fundi til forseta Reykjavíkurdeildar. Á þessum atkvæðagreiðslum sjest, að mjög lítill munur var á atkvæðamagni flokkanna, og liggur þá í augum uppi, að stjórn Hafnardeildarinnar stóð nú miklu ver að vígi en áður í baráttu sinni gegn heimflutningi, ef það mál var sótt af kappi af heimadeildinni, því að þar mátti heita að allir, sem atkvæði greiddu á aðalfundum, væru heimflutningi fylgjandi.

Nú verða allt í einu snögg umskipti, sem engan hafði órað fyrir. Haustið 1910 fer forseti Reykjavíkurdeildarinnar, prófessor Björn M. Ólsen,

utan, og tekst honum í þeirri ferð sinni að koma á heilum sáttum milli hinna andstæðu flokka í Hafnardeildinni, svo að þeir taka höndum saman um frumvarp til nýrra fjelagslaga, sem fela í sjer sameining beggja deilda í eitt óskipt fjelag með heimili í Reykjavík. Mun forseti, sem er því máli kunnugastur, segja sögu þess í næsta þætti.

---

Þad er sannleiki, sem einginn mun umefast, ad Íslenzkir eigi ecki stórdi mark eda höndlun, heldur skáldum og sagnameistrurum ad þacka þá frægd, sem þeir hafa ödlast hiá ödrum þiódum í Nordurhálfunni, og ad miklu leiti þá upplýsingu, sem enn í dag vidgeingst ámilli alþýdu manna hér á landi, ásamt þeirri æru, ad hafa einir vardveitt næsti því óumbreytta og óspillta þá gömlu ágiætu adaltúngu á Nordurlöndum. Ad sönnu hefr þiódanna ástand umbreyst sér so mikid og kúnstir og vísindi hiá mörgum þeirra auxist svo furdanliga, sídan fornmanna skáldskapr, og yfirhöfud ad tala, bóka skrift á Íslandi blómgvadist, en Íslenzkir þessámilli vegna ýmissra óhappa ordid svo lángt eptir, ad valla er til vonar ad nýjar bækur á þessu máli nái eins miklu áliti hiá útlenzkum og þær gömlu; en þess þarfari kannské þær verdi þiódinni siálfri, eigi hún ad verda hlutskarandi í þeirri mentun og þeckíngu, sem nú er upprunnin og kappsamliga idkud í ödrum löndum, þar eckert annad medal er möguligt til ad fræda almenníng hér í landi; því vildu menn innleida annad mál, eda láta sér nægia annara þióda rit, þá mundu lída nockur hundrud og kannské þúsundir ár, fyrr en þaug yrdu almenníngi hér skilianlig, en þessámilli kynni kannské nýtt túngumál ad vera upprunnid útanlanz, og Íslenzkir mundu þá eins illa staddir og fyrr. Þessvegna, þó módurmálid sé mikils metid hiá öllum sidudum þiódum, svo er þó ad mínu áliti einna mest á Íslandi þess vidhald og bókaskrift þarf einhver sá helzti stofn undir sóma, mentun og farsæld þiódarinnar.

Allir födurlanzvinir munu líka iáta med sorg, ad mart og mikid vanti enn ad skrásettu á Íslenzku, því t. d. eckert er kverid þeim til leidarvísirs, er girnast ad læra dönsku edur eingelsku, svo eg tali ecki um önnur mál eingin ordabókin frá dönsku eda nockru ödru máli til íslenzku, eingin samanhángandi Íslendínga saga, enn sídur veraldarsaga, eckert brúkanligt um landaskipun, þau snotru vísindi, náttúrufrædi eda heimspeki, fáar eda aungvar skólabækur[x] og eingin fáanlig og gód útgáfa af lögbókinni. En óprentadr liggr fiöldi af beztu skáldaverkum og ödrum bókum, svo sem: kvædi Sra. Steffáns á Vallanesi, Eggerts Ólafssonar, kvædi og fornyrdi Páls Vídalíns, Páradísarmissir Sra Jóns Þorlákssonar, og annad, sem mundi giöra því íslenzka nafni ódaudliga æru, og ecki allítid efla lestrarlyst, smeck og mentun ef þad yrdi útgéfid, en annars smámsaman dreifist, skémmist og týnist. En margföld reynsla hefr sýnt og sannad, ad þad er ómögúlegt ad útgéfa tölúverdar bækur hér eins og í fiölmennum löndum, einúngis í voninni ad þær verdi vel og strax útgeingiligar. Til þess þarfyrir, ef verda mætti, ad nockru leiti ad vinna bót á þessu, hefr mér til hugar komid hérmed ad innbióda lærdum mönnum og ödrum lærdómselskendum á Íslandi til ad hefia nýtt sérlegt félag eptir þessu undirlagi.

1) Félagid á ad leida í liós meistaraverk, sem allareidu ritud eru á íslenzku, einkum þau hvörra höfundir eru daudir, og sem hættast væri vid ad týnast

[x]) Þessi brestr mun skadsamligri en margr hyggr. Af þeim dönsku bókum mun ólikliga sá sidr kominn, ad nefna alla þá hluti, sem skólalærdómi tilheyra svo og flest öll lönd og stadi med dönskum nöfnum, eda þó heldr med ordskrípum af bökudum úr dönsku, svosem: Slúttníng, fylgia, forrelesníngar, yfirsetia f: álykta, afleidíng, fyrirlestrar, útleggia edr þýda) og ótal fleiri; hvad ecki einasta skémmir og óprýdir málid hrædiliga, heldr líka giörir þad adverkum ad vísindamenn loksins fá allt annad mál heldr en almenníngr, hvörium öll mentun vidkomandi æfni smámsaman verda óskilianlig. En ef þad yrdi; þá færi betur ad málinu væri útrýmt med öllu.

67 rd til Þvottakonu 10 dx Martii 1816 [?]

en landinu væri hinn mesti sómi ad. Sarnast ad útvega þær naudsynligustu bækur ritadar eda útlagdar og prentadar einkum þær sem brúkast eda gæta brúkazt vid kennsluna í skólunum.

2) Þó í fyrstunni væri ástofnad ad láta þá grein af bókaskriftunum, sem horfir til ad efla gudrækni og upplýsíng í trúarbrögdunum vera þann fyrsta höfudpóst í augnamidi þessa félags; svo virdist þess nú sídur þörf, þar sá lærdi og velgáfadi kennimadr Sra Jón Jónsson á Mödrufelli hefir nýliga stiftad sérlegt félag fyrir nordan, sem hefir þetta ad eins fyrir augnamid, og sem hefir haft svo gódan framgáng. Annad nafnkunnugt félag er líka til útanlanz einasta til þess ad annast þad íslenzka fornfrædi (nefnil. Árna Magnússonar nefndin). Þar nú líka svo ótal margt annad er ytrid þarfligt landi og lýd, svo álít eg þad fyrir lukku ad þetta nýja félag geti tekizt þeim mun minna í fáng, og ætla ad sleppa tveimur áminnztum greinum, án þess þó ad fortaka, ad félagid útgæfi góda bók í gudfrædi eda falliga fornmanna sögu med tímanum.

3) Ad félagid eptir því sem hentugleikar leyfa og þörf krefr ad útgefa hvörja bók fyrir sig; ekki í neinu ritsafni, hvarvid bágara verdur ad eignast nockud heilt af því, ekki heldur eptir vissum tímum, nema kannské ofur-stutt fréttablöd handa Íslendíngum (ef þess verdur kostur), hvari félagid líka gjöri kunngjört hvör verk ad yrdi útgefin, og hvör efni þad óskadi útlistud.

4) Ad vanda mál, prent og pappír svo sem verdr, og láta verdid vera svo lítid sem mögulegt, en ekki eptirláta félagslimum neinar bækur ókeypis heldr verja öllu til ad útgefa fleiri og framkvæma tilgánginn hid ytrasta.

5) Ekki skulu félagslimir skuldbundnir ad rita neitt sjálfir framar en hvör finnr köllun til hjá sjálfum sér, heldur skulu félaginu vera eins vel-komnir allra manna skrif, sem horfa til ad uppfylla þess fyrir ofan (undir No. 1.) ákvardada augnamid; þó áskilr þad sér ad dæma um þad, sem innsendt verdur hvad þarfligt og verdugt er ad leggjast fyrir almenníng.

6) Þar ed þetta sýnist landinu svo þarfligt, og ekkert þesskáttar félag eda nein þvílík innrétting önnur nú er til, og þar ed födurlanzást Íslendinga er svo margreynd og alkunnug, svo hefi eg þá vissu von ad lærdóms elskendr og födurlanzvinir muni ekki heldur nú undandragast ad efla svo velmeinandi og nytsamligt fyrirtæki, þótt danskr madr beidi þess; óska eg þá ad hvör sá er þóknast ad stydja þess framkvæmd, vilji gjöra svo vel ad skrifa fyrir nedan ásamt nafni og bústad hvad mikid eda lítid í silfri, hann (hvör eptir sinni megun og vilja) skuldbindur sig ad gefa félaginu árliga.

7) Loksins bid eg ad senda þessa lista þess fyrr því kærara aptr til mín eda til Sra. Árna Helgasonar Dómkyrkjuprests í Reykiavík, svo eg sjái ádr en eg sigli ad sumri, hvört þad er nockur von til ad fyrirtækid lukkist; þá eg ætla líka ad sýna mér til Íslendinga útanlanz, og til danskra og annara, sem eg veit ad óska Íslandi heilla og sóma. Því mín fyriræltan er, ef verdr, ad hafa félagid bædi hér og ytra, nefnil. eina stjórnarnefnd hér í Vík og adra í Höfn. En svo einginn verdi plattadr efsumman af þeim árliga styrk yrdi of litla, til ad byrja svo vandasamt fyrirtæki á svo dýrum tídum, þá á einginn ad svara neinu fyrr en listarnir eru innkomnir og þareptir verdur gefin sérlig bending.

Audmjúkast og vinsamligast.

Reykiavík þ. 27. Febr. 1815.

R. Rask.

# VII. Deildaskiptingin numin úr lögum.

## Endurminningar forseta Björns M. Ólsens frá árunum 1910—1912.[1])

Horfur í „heimflutningsmálinu“ haustið 1910.

Áður en jeg hverf að efninu, skal jeg leyfa mjer að taka fram í fám orðum, hvernig heimflutningsmálið horfði við mjer, þegar jeg haustið 1910 fór til Kaupmannahafnar aðallega í því skyni að reyna að koma á sátt og samkomulagi í því máli.

Þegar jeg tók við forsetastörfum í Reykjavíkurdeildinni af háyfirdómara Kristjáni Jónssyni 9. júlí 1909, fylgdi þar með forsæti í nefnd þeirri, sem kosin hafði verið árið áður til að endurskoða lög fjelagsins og láta uppi álit sitt og tillögur um sameining deildanna í eitt fjelag. Sú nefnd hafði þá enn ekki starfað neitt, og var því á fundinum 9. júlí 1909 samþykkt áskorun til hennar um að lúka störfum sínum, og 2 mönnum bætt í nefndina. Hjer að framan er skýrt frá þeirri niðurstöðu, sem nefndin komst að í ársbyrjun 1910 og fór í þá átt, að heimflutningur Hafnardeildar og endurskoðun fjelagslaganna væri svo samtvinnað hvort öðru, að ótímabært væri að svo stöddu að koma fram með tillögur til lagabreytingar um fyrirkomulag fjelagsins, en rjett væri, að aðalfundur í deildinni lýsti yfir þeirri skoðun sinni með fundarályktun, að Bókmenntafjelagið ætti að vera eitt og óskipt og hafa aðsetur sitt í Reykjavík, og að fundurinn jafnframt skoraði á Hafnardeildina að taka sjálf frumkvæði í því máli.

Þessari niðurstöðu nefndarinnar var jeg algerlega samdóma.

---

1) Sagan um samninga mína við Hafnardeildina veturinn 1910—1911, sem hjer fer á eftir, er aðallega rituð eftir minni mínu, en styðst þó líka við endurminningar þeirra Sigfúss bókavarðar Blöndals og cand. phil. Jóns Sigurðssonar, sem þeir hafa góðfúslega látið mjer í tje eftir ósk minni, hinn fyrri í brjefum dags. 17. jan., 27. febr. og 8. mars þ. á., hinn síðari í brjefi dags. 20. mars þ. á. *B. M. Ó.*

Síðan hin fyrri heimflutningsbarátta hófst árið 1883, hafði jeg verið eindreginn heimflutningsmaður. Jeg hafði átt sæti í nefnd þeirri, sem skipuð var í heimflutningsmálinu á fundi Reykjavíkurdeildar 1. júní 1886 (sbr. 99. bls.), og samið hið fyrsta uppkast að nefndarálitinu. Og jeg hafði ekki breytt skoðun minni síðan, að það væri bæði fjelaginu sjálfu og menntalífi Íslendinga fyrir bestu, að fjelagið yrði ein óskipt heild og stjórn þess algerlega innlend.

En hins vegar hafði margra ára reynsla mín sem fjelagsmanns og forseta kennt mjer, að deildaskiptingin var ekki eini annmarkinn á stjórnarfyrirkomulagi og lögum Bókmenntafjelagsins, og jeg var jafnvel í miklum efa um, hvort það mundi reynast hollt fyrir fjelagið, að deildaskiptingin væri úr lögum numin, nema því að eins að þeirri breytingu yrði samferða gagngerð breyting á stjórnarfyrirkomulaginu.

Helsti gallinn á lögum fjelagsins, þeim er þá voru í gildi, var fundaeinveldið. Aðalfundir deildanna rjeðu öllu, sem þeir vildu, og stjórnirnar voru í raun rjettri ekki annað en undirtyllur aðalfundanna. Það gefur að skilja, hve óheppilegar afleiðingar þetta gat haft. Til þessara funda náði að eins lítill hluti fjelagsmanna, þeir sem búsettir voru í Reykjavík eða Kaupmannahöfn, en allur þorri fjelagsmanna var í reyndinni rjettlaus og atkvæðislaus um mál fjelagsins. Á þessum fundum var mjög hætt við, að persónulegar eða pólitiskar æsingar gæti komist að og haft áhrif á framkvæmdir fjelagsins, og sú varð stundum raunin á. Það kom fyrir, að menn, sem vildu láta Bókmenntafjelagið taka eitthvert rit til útgáfu, söfnuðu liði meðal kunningja sinna fyrir aðalfund og knúðu þar fram mál sitt með atkvæðafjölda, og varð þá stjórnin að gefa ritið út, hvort sem efni fjelagsins leyfðu það eða ekki. Og stundum urðu aðalfundir fjelagsins leikvöllur hinna pólitisku flokka, sem vildu hvor um sig ná tökum á Bókmenntafjelaginu með því að kjósa stjórn úr sínum flokki. Afl atkvæða á þessum aðalfundum var mjög oft komið undir tilviljun, og einna verst var þó, að fundirnir báru enga ábyrgð gerða sinna fyrir neinum. Það liggur í augum uppi, hve ótækt slíkt stjórnarfyrirkomulag var í fjelagi, sem hafði það markmið að efla og styðja vísindi og menntalíf í landinu. Í slíku fjelagi á stjórnin að ráða mestu, því að hún þekkir best hag fjelagsins;

henni er miklu fremur en aðalfundum treystandi til að hafa vit á að beina framkvæmdum fjelagsins í rjetta átt, og ef hún misbeitir valdi sínu, þá ber hún ábyrgð gerða sinna gagnvart fjelagsmönnum, sem geta steypt henni af stóli. Óheppilegt var það og í lögum Bókmenntafjelagsins, að stjórnin var að eins kosin til eins árs, því að með því móti gat auðveldlega farið svo við embættismannakosningar, að í stjórnina yrði kosnir eintómir nýir menn, ókunnugir hag fjelagsins og framkvæmdum þess. Í flestum slíkum fjelögum er kjörtíminn lengri og stjórnin ekki látin fara frá öll í einu, heldur endurnýjuð smátt og smátt — svo var t. d. fyrirkomulagið í Fornleifafjelaginu og hafði reynst vel. Með þessari kosningaraðferð er sjeð fyrir því, að allt af sjeu einhverjir kunnugir menn í stjórninni, og við það kemst meiri eining og festa á athafnir fjelagsins.

Þessir annmarkar á fjelagslögunum voru í mínum augum engu ljettari á metunum en sá galli, sem í deildaskiptingunni var fólginn. Ef jeg hefði átt um tvo kosti að velja, annaðhvort að afnema deildaskiptinguna og láta þá galla, sem jeg hefi bent á, haldast óbreytta áfram, eða að fá þá galla lagaða og halda deildaskiptingunni áfram óbreyttri, þá hefðu runnið á mig tvær grímur. Ef deildaskiptingin var úr lögum numin og ekki bætt úr öðrum göllum, þá var fyrirsjáanlegt, að aðalfundirnir í Reykjavík mundu verða einvaldir yfir öllu fjelaginu, og þá var enn þá hættara við því, að þeir mundu misbeita valdi sínu, en áður hafði verið, meðan aðalfundir beggja deilda hjeldu hvor öðrum í jafnvægi.

Jeg var því sannfærður um, að afnám deildaskiptingarinnar ætti að verða samferða gagngerðri breytingu á fyrirkomulagi fjelagsins, sem færi í þá átt að afnema fundaeinveldið en auka vald stjórnarinnar að sama skapi, gera hana óháðari aðalfundum og fastari í sessi gagnvart persónulegum eða pólitiskum æsingum, með því að veita öllum fjelagsmönnum jafnan rjett til stjórnarkosninga. En það var enginn hægðarleikur að fá þessum lagabreytingum framgengt, þar sem annars vegar Hafnardeildin, eða rjettara sagt meiri hluti hennar, barðist eins og ljón fyrir tilveru sinni, en hins vegar fyrirsjáanlegt, að aðalfundur í Reykjavíkurdeild mundi verða tregur til að samþykkja skerðing á valdi sínu. Eina vonin var, ef takast mætti að fá Hafnardeildina til að taka frumkvæði í málinu og bjóða

Reykjavíkurdeild að samþykkja fyrir sitt leyti frumvarp um afnám deildaskiptingarinnar gegn því, að í sama frumvarp væri teknar upp og samþykktar af báðum deildum lagabreytingar á stjórnarfyrirkomulagi fjelagsins í þá átt, sem áður er greint. Þá voru allar líkur til, að aðalfundur í Reykjavíkurdeild mundi fyrir sitt leyti ganga að þessum kostum til að fá fram »heimflutninginn«, sem var hið mesta áhugamál flestra deildarmanna. Fyrsta spor í þessa átt var áður greind tillaga nefndarinnar til fundarályktunar, sem meðal annars fór fram á, að Hafnardeildin tæki nú frumkvæði í málinu.

Þessi tillaga til fundarályktunar var lögð fyrir aðalfund Reykjavíkurdeildar 16. apríl 1910 og samþykkt þar með miklum atkvæðafjölda. Síðan var hún send forseta Hafnardeildar, en hann færðist undan að taka tillöguna til greina.

Þrátt fyrir þann mótþróa gegn heimflutningi, sem lýsti sjer í þessum undirtektum forseta, var jeg engan veginn vonlaus um, að mjer mundi takast að ná samkomulagi bæði við hann og aðra, sem andvígir voru heimflutningi í Hafnardeildinni, ef mjer gæfist kostur á að semja við þá munnlega. Jeg átti í þeirra flokki ýmsa góða vini, sem jeg vissi að mundu teygja sig langt til samkomulags við mig, fyrst og fremst sjálfan forseta deildarinnar, prófessor *Þorvald Thoroddsen,* og varaforseta, cand. mag. *Boga Th. Melsteð,* prófessor *Finn Jónsson,* cand. jur. (nú kammerjunker) *Jón Sveinbjörnsson* o. fl., og síðast en ekki síst *Sigfús* bókavörð *Blöndal,* skrifara deildarinnar, gamlan og góðan lærisvein minn og ástvin. Jeg vissi, að þessir menn allir ljetu sjer mjög annt um Bókmenntafjelagið og báru hag þess og sóma fyrir brjósti, og jeg var vongóður um, að þeir mundu ekki gera fastheldni sína við hina fornu deildaskiptingu að kappsmáli, ef mjer tækist að sannfæra þá um, að það væri á þeirra valdi að knýja fram mikilsverðar umbætur á stjórnarfyrirkomulagi fjelagsins með því að slaka til í heimflutningsmálinu, og jeg hafði ástæðu til að halda, að þeir væru mjer nokkurn veginn samdóma um, hvað helst þyrfti umbóta við í stjórnarfyrirkomulaginu. Mjer var kunnugt um, að heimflutningsandstæðingar í deildinni höfðu átt í vök að verjast gegn öflugum mótflokki, sem sótti heimflutning af kappi, og gat svo farið, að hann næði meiri hluta í

deildinni, en þá voru dagar Hafnardeildar taldir. Þetta hlaut og að gera heimflutningsandstæðinga fúsari til samkomulags. Það vissi og heldur til sátta, að hingað til hafði enginn deildarígur skapast af hinni síðari heimflutningsbaráttu, því að hún hafði að mestu haldið sjer innan vjebanda Hafnardeildar og heimadeildin lítið skipt sjer af henni, þangað til hún samþykkti áður greinda fundarályktun, sem var mjög hóflega orðuð.

Samningar. Jeg fór að heiman 29. sept. 1910 með póstskipinu »Botnia«, en nokkru áður (24. sept.) hafði jeg skotið á stjórnarfundi og fengið meðstjórnendur mína til að gefa mjer umboð til að semja um heimflutningsmálið við Hafnardeildina.

Skömmu eftir að jeg kom til Kaupmannahafnar fann jeg forseta Hafnardeildar, prófessor *Þorvald Thoroddsen,* og átti tal við hann um málið. Jeg kvartaði undan því, að hann hefði tekið svo illa í hina hóflegu fundarályktun, sem við höfðum sent honum, og skýrði fyrir honum, hvaða hugsun lægi á bak við hana, líkt og gert er hjer að framan. Stjórnarskipun fjelagsins þyrfti umfram allt umbóta við í þá átt að takmarka fundavaldið og auka vald stjórnarinnar og gefa henni meiri festu. Þessu fannst mjer hann vera algerlega samdóma. En þegar jeg bætti við, að Hafnardeildin ætti að hjálpa okkur til að koma á þessum umbótum með því að gera þær að skilyrði fyrir samþykki sínu til afnáms deildaskiftingarinnar, þá urðu undirtektirnar daufari, en þó ekki beint afsvar. Kvaðst hann mundu taka málið til íhugunar og bera það undir meðstjórnendur sína.

Jafnframt hafði jeg leitað hófanna við aðra vini mína, sem höfðu verið andvígir heimflutningi og áður eru taldir, og tjáð þeim mál mitt líkt og forseta deildarinnar, og alstaðar urðu fyrst í stað undirtektirnar líkar og hjá forseta. Menn þurftu tíma til að átta sig á málinu. Oftast átti jeg tal við *Sigfús* vin minn *Blöndal* um málið, því að við hittumst svo að segja á hverjum degi. Jeg fór að engu ótt og beið átekta, ferðaðist fyrst til Þýskalands og síðan til Noregs og lauk erindum mínum á þeim stöðum. Þegar jeg kom aftur úr Noregsferðinni um miðjan desembermánuð, átti jeg tal við Sigfús, og fann jeg þá, að hann var snúinn og hjet mjer fylgi sínu til að koma á samkomulagi. Mjer var þá ekki fullljóst, hvernig á þessu stóð, því að jeg vissi, að S. B. var í hjarta sínu mótfallinn heim-

flutningi, og hann var góður vinur, en enginn jábróðir minn. En í endurminningum sínum (sbr. 113. bls. nmgr.) í brjefi til mín, dags. 17. jan. þ. á., kemst hann svo að orði: »Jeg vil óska, að þú takir það skýrt fram, að jeg studdi því að eins heimflutninginn, að jeg sá, 1. *að* okkar mál hjer var komið í óefni, 2. *að* það var eini vegurinn fyrir okkur, sem hjer vorum búsettir, til að geta starfað í friði, að stofna nýtt fjelag, þar sem við sjálfir gætum lagalega ráðið öllu,[1]) 3. *að* með þessu var hægt að keyra Reykjavíkurdeildina til að samþykkja skynsamleg lög fyrir allt fjelagið, en á því var brýn nauðsyn«. Mjer er ánægja að taka þetta fram hjer, því að eflaust hefir eitthvað þessu líkt vakað fyrir fleiri skoðanabræðrum Sigfúsar, og sýnir þetta, hvernig á því stóð, að samkomulag komst á.

Loforð sitt um fylgi efndi S. B. drengilega. Upp frá þessu studdi hann mig með ráðum og dáð og var mín önnur hönd í samningunum og ágætur milligöngumaður milli mín og flokksbræðra sinna. Jeg veit ekki glöggt, hvað honum og þeim fór á milli, en jeg er sannfærður um, að jeg hefði skammt komist, ef jeg hefði ekki notið hans góðu aðstoðar, og áður en langt um leið, gat hann flutt mjer þau gleðitíðindi, að helstu menn í hans flokki væri snúnir til samkomulags á þeim grundvelli, sem jeg hafði stungið upp á, og að sjálfur forseti deildarinnar hefði lofað að láta málið hlutlaust; meira gat jeg varla búist við af forseta, því að hann hafði að nokkru leyti bundnar hendur sakir hinnar fyrri framkomu sinnar í málinu, en jeg hefi ástæðu til að halda, að hann hafi efnt meira en hann lofaði, því að Sigfús Blöndal segir í endurminningum sínum, að hann hafi verið »fúsastur til sátta og samkomulags, undir eins og hann sá, að af því gat leitt mikill hagur fyrir fjelagið í heild sinni og viðunanleg kjör fyrir okkur, sem hjer búum og viljum eitthvað gera í íslenskum fræðum«.

Nú þurfti sem fyrst að semja frumvarp til nýrra fjelagslaga á þeim samkomulagsgrundvelli, sem fenginn var, frumvarp, sem báðir flokkar í Hafnardeildinni gæti sameinast um. Okkur Sigfúsi Blöndal kom saman um, að málið mundi ganga greiðara og síður lenda í handaskolum, ef jeg tæki

---

1) Hjer er átt við »Hið íslenska Fræðafjelag í Kaupmannahöfn«, sem var stofnað um sama leyti sem Hafnardeildin var afnumin, eða litlu síðar.

að mjer að semja þetta frumvarp í samráði við meðstjórnendur mína í heimadeildinni. En þetta varð að fara leynt. Tilætlunin var, að frumvarpið yrði fyrst samþykkt í Hafnardeildinni og sent frá henni sem sáttaboð til Reykjavíkurdeildar. En ef það varð hljóðbært heima, að frumvarpið væri upphaflega komið frá mjer, þá var jeg hræddur um, að það kynni að valda flokkadráttum í heimadeildinni, og gat það orðið málinu að fótakefli þar. Þetta fór því fyrst um sinn ekki fleiri manna á milli en mín og Sigfúss Blöndals.

Hingað til hafði jeg eingöngu samið við heimflutningsandstæðinga. En nú var tími til kominn að reyna að fá heimflutningsmenn í deildinni til að taka höndum saman við sína fornu andstæðinga á þeim samkomulagsgrundvelli, sem lagður var, og lofa góðri samvinnu. Það mál var auðsótt. Helsti forsprakki heimflutningsmanna í deildinni var þá cand. phil. *Jón Sigurðsson* frá Kallaðarnesi, síðan Gísli Sveinsson fór heim. Jeg hafði þekkt Jón, síðan hann var barn að aldri, og staðið í brjefaskiptum við hann um heimflutningsmálið. Við mæltum okkur mót á tilteknum stað, og þar skýrði jeg honum frá, að jeg hefði nú náð samkomulagi við helstu menn í flokki heimflutningsandstæðinga um, að þeir fyrir sitt leyti lofuðu fylgi sínu til lagbreytingar, sem fæli í sjer sameining deildanna í eitt fjelag með heimili í Reykjavík, en þó með því skilyrði, að þeirri breytingu yrði samferða gagngerð breyting á stjórnarskipun fjelagsins, sem færi í þá átt að takmarka fundavaldið, en auka vald stjórnarinnar og gera hana sem óháðasta aðalfundum og fasta í sessi. Jón tók þessu mjög feginsamlega, og sjerstaklega þótti mjer það góðs viti, að hann tjáði sig samþykkan þeirri breytingu á stjórnarfyrirkomulaginu, sem ráðgerð var, og taldi hana miða til stórra bóta.[1]) Hann lofaði mjer fúslega fylgi sínu og fullyrti, að jeg þyrfti ekki að óttast neina mótspyrnu af hálfu heimflutningsmanna gegn

1) Í endurminningum sínum (sbr. 113. bls. nmgr.) kemst hann svo að orði um þetta atriði: »Af hálfu heimflutningsmanna í Höfn þurfti ekki að óttast mótspyrnu gegn lagabreytingu á þessum grundvelli. Það var síður en svo, að við þættumst með framan greindri breytingu á fjelagslögunum nokkurs í missa eða verða að gefa í milli, heldur mátti segja, að hjer væri slegnar tvær flugur í einu höggi, tveim nauðsynjamálum komið fram samtímis«.

þessum sættum. Jeg trúði honum þá fyrir því, sem jeg hafði orðið ásáttur um við Sigfús Blöndal, að jeg mundi svo fljótt sem unnt væri, eftir að jeg kæmi heim, senda Sigfúsi uppkast til nýrra laga, sem jeg vonaði að báðir flokkar gætu notað sem grundvöll undir væntanlega lagasmið, en bað hann fara leynt með þetta af þeim ástæðum, sem áður eru greindar.

Lagasmið. Jeg hafði upphaflega ætlað mjer að dvelja í Kaupmannahöfn vetrarlangt, en nú sá jeg, að ekki dugði annað en að smíða, meðan járnið var heitt, og rjeð því af að fara heim með fyrstu póstskipsferð eftir nýárið. Jeg fór frá Kaupmannahöfn með »Ceres« 10. janúar 1911 og kom heim 21. s. m. Tók jeg þá þegar til starfa að semja lagafrumvarpið og lauk við það á einni viku. Þá boðaði jeg stjórnarfund 29. janúar 1911. Á þeim fundi trúði jeg meðstjórnendum mínum fyrir því, að jeg hefði náð samkomulagi við Hafnardeild um heimflutningsmálið, en bað þá halda þessu stranglega leyndu fyrst um sinn, og því er ekkert bókað um þetta í fundargerðinni. Jeg óskaði þess, að stjórnin veldi úr sínum hóp 2 menn mjer til aðstoðar við samningana, og urðu þeir bankagjaldkeri Halldór Jónsson og dr. Björn Bjarnason fyrir kjöri. Fyrir þessa menn lagði jeg svo uppkastið til hinna nýju fjelagslaga, sem jeg hafði samið, ræddi það með þeim og lagaði fáein atriði eftir tillögum þeirra. Síðan sendi jeg uppkast þetta, þannig lagfært, til Sigfúss Blöndals með brjefi, dags. 31. janúar 1911. Í þessu brjefi, sem fylgdi uppkastinu, komst jeg meðal annars svo að orði:

»Eftir viðtali mínu bæði við þig og Þorvald (Thoroddsen) og aðra leiðandi menn í ykkar flokki þykist jeg sannfærður um, að þið sjeuð mjer *í aðalatriðum* samdóma um, að breyting sú, sem nauðsynleg er á fjelaginu, eigi að fara í þessa átt, sem frumvarp mitt stefnir í, og að frumvarpið í megindráttum þess geti orðið *undirstaða undir samkomulag milli beggja flokka hjá ykkur* og verið til *leiðbeiningar* við samning nýrra laga. Um smáatriði í frumvarpinu er mjer náttúrlega alveg sama. Við margra ára reynslu sem forseti hefi jeg komist að þeirri niðurstöðu, að einhvern veginn svona stjórnarfyrirkomulag muni vera hollast Bókmenntafjelaginu. Jeg er að vona, að flokkarnir hjá ykkur geti nú sameinast um þetta eða eitthvað þessu líkt og sent okkur það sem löglega samþykkta breytingartillögu við lögin og um leið sem »ultimatum« í heimflutningsmálinu, er báðir flokkar hafi komið sjer saman um og æski að verði lögtekin á fundi hjer *án breytinga*. Þá er jeg viss um, að sigurinn hjer er vís, en annars hætt

við eilífu rifrildi um smáatriði. En *um fram allt* verður að varast að láta það vitnast, að *jeg* hafi sent ykkur þetta uppkast, því að þá hleypur pólitík í málið hjer heima. Með það verður því að fara eins og manns morð. Jeg sagði Jóni Sigurðssyni, að jeg mundi senda slíkt frumvarp til *þín*, og hann lofaði að þegja yfir því. Jeg ætla að skrifa honum nú og biðja hann um að bera sig saman við þig. Skynsamast held jeg sje, að *þið tveir* í sameiningu komið ykkur fyrst saman um frumvarp á þessum grundvelli með þeim breytingum frá mínu, sem ykkur kemur saman um, afskrifið það síðan hvor í sínu lagi og berið það svo *sem samkomulagsfrumvarp milli ykkar* hvor undir sína flokksmenn. Svo ætti að fá Þorv. (Th.) til að kalla saman aukafund til að velja nefnd til að breyta lögunum, og ætti menn úr báðum flokkum að sitja í þeirri nefnd. Hún býr málið undir aðalfund hjá ykkur, sem helst ætti að halda svo snemma, að lagabreytingin yrði samþykkt og frumvarpið sent til okkar deildar fyrir hátíð þá, sem við höldum 17. júní á aldarafmæli Jóns Sigurðssonar. Mundum við þá á aukafundi þeim, er haldinn verður á aldarafmælinu, skipa nefnd til að búa málið undir aðalfund 8. júlí í sumar, svo að því verði ráðið til lykta á þeim fundi. Svona einhvern veginn hugsa jeg mjer ganginn í málinu, en auðvitað ert þú færari en jeg til að dæma um, hver aðferð er vænlegust til sigurs í Höfn. Þú veist, að mjer er þetta hið mesta áhugamál, og af því að jeg þykist viss um, að við sjeum samdóma í aðalatriðunum, er jeg þess fullviss, að þú munir leggja þig allan fram til að koma því til framkvæmdar bæði vegna málefnisins sjálfs og vináttu okkar.«

Að öðru leyti vísa jeg um efni uppkastsins til þess sjálfs, sem er prentað í þessu riti sem 1. viðauki, og Athugasemdanna, sem því fylgja.

Þegar uppkastið var komið til Sigfúss Blöndals, sýndi hann það þegar Jóni Sigurðssyni, eins og jeg hafði gert ráð fyrir, og kom þeim saman um að halda því leyndu, að það væri frá mjer runnið. »Við Sigfús litum yfir það,« segir Jón Sigurðsson í endurminningum sínum, »gerðum einhverjar smábreytingar, og hann (S. Bl.) skrifaði það upp,« og Sigfús Blöndal fer um þetta svo felldum orðum: »Við Jón (J. S.) yfirfórum í sameiningu lagauppkast það, sem þú hafðir sent mjer, og var látið heita svo sem það kæmi frá okkur tveimur, og vissu fáir hjer annað«.

Í brjefi því til S. Bl., sem fylgdi lagauppkastinu og prentað er í útdrætti hjer að framan, gerði jeg ráð fyrir því, að hið væntanlega frumvarp til nýrra laga gengi sinn lögskipaða gang gegnum Hafnardeildina, væri samþykkt þar á aðalfundi og síðan sent heimadeildinni sem sáttaboð. En flokkarnir í Hafnardeildinni fundu aðra leið, sem að ýmsu leyti var heppi-

legri og sjerstaklega aðgengilegri fyrir deildina. Þeir komu sjer saman um að kjósa laganefnd, en ekki á fjelagsfundi, heldur utan fjelags á flokksfundum, og skyldi hvor flokkur kjósa 3 menn í nefndina. Það lagafrumvarp, sem þessi nefnd yrði ásátt um, skyldi síðan senda heimadeildinni sem sáttaboð frá einstökum mönnum innan deildar og láta fylgja loforð um, að ef það yrði löglega samþykkt án verulegra breytinga í Reykjavíkurdeild, þá mundi Hafnardeildin fyrir sitt leyti samþykkja það löglega á aðalfundi. Með þessu móti var Hafnardeildinni áskilinn eftirleikurinn, og ef svo færi, að tilboðinu yrði hafnað, þá var deildin sem slík ekki bundin í neinu, þar sem tilboðið kom frá einstökum mönnum. Hins vegar hafði þessi leið þann kost fyrir Reykjavíkurdeildina, að hún gat með samþykki Hafnarnefndarinnar komið að lagfæringum við frumvarpið í þeim atriðum, sem ekki fóru í bága við meginstefnu þess.

Á flokksfundunum voru þessir menn kosnir í laganefnd Hafnardeildar af hálfu heimflutningsandstæðinga: *Bogi Th. Melsteð, Finnur Jónsson* og *Sigfús Blöndal,* en af hálfu heimflutningsmanna *Jón Sigurðsson, Sigurður Lýðsson* og *Sigurður Nordal.*

Svo tók nefndin til starfa. Lagauppkastið, sem áður var getið, var lagt til grundvallar. Gerði nefndin nokkrar, en þó ekki mjög stórvægilegar, breytingar við það, og engar, sem fóru í bága við stefnu þess. Jeg hafði hugsað mjer, að Hafnardeildin skyldi ekki afhenda eigur sínar til stjórnar fjelagsheildarinnar fyrr en nokkru eftir að sú stjórn væri kosin í fyrsta sinn eftir hinum nýju lögum, eða í síðasta lagi í sept. 1912, og svo stóð í bráðabirgða-ákvæðum uppkastsins. En nefndinni hugkvæmdist einfaldara ráð og vafningsminna. Hún tók upp í bráðabirgða-ákvæði síns frumvarps ákvæði þess efnis, að ársfundi Hafnardeildar 1911 skyldi frestað til hausts, og ef hin nýju lög yrðu samþykkt á honum, þá skyldi ekki kjósa nýja stjórn í deildinni, heldur skyldi fráfarandi stjórn skila eigum deildarinnar í hendur stjórnar Reykjavíkurdeildar og hún síðan skila eignum beggja deilda í hendur þeirri fjelagsstjórn, sem fyrst yrði kosin eftir hinum nýju lögum. Annars eru allar þær breytingar, sem Hafnardeildarnefndin gerði við uppkastið, sem frá mjer kom, prentaðar hjer að aftan sem neðanmálsgreinar við uppkastið, merktar *Hdn.* (1. viðauki).

Samvinnan í nefndinni var hin besta að vitni þeirra beggja Sigfúss Blöndals og Jóns Sigurðssonar. Hinum síðarnefnda farast þannig orð: »Samkomulagið var yfirleitt mjög ákjósanlegt og gott að vinna með þessum gömlu andstæðingum í málinu. Fornar ýfingar lágu með öllu niðri, og þó að skoðanamunur yrði um einstök atriði, þá tókst þó ýmist að finna meðalveg, eða þá að minni hluti beygði sig fyrir meiri hluta eftir atkvæðagreiðslu«.

Nefndin lauk störfum sínum 11. apríl 1911. Þá var frumvarpið til hinna nýju fjelagslaga fullsamið, og þann dag sendir nefndin það til forseta Reykjavíkurdeildar og lætur fylgja brjef, svo hljóðandi:

»Til þess að ráða til lykta deilum þeim, sem lengi hafa verið í Bókmenntafjelaginu um heimflutning Hafnardeildarinnar, hefir hvor flokkur hjer í deildinni um sig kosið 3 menn í nefnd til þess að gera tillögur um breytingu á fyrirkomulagi fjelagsins.

Vjer undirritaðir, sem kosnir höfum verið, höfum nú lokið starfinu og sendum því yður, háttvirti herra forseti, frumvarp til nýrra fjelagslaga með tilmælum um, að stjórn Reykjavíkurdeildarinnar taki að sjer flutning málsins og beri lögin upp til samþykktar á aðalfundi deildarinnar í sumar.

Með því að eigi er hægt, ýmsra orsaka vegna, að halda fund í deildinni hjer fyrr en á komandi hausti, höfum vjer orðið ásáttir um að bera málið fyrst undir Reykjavíkurdeildina, til þess að því yrði sem fyrst til lykta ráðið.

Vjer vonum, að frumvarpið mæli með sjer sjálft; líkt fyrirkomulag er margreynt í ýmsum útlendum vísindafjelögum og hefir gefist ágætlega. Allar breytingarnar eru til að tryggja festu á stjórn og gerðum fjelagsins og koma í veg fyrir, að pólitiskar eða persónulegar æsingar geti haft áhrif á það.

Vjer getum fyrir hönd beggja flokka lýst yfir því, að þessi lög munu verða samþykkt á næsta aðalfundi Hafnardeildarinnar. Það eru tilmæli vor, að yðar háttvirta deild sjái sjer fært að ganga að frumvarpi þessu óbreyttu að efni til, því að ella má búast við, að frumvarpið verði ekki samþykkt hjer.

Kaupmannahöfn, 11. apríl 1911.

Virðingarfyllst.

*Bogi Th. Melsteð. Finnur Jónsson. Jón Sigurðsson.*
*Sigfús Blöndal. Sigurður Lýðsson. Sigurður Nordal.*"

Brjef þetta og frumvarpið, sem því fylgdi, var enn ókomið til mín, þegar jeg hjelt stjórnarfund 17. apríl 1911 til undirbúnings hinum fyrra aðalfundi Reykjavíkurdeildar, en jeg hafði fengið fulla vissu fyrir því frá

Sigfúsi Blöndal, að það væri á döfinni, og þurfti okkar deild að skipa nefnd til að taka á móti því. Á stjórnarfundinum var það samþykkt eftir tillögu minni að leggja fyrir aðalfundinn tillögu um að vísa lagafrumvarpi því, sem koma kynni frá Hafnardeild, til nefndar þeirrar, sem skipuð hafði verið til að endurskoða lög fjelagsins á aðalfundum 8. júlí 1908 og 8. júlí 1909 (sbr. hjer að framan). Á aðalfundinum, sem var haldinn 22. apríl, skýrði jeg frá horfunum í heimflutningsmálinu og gat þess, að innan skamms væri væntanlegt frá Hafnardeild frumvarp til nýrra laga, sem mundi fela í sjer sameining deildanna í eitt fjelag með heimili í Reykjavík. Síðan bar jeg upp áður greinda tillögu stjórnarinnar, og var hún samþykkt í einu hljóði.

Skömmu eftir fundinn barst mjer lagafrumvarpið ásamt brjefinu frá laganefnd Hafnardeildar. Jeg ljet þegar prenta hvorttveggja til afnota við meðferð frumvarpsins í laganefnd okkar og á aðalfundi.

Í laganefnd Reykjavíkurdeildar áttu þessir menn sæti auk forseta: *Halldór Daníelsson, Halldór Jónsson, Jón Helgason, Jón Ólafsson, Jón Þorkelsson* og *Þórhallur Bjarnarson.* Samkvæmt gerðabók nefndarinnar, sem enn er til, hjelt hún alls 3 fundi, og var samkomulag hið besta. Á fyrsta fundi, 1. maí 1911, var frumvarp Hafnarnefndar lagt fram prentað og rætt lauslega. Á öðrum fundi, 16. maí, voru samþykktar nokkrar breytingartillögur (að áskildu samþykki Hafnarnefndar) og forseta falið að semja nefndarálitið. Á 3. fundi, 9. júní, skýrði forseti frá, að hann hefði borið þær af breytingartillögunum, sem ekki voru eingöngu orðabreytingar, undir Hafnarnefndina gegnum símann, og hefði hún hafnað einni þeirra, sem þá var látin falla niður, en samþykkt hinar. Á sama fundi las forseti upp uppkast sitt til nefndarálits, og var það samþykkt í einu hljóði og síðan undirskrifað af öllum nefndarmönnum.

Alls gerði Reykjavíkurdeildarnefndin 8 breytingartillögur við frumvarpið, allar smávægilegar, flestar ekki annað en orðabreytingar. Hverjar þær breytingar voru má sjá hjer að aftan í neðanmálsgreinum við uppkastið, sem frá mjer kom (sjá 1. viðauka); þær eru þar merktar *Rdn.* Yfir höfuð að tala gefur það uppkast með neðanmálsgreinum ljóst yfirlit yfir, hvernig þessi nýju lög Bókmenntafjelagsins urðu til.

Hin nýju lög samþykkt.

Á aukafundi þeim, sem haldinn var í Reykjavíkurdeildinni á aldarafmæli Jóns Sigurðssonar 17. júní 1911 lagði forseti fram lagafrumvarp Hafnarnefndar ásamt brjefi hennar, sem því fylgdi, svo og nefndarálit Reykjavíkurnefndarinnar, allt þetta prentað til leiðbeiningar fyrir fjelagsmenn, og lýsti yfir því, að þetta mál mundi koma til umræðu og atkvæðagreiðslu á næsta aðalfundi 8. júlí, en þangað til lægi nefnd lagabreytingarskjöl frammi hjá bókaverði, og mætti fjelagsmenn vitja þeirra þar.

Á aðalfundi Reykjavíkurdeildar 8. júlí 1911 kom málið til umræðu og atkvæðagreiðslu. Urðu fyrst nokkrar umræður um málið. Til máls tóku auk forseta Jón Ólafsson, Þorsteinn Erlingsson, Sigurður Lýðsson og Einar Hjörleifsson. Þorsteini Erlingssyni þóttu aðalfundir fá of lítið vald og stjórnin of mikið eftir frumvarpinu, og bar hann fram tillögu um að vísa frumvarpinu aftur til laganefndar deildarinnar, til þess að hún lagaði það, sem honum þótti ábóta vant. Þessi tillaga var felld með öllum atkvæðum gegn einu. Þá var gengið til atkvæða um breytingartillögur þær, sem laganefnd Reykjavíkurdeildar hafði gert við lagafrumvarp Hafnardeildar, og voru þær allar samþykktar með 98 samhljóða atkvæðum.

Um lagafrumvarpið í heild sinni með áorðnum breytingum voru atkvæði greidd með nafnakalli, og sögðu *100 já,* en *2 nei.*

Þetta frumvarp ljet forseti Reykjavíkurdeildar síðan prenta og sendi stjórn Hafnardeildar hæfilega mörg eintök til úthlutunar meðal fjelagsmanna þar, með þeirri ósk, að frumvarpið yrði lagt fyrir næsta aðalfund Hafnardeildar.

Samkvæmt þessu kom málið til umræðu og atkvæðagreiðslu á aðalfundi Hafnardeildar 31. október 1911. Í stað forseta, sem var fjarverandi, stýrði fundi varaforseti, mag. art. *Bogi Th. Melsteð.* »Umræður urðu litlar,« segir Jón Sigurðsson í endurminningum sínum, »því að úrslitin voru fyrirfram vís og öllum viðstöddum kunnugt um merg málsins. Af fornum heimastjórnarandstæðingum talaði Finnur Jónsson, en við Sigurður Nordal nokkur orð úr flokki heimflutningsmanna. Ekkert styggðarorð. Hver hrósaði öðrum fyrir samvinnuþýðleika.« Við atkvæðagreiðsluna var haft nafnakall, og var frumvarpið samþykkt með 14 samhljóða atkvæðum. Bráða-

birgðaákvarðanirnar voru samþykktar í einu hljóði. Var frumvarpið þannig orðið að lögum. Þá hjelt varaforseti ræðu og árnaði fjelaginu allra heilla á ókomnum tímum.

Eignir Hafnardeildar fluttar heim.

Eftir bráðabirgðaákvörðunum hinna nýju laga átti nú fráfarandi stjórn Hafnardeildar að skila eignum þeirrar deildar í hendur stjórn Reykjavíkurdeildarinnar eða umboðsmanni hennar, en hún átti aftur að afhenda eignir beggja deilda stjórn þeirri, er kosin yrði fyrir allt fjelagið árið 1912. Jeg hafði gert mjer vonir um, að aðalfundur Hafnardeildarinnar og samþykkt hinna nýju laga gæti orðið svo snemma, að afhendingin af hálfu Hafnardeildar gæti farið fram í mínar hendur, þegar jeg kæmi til Kaupmannahafnar á ferð minni heim frá aldarhátíð háskólans í Kristíaníu. En þegar aðalfundurinn dróst fram í október, varð jeg að fela það öðrum. Jeg bað því cand. jur. (nú kammerjunker) Jón Sveinbjörnsson, góðan vin minn, að taka við eignunum fyrir hönd Reykjavíkurdeildarinnar og annast um, að það af þeim, sem heim átti að fara, yrði sent heim. Þetta starf tók hann góðfúslega að sjer og leysti það af hendi með frábærum dugnaði og hagsýni. Afhendingin fór fram nokkru eftir aðalfundinn 31. október, en svo kom þyngri þrautin, að senda allt heim. Var það mikið verk, ekki síst að búa um og láta í kassa allan hinn mikla bókaforða Hafnardeildarinnar og sjá um útskipun á öllu. En allt fór það vel úr hendi, og um sumarmál var allt, sem heim átti að fara, komið með bestu skilum í hendur stjórn Reykjavíkurdeildar. Fyrir alla sína miklu fyrirhöfn vildi herra Jón Sveinbjörnsson ekki taka einn eyri af fjelaginu, og er það í stórri þakklætisskuld við hann.

Stjórn Reykjavíkurdeildar hafði auðvitað haft viðbúnað til að taka á móti eigum Hafnardeildar. Hafði hún fengið leyfi landsstjórnarinnar til að stækka nokkuð geymslurúm það, sem hún hafði á dómkirkjuloftinu, og látið laga töluvert fyrirkomulag þess með góðfúsri aðstoð Rögnvalds húsameistara Ólafssonar, sem hann ljet í tje ókeypis. Þegar bókaleifar Hafnardeildar komu heim, varð fyrst að leigja hús fyrir þær til bráðabirgða. En síðan voru þær fluttar upp á geymsluloft fjelagsins og látnar saman við þær bókaleifar, sem þar voru fyrir, og öllu raðað nákvæmlega upp í hillur. Fyrir þessu verki stóðu þeir Sigurður bókbindari Jónsson og

Þorvaldur afgreiðslumaður Guðmundsson og leystu það vel og trúlega af hendi.

Allur kostnaður, sem af heimflutningnum leiddi, beinlínis eða óbeinlínis, nam 2244 kr. 51 a.

Vorið 1912 var í fyrsta sinn kosin ein stjórn fyrir allt fjelagið í heild sinni eftir hinum nýju lögum, og fóru kosningar svo, að flestir þeir, sem þá voru í stjórn eða varastjórn Reykjavíkurdeildar, voru kosnir í hina nýju stjórn. Á fyrsta aðalfundi alls fjelagsins, 17. júní 1912, lauk Reykjavíkurdeildin tilveru sinni með því, að stjórn hennar skilaði af sjer störfum sínum og öllum eigum fjelagsins í hendur nýju stjórnarinnar.

Svo voru þá báðar deildir fjelagsins runnar saman í eina heild eftir 96 ára sambúð. *Quod felix faustumque sit.*

*B. M. Ó.*

---

# VIII. Niðurlagsorð.

Eins og sjá má bæði hjer að framan og í skránum aftan við, eru það allmiklar og margvíslegar framkvæmdir, sem Bókmenntafjelagið hefir innt af hendi um sína tíð. Það hefir gefið út rit í ýmsum fræðigreinum, í heimspeki, guðfræði, fjelagsfræði, hagfræði, lögfræði, stjórnfræði, málfræði, náttúruvísindum, læknisfræði, búskaparrit og fiskveiðarit, skáldskaparrit og sögurit. Nafn þess er og bundið við mæling landsins og uppdrátt þess. En sjerstaklega hefir það lagt rækt við sögu landsins, tungu þess og bókmenntir, og þannig hefir það ómælt stutt að þjóðlegu innlendu menntalífi jafnhliða því að veita andlegum straumum inn í hin alvarlegri viðfangsefni mannsandans. Nýtur því fjelagið bæði trausts og vinsælda meðal landsmanna, sem fjelagatalið ber ljósastan vottinn um. En til marks um það, að fjelagið hafi vakið eftirtekt erlendis, má geta þess, að þegar Friðriksháskóli í Kristianíu hjelt hátíðlegt aldarafmæli sitt 1911, sendi rektor háskólans og háskólaráðið virðulegt boð til fjelagsins um að senda fulltrúa til hátíðarinnar, og var þar fulltrúi fjelagsins forseti þess, prófessor Björn M. Ólsen. Sama ár barst fjelaginu sams konar heimboð til 1000 ára hátíðar Normandíu frá þeim nefndum, sem stóðu fyrir hátíðahaldinu í París og Rúðu, og kom dr. Guðmundur Finnbogason þar fram fyrir hönd fjelagsins. Sömuleiðis fjekk fjelagið árið 1912 heimboð frá Rice Institute í Houston í Texas til að vera við stofnunarhátíð þess háskóla, en það boð barst fjelaginu svo seint, að ekki voru tiltök að sinna því öðruvísi en með skriflegum heillaóskum.

## 1. Fyrsta uppkast hinna nýju laga,
### sem samþykkt voru af báðum deildum 1911,[1]) með athugasemdum, sem því fylgdu.

Í stað »Laga hins íslenska Bókmenntafjelags«, sem nú eru í gildi, skulu koma svo hljóðandi:

### Lög hins íslenska Bókmenntafjelags.

Fyrsti kapítuli.
Um tilgang fjelagsins.

1. grein.

Það er tilgangur fjelagsins að styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi og menntun og heiður hinnar íslensku þjóðar bæði með bókum og öðru, eftir því sem efni þess fremst leyfa.

2. grein.

[Fjelagið er eitt og óskipt, og er heimili þess í Reykjavík.[2])

3. grein.

Fjelagið skal í ljós leiða rit þau, er samin hafa verið á íslensku og landinu sje sómi að, einkum þegar höfundar þeirra eru dánir og hættast er við, að þau muni týnast. Engu síður skal fjelagið ala önn fyrir, að skráðar verði bækur og prentaðar, er þarflegar virðast almenningi, og enn fremur efla vísindi Íslendinga á allan hátt, sem það best getur.

1) Neðanmáls eru greindar þær breytingar, sem gerðar voru frá þessu uppkasti af nefndum beggja deilda. Eru breytingar Hafnardeildarnefndar táknaðar með *Hdn.*, en breytingar Reykjavíkurdeildarnefndar með *Rdn.* Við þær breytingar, sem fram gengu og að lögum urðu, er auk þess sett *L.* Allt það í þessu uppkasti, sem engin neðanmálsgrein stendur við, varð óbreytt að lögum.

2) [Heimili fjelagsins er í Reykjavík. *Hdn. L.*

4. grein.

Fjelagið á að vanda orðfæri, prent og pappír á bókum þeim, sem það lætur prenta, eins vel og kostur er á, og ekki setja hærra verðlag á þær en ríflega svari kostnaði.

5. grein.

Fjelagsstjórnin ræður bókaútgáfu fjelagsins og öðrum framkvæmdum þess. Ef henni þykir þörf, skipar hún nefnd til að dæma um bækur þær eða ritgerðir, sem fjelaginu bjóðast til prentunar, eða tekur sjer hæfa menn, einn eða fleiri til ráðaneytis[1]). Fjelagið tekur við ritgerðum jafnt frá utanfjelagsmönnum sem fjelagsmönnum.

6. grein.

Þegar höfundur eða sá, sem í hans stað er, býr í fjarlægð við aðsetursstað fjelagsins, er hann skyldur til að skipa brjeflega í sinn stað umboðsmann, er fjelagið megi semja við um allt það, er ritgerðum hans viðvíkur, eins og hann væri sjálfur við staddur.

7. grein.

Fjelagið má engu breyta í neins manns riti nje við það auka eða úr taka nema með samþykki höfundar eða [umboðsmanns hans[2]). Við ritgerðir dáinna höfunda, sem enginn hefir eignarrjett til, má þó bæta skýringargreinum eða öðrum athugasemdum.

8. grein.

Fjelagið skal á hverju ári gefa út greinilega skýrslu um atgerðir fjelagsins og skýran reikning um fjárhag þess undanfarið ár. Fjelagatal skal fylgja skýrslu þessari, [að minnsta kosti annaðhvort ár[3]).

9. grein.

Forseta er heimilt að gefa allt að [20 eintök[4]) af hverri bók, sem fjelagið lætur prenta, bókasöfnum eða einstökum mönnum.

---

1) umráða *Hdn. L.*
2) [þess, sem í hans stað kemur *Rdn. L.*
3) [ *Sleppt. Hdn. L.*
4) [25 eintökum *Hdn. L.*

### 10. grein.

Hinn fasta sjóð fjelagsins [skal ávaxta á tryggilegan hátt, og má ekki skerða hann, nema brýna nauðsyn beri til, og þó því að eins að aðalfundur leggi þar til samþykki sitt[1]).

## Annar kapítuli.
## Um stjórn fjelagsins.

### 11. grein.

[Stjórn fjelagsins og framkvæmdir allar annast forseti og fulltrúaráðið[2]).

### 12. grein.

Forseti [skal kosinn til tveggja ára[3]) með skriflegum atkvæðum allra fjelagsmanna (sbr. 17. grein). Hann[4]) skal sjá um, að lögum þessum sje fylgt og að sjerhver fjelagsmanna gegni skyldum sínum við fjelagið. Hann kallar saman fulltrúaráðið, svo oft sem þurfa þykir, og er skyldur til þess, ef þriðjungur fulltrúa krefst. Hann stjórnar samkomum fulltrúaráðsins og framkvæmir ályktanir þess, en sjálfur er hann oddamaður, ef atkvæði eru jöfn. Hann kveður fjelagsmenn til aðalfundar á lögmætum[5]) tíma (sbr. 20. grein) og til aukafunda, svo oft sem honum þykir þörf til bera, en skyldur er hann að kveðja til aukafundar, ef meiri hluti fulltrúa eða 20 fjelagsmenn krefjast þess brjeflega. Hann sjer um, að fundarstjóri sje kosinn á [aðalfundum og aukafundum[6]), skýrir á hverjum aðalfundi frá athöfnum fjelagsins og fjárhag, hefir eftirlit með sjóði fjelagsins og fjármálum þess, og skal hann hafa ritað samþykki sitt á hverja kröfu til fjelagsins, áður gjalda megi. Hann sjer um prentun á ritum fjelagsins og brjefagerðir þess og [yfir höfuð að tala[7]) um öll dagleg störf þess, allt með aðstoð skrifara.

---

1) [má eigi skerða, en ekki er skylt að auka hann framar en athafnir fjelagsins leyfa. Sjóðurinn sje jafnan á vöxtum með sömu tryggingu, sem ákveðin er fyrir fje ómyndugra, og skulu verðbrjef þau, er hann á, skráð sem eign fjelagsins. Til allra ráðstafana um eignir sjóðsins þarf undirskrift forseta og gjaldkera í sameiningu *Hdn. L.*

2) [Stjórn fjelagsins, forseti og fulltrúaráðið, annast allar framkvæmdir þess (sbr. þó 13. gr.) *Hdn. Rdn. (nema sett* fulltrúaráð *f.* fulltrúaráðið). *L.*

3) [og varaforseti skulu kosnir um tvö ár *Hdn. L.*

4) Forseti *Hdn. L.*

5) [lögmæltum *Hdn. L.*

6) [fundum *Hdn. L.*

7) [ *Sleppt. Hdn. L.*

### 13. grein.

Í fulltrúaráðinu eru 6 fulltrúar, kjörnir með skriflegum atkvæðum allra fjelagsmanna (sbr. 17. grein) [til 6 ára[1]). Í fyrsta sinni, sem kosið er eftir þessum nýju[2]) lögum, skal kjósa 6 fulltrúa; af þeim fara 2 frá eftir hlutkesti að tveim árum liðnum, og skal þá kjósa 2 fulltrúa í þeirra stað [til 6 ára[1]); þegar liðin eru 4 ár frá fyrstu kosningu, fara enn tveir frá eftir hlutkesti milli 4 hinna elstu fulltrúa, og skal þá enn kjósa 2 menn í þeirra stað [til 6 ára[1]). Hlutkesti skal varpað[3]) á samkomu fulltrúaráðs, er forseti stýrir. Síðan fara allt af tveir hinir elstu fulltrúar frá annaðhvort ár, og skal [allt af[4]) jafnóðum kjósa tvo menn í þeirra stað [til 6 ára[1]). Ef fulltrúi deyr eða fer frá af öðrum ástæðum áður en kjörtími hans er á enda, skulu fulltrúar kjósa mann í hans stað, er gegni fulltrúastarfi, þangað til næsta fulltrúakosning fer fram, og sje þá enn nokkuð eftir af kjörtíma hins fráfarna, skal kjósa mann í hans stað fyrir það, sem eftir er af kjörtímanum.

Komi fyrir eitthvert merkilegt vandamál utan hinna daglegu starfa fjelagsins, skal forseti bera það undir fulltrúaráðið. Verði ágreiningur milli forseta og meiri hluta [fulltrúanna, getur forseti borið hann undir aðalfund eða undir aukafund, ef málið þolir ekki bið, og sker þá fundurinn úr ágreiningnum, ella[5]) hlíti forseti úrskurði meiri [hluta fulltrúanna[6]).

Fulltrúaráðið velur úr sínum hóp gjaldkera, skrifara og kjörstjóra. Ef atkvæði eru jöfn, sker atkvæði forseta úr.

Meðan fjelagið heldur út[7]) tímariti, skal ritstjóri þess ráðinn með atkvæðagreiðslu forseta og fulltrúaráðsins í sameiningu. Á sama hátt ræður forseti ásamt fulltrúaráðinu [mann, sem sje í einu bæði bókavörður og[8]) innheimtumaður fjelagsins. [Þessir tveir síðastnefndu starfsmenn[9]) fá laun eftir samkomulagi við stjórn fjelagsins, hvort sem þeir eru fulltrúar eða ekki, en annars vinnur bæði forseti og fulltrúaráðið ókeypis.[10])

---

1) [um 6 ár *Hdn. L.*
2) *Sleppt. Rdn. L.*
3) fram fara *Hdn. L.*
4) [ *Sleppt. Rdn. L.*
5) [fulltrúaráðsins *Hdn. L.*
6) [hlutans *Hdn. L.*
7) úti *Hdn. L.*
8) [bókavörð, sem og sje *Hdn. L.*
9) [Ritstjóri og bókavörður *Hdn. L.*
10) (sbr. þó 16. gr.) *b. v. Hdn. L.*

14. grein.

Bókavörður [og innheimtumaður[1]) hefir umsjón með bókaforða fjelagsins, sjer um útsending ársbóka, annast bókasölu fjelagsins, innheimtir tekjur þess bæði hjá einstökum mönnum og umboðsmönnum og hefir á hendi bókfærslu alla yfir viðskipti fjelagsins við fjelagsmenn og aðra, allt eftir því sem fjelagsstjórnin telur fullnægjandi[2]). [Svo fljótt sem því verður við komið eftir[3]) hver árslok skal hann gera skilagrein fyrir bókasölu hins liðna árs, bókaleifum við árslok, innheimtu fje og útistandandi[4]) skuldum, og skulu skilagreinir þessar búnar að minsta kosti svo snemma, að gjaldkeri geti notað þær við ársreikning sinn og eignareikning (sbr. 15. grein). Um laun hans fyrir starf sitt og veð, sem hann kynni að verða að setja fyrir fje því, er hann hefir undir höndum fyrir fjelagið, fer eftir samkomulagi við fjelagsstjórnina. Fje það, sem hann innheimtir, skal hann greiða jafnóðum til gjaldkera fjelagsins, er gefur honum kvittun fyrir því. Fyrir útgjöldum sínum í fjelagsins þarfir gerir hann reikning, sem forseti ávísar.

15. grein.

Gjaldkeri veitir móttöku tekjum fjelagsins, bæði þeim sem innheimtumaður tekur við og öðrum tekjum, svo sem [styrk úr landssjóði[5]), gjöfum o. s. frv. Hann útborgar[6]) gjöld fjelagsins eftir ávísun forseta. Bæði tekjur og gjöld innfærir[7]) hann jafnóðum í sjóðsbók[8]). Hann semur ársreikning fjelagsins og reikning yfir eignir og skuldir fjelagsins að árslokum, og skulu reikningar þessir búnir og afhentir endurskoðunarmönnum í síðasta lagi tveim vikum fyrir aðalfund þann, sem á að úrskurða reikningana. Skyldur er gjaldkeri að gera grein fyrir fjárhag fjelagsins, hvenær sem forseti eða fulltrúaráðið krefst þess.

16. grein.

[Skrifari aðstoðar forseta við brjefagerðir fjelagsins og færir brjefin inn í

---

1) [ *Sleppt. Hdn. L.*
2) fullnægja *Hdn. L.*
3) [Við *Hdn. L.*
4) *Sleppt. Hdn. L.*
5) [styrkveitingum *Hdn. L.*
6) borgar *Hdn. L.*
7) ritar *Hdn. L.*
8) sjerstaka bók *Hdn. L.*

brjefabók fjelagsins, veitir viðtöku brjefum þeim, sem til fjelagsins koma, og geymir þau í rjettri röð. Hann[1]) býr skýrslur fjelagsins og reikninga, svo og fjelagatal, undir prentun með aðstoð bókavarðar [og innheimtumanns, og skal[2]) forseti veita skrifara hæfilega þóknun fyrir það starf. Að öðru leyti aðstoðar skrifari forseta við öll störf þau, er fjelagið varða.

17. grein.

Forsetakosning og kosningar til fulltrúaráðs fara fram annaðhvert ár,[3]) í stað þeirra er frá fara, í fyrsta sinn árið[4]) 1912 og síðan allt af með 2 ára millibili. Kjörstjóri annast um undirbúning þessara kosninga, og skal hann ávallt vera einn af þeim fulltrúum, sem ekki eiga frá að fara, þegar kosning fer fram. Kjörstjóri sjer um, að í ársbyrjun, eigi síðar en með póstum, sem fara frá Reykjavík í febrúarmánuði, sjeu send eyðublöð undir kosningar þær, sem fram eiga að fara næsta sumar á eftir, til hvers fjelagsmanns, [bæði heiðursfjelaga og reglulegra fjelaga[5]), og eru umboðsmenn fjelagsins viðtakendur eyðublaðanna fyrir þá fjelaga, sem eru í umboði þeirra. Á eyðublaðinu skal sjást, til hverra embætta á að kjósa [(að jafnaði forseta og tvo fulltrúa)[6]) og í hverra stað [(þeirra er frá fara)[6]); þar skal og standa beiðni frá kjörstjóra um, að kjósandinn fylli eyðurnar með nöfnum þeirra manna, er hann vill kjósa, [undirskrifi kjörseðilinn með nafni sínu[7]) og endursendi hann síðan lokaðan og frímerktan til kjörstjóra svo snemma, að hann sje í höndum kjörstjóra minnst 3 dögum fyrir aðalfund. Kjörgengir [til forsetatignar og fulltrúaráðs[8]) eru allir þeir fjelagsmenn, [hvort sem eru heiðursfjelagar eða reglulegir fjelagar[9]), sem eiga heimili í Reykjavík, og skal þess einnig getið á eyðublaðinu.

Fjelagið skal eiga sjer atkvæðakassa með þannig lagaðri læsingu, að ekki verði í hann komist öðruvísi en með tveim lyklum. Geymir forseti annan lykilinn, en kjörstjóri hinn. Kassann sjálfan geymir kjörstjóri og stingur jafn-

---

1) [Skrifari veitir viðtöku brjefum þeim, sem til fjelagsins koma og geymir þau í rjettri röð, aðstoðar forseta við brjefagerðir fjelagsins og ritar öll brjef í brjefaskrá þess. Hann skal bóka alt það, sem fram fer á fjelagsfundum og stjórnarfundum, *Hdn. L.*

2) [og má *Hdn. L.*

3) Skulu kosnir menn *b. v. Hdn. L.*

4) *Sleppt. Hdn. L.*

5) [ *Sleppt. Hdn. L.*

6) [ *Sleppt. Hdn. L.*

7) [skrifi undir kjörseðilinn nafn sitt *Hdn. L.*

8) [í forsetaembætti og fulltrúaráð *Hdn. L.*

9) [ *Sleppt. Hdn. L.*

óðum niður í hann um gat[1]) á lokinu kjörseðlum þeim, sem honum berast, óopnuðum. Einum eða tveim dögum fyrir aðalfund kveður forseti fulltrúaráðið til fundar, og skal þar opna atkvæðakassann og telja atkvæðin í viðurvist fundarins. Að þeim fundi eiga allir fjelagsmenn aðgang sem áheyrendur. Verði ágreiningur um, hvort eitthvert[2]) atkvæði sje gilt, sker fulltrúafundurinn úr með atkvæðafjölda, þó þannig, að forseti [hefir ekki atkvæðisrjett um atkvæði til forsetakosningar og ekki heldur fráfarandi fulltrúar um atkvæði til fulltrúakosningar[3]). Úrslit kosninganna skulu bókuð á fundinum og síðan auglýst á aðalfundi.[4]) Hinn nýkosni forseti og hinir nýkosnu fulltrúar taka þó[5]) ekki við starfi sínu, fyrr en að loknum aðalfundi.

18. grein.

Á aðalfundi skal kjósa 2 endurskoðunarmenn til að endurskoða reikninga fjelagsins og skilagrein bókavarðar [og innheimtumanns[6]), og skulu þeir hafa lokið starfi sínu 3 dögum fyrir aðalfund, til þess að stjórnin geti svarað athugasemdum þeirra, ef nokkrar eru, og endurskoðendur síðan gert tillögur til úrskurðar reikningnum, er lagðar verði[7]) fyrir aðalfund.

19. grein.

Alla embættismenn fjelagsins, bæði forseta og[8]) fulltrúa og endurskoðunarmenn, má endurkjósa.

20. grein.

Aðalfundur fjelagsins skal haldinn á ári hverju á afmælisdag[9]) Jóns Sigurðssonar, 17. dag júnímánaðar, eða næsta virkan dag. Skal birta[10]) fundarstað og fundartíma minnst viku fyrir fund í tveimur [hinum fjöllesnustu[11])

---

1) rifu *Hdn. L.*

2) *Sleppt. Rdn. L.*

3) [eða fulltrúi má eigi taka þátt í úrskurði um gildi atkvæðis, sem varðar kosning sjálfs hans *Rdn. L.*

4) Í fjelagatalinu skulu nöfn þeirra manna auðkend með stjörnu, er tekið hafa þátt í síðustu kosningu, hvort sem atkvæði þeirra hafa verið metin gild eða ekki. *b. v. Hdn. L.*

5) *Sleppt. Hdn. L.*

6) [ *Sleppt. Hdn. L.*

7) verða *Hdn. L.*

8) varaforseta, *Hdn. L.*

9) afmælisdegi *Hdn. L.*

10) dagskrá, *b. v. Hdn. L.*

11) [ *Sleppt. Hdn. L.*

blöðum, sem út koma í Reykjavík. Prentað fundarboð með dagskrá skal sent með pósti hverjum þeim fjelagsmanni, sem heimili á í Reykjavík, og skal það látið á póst einum degi fyrir fundinn. Ef lagabreytingar koma til umræðu á fundinum, fer þó um fundarboð[1]) sem segir í 28.[2]) grein.

21. grein.

Á aðalfundi skal forseti skýra frá athöfnum fjelagsins og hag þess; hann leggur og fyrir fundinn til úrskurðar og samþykkis ársreikning og eignareikning fjelagsins fyrir síðastliðið ár. Á aðalfundi eru kosnir endurskoðunarmenn (sbr. 18. grein). [Aðalfundur sker úr ágreiningi, sem verða kann milli forseta og meiri hluta fulltrúaráðsins (sbr. 13. grein)[3]). Á aðalfundi má ræða öll þau mál, er fjelagið varða, gera fyrirspurnir til forseta eða fulltrúaráðsins og samþykkja ályktanir um fjelagsmálefni. Fundarályktanirnar[4]) skal forseti síðan[5]) leggja fyrir fulltrúaráðið, og er hann skyldur að framkvæma þær, ef meiri hluti [fulltrúa er þeim fylgjandi[6]).

[Forseti getur kvatt fjelagsmenn til aukafunda, þegar honum lítst (sbr. einnig 12. grein).[7])

Á fundum fjelagsmanna[8]) ræður meiri hluti atkvæða [(sbr. þó 28. grein)[9]). Ef atkvæði eru jöfn, skulu þeir hafa sitt mál, sem forseti greiðir atkvæði með.

22. grein.

Fjelagsmenn eru: heiðursfjelagar, [fjelagar og brjefafjelagar.

Heiðursfjelagar og fjelagar hafa[10]) atkvæðisrjett við kosningar embættismanna og á aðalfundum, ef þeir eru á fundi.

23. grein.

Heiðursfjelaga skal kjósa eftir verðleikum. Kosningin fer fram á aðalfundi

---

1) fundarboðun *Hdn. L.*
2) 27. *Hdn. (af því að þar er feld úr 27. gr. þessa uppkasts). L.*
3) [ *Sleppt. Hdn. L.*
4) Fundarályktanir allar *Hdn. L.*
5) *Sleppt. Hdn. L.*
6) [stjórnarinnar styður þær *Hdn. L.*
7) [ *Sleppt. Hdn. L.*
8) fjelagsins *Hdn. L.*
9) [ *Sleppt. Hdn. L.*
10) [og fjelagar, og hafa hvorirtveggja *Hdn. L.*

eftir einróma tillögu forseta og fulltrúaráðs. Heiðursfjelagar gjalda ekki tillag [framar en þeir sjálfir vilja[1]).

24. grein.

Fjelagi er hver sá [maður, karl eða kona[2]), sem greiðir fjelaginu minnst[3]) 6 króna tillag á ári. Sá, sem vill gerast fjelagsmaður[4]), beiðist inntöku skriflega, og skal beiðninni fylgja hið fyrsta árstillag, 6 krónur [að minnsta kosti[5]). Skal þá forseti láta hann fá fjelagaskírteini og skýra frá inntökunni á aðalfundi.

25. grein.

Fjelagar skulu hafa goldið árstillag sitt fyrir 1. október ár hvert. Sje árstillag ekki goldið og komið til innheimtumanns fyrir árslok, [má fjelaginn búast við, að honum verði ekki sendar ársbækur fyrir næsta ár, fyrr en[6]) hann hefir að fullu greitt[7]) skuld sína fyrir bæði árin. Geri hann engin skil á öðru ári, skal líta svo á, sem hann sje úr fjelaginu, en inntöku fær hann í fjelagið aftur, er hann greiðir skuld sína.

26. grein.

Úrsögn skal vera skrifleg í brjefi til forseta. Fjelagi, sem er í skuld við fjelagið, þegar hann segir sig úr því, [fær inntöku aftur, er hann greiðir[8]) skuld sína.

27. grein.[9])

Brjefafjelaga kýs fjelagsstjórnin þá, sem hún vill. Þeir greiða ekki tillög til fjelagsins.

---

1) [ *Sleppt. Hdn. L.*
2) [ *Sleppt. Hdn. L.*
3) *Sleppt. Hdn.*
4) fjelagi *Hdn.*
5) [ *Sleppt. Hdn.*
6) [skal haldið eftir ársbókum hans (fjelaga *Rdn. L.)* fyrir næsta ár, þangað til *Hdn. L.*
7) goldið *Hdn. L.*
8) [fær ekki inntöku aftur, nema hann greiði *Hdn. L.*
9) *Öll greinin felld úr. Hdn. L.*

28.[1]) grein.

Tillögur um breyting á lögum þessum verða ekki bornar upp, nema [forseti og[2]) meiri hluti [fulltrúaráðsins sje þeim fylgjandi[3]). Ef svo er, leggur forseti breytingartillögurnar fyrir aðalfund, og skulu þær liggja frammi í tvær[4]) vikur fyrir fundinn fjelagsmönnum til sýnis á þeim stað, sem forseti tiltekur. Fundarstað og fundartíma skal forseti birta minnst tveim[5]) vikum fyrir aðalfundinn í tveimur [hinum fjöllesnustu[6]) blöðum, sem út koma í Reykjavík, og skal þess getið í auglýsingunni, að lagabreytingar komi til umræðu og hvar þær [liggi frammi[7]). [Nái breytingartillögurnar minnst tveim þriðjungum allra atkvæða, sem greidd eru á aðalfundinum, verða þær að lögum, ella eru þær felldar.[8])

Ákvarðanir til bráðabirgða.

I.

Á aðalfundi deildarinnar í Reykjavík 8. júlí 1911 skal velja einn mann til kjörstjóra til að annast ásamt stjórn Reykjavíkurdeildarinnar, þeirri er kosin verður á sama fundi, um hinar fyrstu kosningar, sem fram eiga að fara eftir lögum þessum samkvæmt 17. grein. [Kosningin skal fram fara að öllu samkvæmt 17. grein[9]), þannig að kjörstjóri sá, er aðalfundurinn kýs, gegnir kjörstjórastörfum, forseti Reykjavíkurdeildarinnar þeim störfum, sem forseta eru ætluð við kosningarnar, og meðstjórnendur hans ásamt kjörstjóra þeim störfum, sem fulltrúaráðinu eru ætluð.

---

1) 27. *Hdn. L.*

2) [ *Sleppt. Hdn. L.*

3) [stjórnarinnar styðji þær *Hdn. L.*

4) þrjár *Hdn. L.*

5) þrem *Hdn. L.*

6) [ *Sleppt. Hdn. L.*

7) [sjeu til sýnis *Hdn. L.*

8) [Skulu þær síðan bornar undir alla fjelagsmenn, og fái þær meiri hluta greiddra atkvæða, verða þær að lögum *Hdn. Rdn. samþykkti þetta með þeirri breytingu, að á eftir* síðan *bætist inn* allar í einni heild. *L. (með viðbót Rdn.). Í útgáfu laganna Rvík 1911 var* alla *(á undan* fjelagsmenn) *ranglega fellt úr, en villan löguð á lausum miða prentuðum, sem á að fylgja þeirri útgáfu.*

9) [ *Sleppt. Hdn.*

Forseti Reykjavíkurdeildarinnar boðar fyrsta aðalfund fjelagsheildarinnar[1]) 1912, setur hann og auglýsir úrslit kosninganna.[2])

II.[3])

Jafnskjótt sem forseti og fulltrúaráð er kosið í fyrsta sinn eftir [lögum þessum[4]) og kosningin auglýst á aðalfundi fjelagsheildarinnar[1]) 17. júní 1912, skal stjórn [deildar fjelagsins[5]) í Reykjavík, sú er þá er við völd, afhenda hinni nýkosnu stjórn [fjelagsheildarinnar allar eignir Reykjavíkurdeildarinnar[6]). Öll stjórnarstörf, sem þangað til hafa hvílt á stjórn Reykjavíkurdeildarinnar, skulu frá sama tíma hverfa undir hina nýkosnu stjórn fjelagsheildarinnar[7]).

[Aftur á móti heldur stjórn Hafnardeildarinnar, sú er þá er við völd, áfram að gegna störfum sínum og annast um útgáfu ársbóka deildarinnar eftir 17. júní 1912, þangað til hún hefir afhent eignir sinnar deildar í hendur hinni nýkosnu stjórn fjelagsheildarinnar, og skal afhendingu vera lokið eigi síðar en 1. sept. 1912. Jafnskjótt sem afhendingu er að fullu lokið, hverfa öll þau stjórnarstörf, sem áður hvíldu á stjórn Hafnardeildarinnar, undir hina nýkosnu stjórn fjelagsheildarinnar. Forseti fjelagsheildarinnar og fulltrúaráðið geta veitt manni, búsettum í Kaupmannahöfn, umboð til að taka við eigum Hafnardeildarinnar fyrir sína hönd og ráðstafa þeim til heimflutnings eða geymslu framvegis í Kaupmannahöfn.[8])

---

1) fjelagsins *Hdn. L.*

2) *Hjer bætir Hdn. inn nýrri grein, sem verður II. grein, svo hljóðandi:*
Ársfundi Hafnardeildarinnar skal frestað til hausts 1911. Ef lög þessi verða samþykkt þar óbreytt, eins og þau koma frá Reykjavíkurdeildinni, skal eigi kjósa nýja stjórn, heldur fela hinni fráfarandi stjórn að skila eignum deildarinnar í hendur stjórn Reykjavíkurdeildarinnar, og getur hin fráfarandi stjórn, ef henni þykir þörf, kosið 3 menn sjer til aðstoðar við afhendinguna. Forseti Reykjavíkurdeildarinnar getur veitt manni eða mönnum, búsettum í Kaupmannahöfn, umboð til að taka við eigum Hafnardeildarinnar fyrir sína hönd og ráðstafa þeim til heimflutnings eða geymslu framvegis í Kaupmannahöfn. *L.*

3) III. *Hdn. L.*

4) þessum lögum *Hdn. L.*

5) [deildarinnar *Hdn. L.*

6) [fjelagsins allar eignir beggja deilda *Hdn. L.*

7) fjelagsins *Hdn. L.*

8) [ *Sleppt. Hdn. L.*

III.[1])

Stjórn fjelagsheildarinnar[2]) tekst á hendur allar þær skuldbindingar um útgáfu bóka og annað, sem hvíla á hvorri deild fyrir sig, þegar afhending fer fram.

Allar afhendingar fara fram skriflega.

---

## Athugasemdir.

Í *1. kapítula* er aðalnýmælið í 2. grein, sem afnemur deildaskiptinguna, og í 5. gr., sem leggur ráðin um bókaútg. og aðrar framkvæmdir undir fjelagsstjórnina, en tekur þau frá aðalfundum.

Það er misskilningur, að 2. gr. afnemi einungis Hafnardeildina, hún afnemur *báðar* deildir, gerir *báðum* jafnhátt undir höfði; sbr. einnig Ákvarðanir til bráðabirgða II; þar sjest, að Hafnardeildin lifir í rauninni lengur en Reykjavíkurdeildin, eðlileg afleiðing af því, að Hafnardeild á heima fjarri hinum nýja aðsetursstað fjelagsheildarinnar, svo að það þarf tíma til að koma henni saman við fjelagsheildina.

Skerðing fundavaldsins (5. gr.) er að minni hyggju nauðsynlegt skilyrði fyrir því, að fjelagið geti komist á fastari fót og starfað rólega að markmiði sínu, yfir höfuð fyrir sönnum fjelagsþrifum. Með því fyrirkomulagi sem jeg hefi hugsað mjer á kosningu forseta og fulltrúaráðs (17. gr.), er það og bæði eðlilegt og sjálfsagt, að stjórnin (= forseti + fulltrúaráð) hafi meira að segja en aðalfundur, því að stjórnin er reist á breiðara grundvelli en aðalfundurinn, hún er valin af *öllum* fjelagsmönnum (referendum), en aðalfundur er að eins fulltrúi þeirra fáu, sem ná til aðalfundar.

Að öðru leyti er 1. kapítuli að mestu tekinn eftir gömlu lögunum, með þeim einum breytingum sem praxís virðist hafa helgað eða breyttir tímar gera sjálfsagðar eða æskilegar (t. d. slept í 3. gr., að fjelagið skuli sjá skólanum, ɔ: menntaskólanum, fyrir kennslubókum).

Aftur á móti felur *2. kapítuli* í sjer algerða breyting á stjórn fjelagsins, sem miðar að því að gera stjórnina stöðugri — forseti kosinn til 2 ára, fulltrúaráð til 6 ára — og því óháðari pólitískum flokkadráttum. Vona jeg að

---

1) IV. *Hdn. L.*

2) fjelagsins *Hdn. L.*

þetta mæli með sjer sjálft. Fyrirkomulag stjórnarinnar (fulltrúaráðið) er líkt og tíðkast í Fornleifafjelaginu og hefur reynst þar vel.

Af því að fremur er hætt við, að flokkadrættir komist að við forsetakosning en við fulltrúakosning, og af því að fulltrúar eru kosnir til 6 ára, en forseti að eins til tveggja, virðist eðlilegt að forseta sje gert að skyldu að framkvæma vilja meiri hluta fulltrúaráðsins (12. og 13. grein). Að eins þegar svo stendur á, að forsetavaldið og fulltrúavaldið greinir á — en þau völd eru í sjálfu sjer jafn-rjetthá (bæði kosin með referendum), virðist eðlilegt að taka aðalfund sem oddamann, ef forseti vill halda máli til streitu (13. gr.).

Við 14. og 15. gr.: Reynslan hefur sýnt að sami maður verður að hafa á hendi útsending bóka og innheimtu fjelagsgjalda og reikningsfærslu (bókavörður og innheimtumaður). Þessi maður verður að vera duglegur starfsmaður (»forretningsmand«) og verður því að fela stjórninni að ráða hann en ekki kjósa hann með atkvæðafjölda fjelagsmanna. Innheimtan er hjer greind frá gjaldkera-starfinu og er það hið eina praktiska fyrirkomulag í fjelögum, þar sem annars um nokkra verulega innheimtu er að ræða, eins og margföld reynsla hefir sýnt, enda hefir fyrirkomulagið verið svo nú um mörg ár í Reykjavíkurdeild, þó að það sje ekki í lögum.

Í 17. gr. hef jeg leitast við að setja reglur, er tryggi sem best óhlutdrægar kosningar. Kjörstjóraembættið er nýmæli, sem jeg þekki ekki í öðrum fjelögum. Að embættismenn sjeu kosnir með skriflegum atkvæðum allra fjelagsmanna, tíðkast í mörgum fjelögum, þar sem fjelagar eru tvístraðir yfir mikið svæði, t. d. Association phonétique.

---

## 2. Stutt æfiatriði forseta Bókmenntafjelagsins.

### A. Forsetar Reykjavíkurdeildar.

**1. Árni Helgason.** Fæddur á Stað í Aðalvík 27. október 1777. Foreldrar: Helgi prestur Einarsson og Guðrún Árnadóttir. Kom í Reykjavíkurskóla 1795, útskrifaður þaðan 1. júní 1799. Var nokkur ár í Skálholti hjá Valgerði ekkju Hannesar byskups Finnssonar og kenndi börnum þeirra. Er ritaður í stúdentatölu við Kaupmannahafnarháskóla 7. nóvember 1804 með 1. einkunn, tók annað lærdómspróf 1805 með ágætiseinkunn og embættispróf í guðfræði 16.

apríl 1807 með sömu einkunn. Gekk í kennaradeild háskólans (Seminarium pædagogicum). Fekk heiðurspening háskólans úr gulli 1808 fyrir úrlausn á guðfræðaspurningu það ár. Var þá um tíma stipendiarius Arnamagnæanus. Var veitt Vatnsfjarðarprestakall 22. mars 1808 og ætlaði samsumars út hingað, en tepptist í Noregi og kom eigi til Íslands fyrr en um vorið 1809 og var prestvígður 9. júlí sama ár, en fór eigi vestur, heldur hafði þar aðstoðarprest. 24. október 1810 fekk hann Reynivelli í Kjós og 27. maí 1814 dómkirkjuprestsembættið í Reykjavík og settist að í Breiðholti. Gegndi kennarastörfum við Bessastaðaskóla frá því í marsmánuði 1817 til 31. maí 1819. Varð prófastur í Kjalarnessþingi 30. júlí 1821 og hjelt því embætti til 1856, er hann sagði því af sjer. Þjónaði byskupsembætti eftir lát Geirs byskups frá 21. september 1823 til 14. maí 1825, er Steingrímur byskup tók við. Fekk Garða á Álptanesi 27. október 1825 og konungsstaðfestingu fyrir sama prestakalli 13. okt. 1826. Þjónaði byskupsembætti í annað sinn frá 14. júní 1845 til 2. september 1846, er Helgi byskup tók við. Varð stiftprófastur að nafnbót 30. apríl 1828, riddari af dannebrog 1. nóv. sama ár, dannebrogsmaður 6. okt. 1853, byskup að nafnbót 7. okt. 1858 og fekk þá lausn frá prestskap. — Var forseti Reykjavíkurdeildarinnar 1816—1848; kjörinn heiðursfjelagi Bókmenntafjelagsins af Kaupmannahafnardeildinni 14. apríl 1831, heiðursforseti fjelagsins 12. febrúar 1849. Var einn af fyrstu stofnendum hins íslenska biflíufjelags 1816. Sat í embættismannanefndinni í Reykjavík 1839 og 1841 og á alþingi 1845 og 1847 sem þjóðkjörinn varaþingmaður fyrir Reykjavík. Hann var tvíkvæntur; fyrri kona: Guðný Högnadóttir frá Skógum, síðari: Sigríður Hannesdóttir, byskups. Hann andaðist í Görðum 14. des. 1869. — Rit hans hin merkustu prentuð eru: *Helgidaga Predikanir.* Viðey, 1822, í 2 bindum; 2. útg. Viðey, 1839. Æviminningar og líkræður eftir Sigríði Magnúsdóttur, Þuríði Ásmundsdóttur, Benedikt Gröndal, Vigfús Scheving, Ísleif Einarsson, Markús Magnússon. Auk þessa eru og til margar grafskriftir eftir hann. Allmikinn þátt átti hann og í endurskoðun biblíunnar (Viðey 1841 og Reykjavík 1859). Var ritstjóri Sunnanpóstsins (2. og 3. árg.).



[Sjá sjerstaklega: Æfiminning Árna byskups Helgasonar . . . Rv., 1877. — Hannes

Þorsteinsson: Guðfræðingatal . . . Rv., 1907—1910. Bricka: Dansk biografisk Lexikon — Halldór Hermannsson: Catalogue of the Icelandic Collection bequeathed by Willard Fiske].

**2. Pjetur Pjetursson.** Fæddur á Miklabæ í Blönduhlíð 3. okt. 1808. Foreldrar: Pjetur prófastur Pjetursson á Víðivöllum og síðari kona hans Þóra Brynjólfsdóttir. Gekk í Bessastaðaskóla og útskrifaðist þaðan 16. júní 1827. Sigldi til Kaupmannahafnar árið eftir og var skrifaður þar í stúdentatölu 1829. Tók annað lærdómspróf 16. apríl 1830, próf í hebresku 1832 og embættispróf í guðfræði 14. apríl 1834 með 1. einkunn. Fekk Breiðabólstað á Skógarströnd 15. júlí 1836 og prestvígður 17. s. m. 22. apríl 1837 var honum veitt Helgafell og 26. ágúst s. á. Staðastaður, en skipaður prófastur í Snæfellsnessýslu 31. ágúst 1838. 21. maí 1847 var hann skipaður forstöðumaður við hinn nýstofnaða prestaskóla í Reykjavík; settur dómkirkjuprestur frá júnímánuði til nóvembermánaðarloka 1854; þjónaði byskupsembætti í utanför Helga byskups frá því í ágústmánuði 1855 til júlímánaðarloka 1856. Skipaður byskup 23. febrúar 1866 frá 1. apríl s. á. og vígður byskupsvígslu 3. júní s. á. Fekk lausn frá byskupsembætti 16. apríl 1889 frá 25. maí s. á. Pjetur byskup varð licentiatus theologiæ 11. maí 1840 fyrir ritgerð um Rufinus kirkjuföður. 21. mars 1844 varði hann ritgerð sína um íslenskan kirkjurjett og hlaut fyrir doktorsnafnbót í guðfræði 14. nóv. s. á. Prófessor að nafnbót 15. maí 1849, riddari af dannebroge 6. okt. 1852, dannebrogsmaður 21. júlí 1869, kommandör dannebrogsorðunnar 2. fl. 2. ágúst 1874, kommandör norsku Ólafsorðunnar 1. fl. 21. janúar 1883, kommandör dannebrogsorðunnar 1. fl. 7. apríl 1883 og stórkross sömu orðu hlaut hann 16. apríl 1889, er hann fekk lausn frá byskupsembætti. — Konungkjörinn þingmaður 18. sept. 1846 og sat á öllum þingum frá 1849 til 1885, er hann sagði af sjer þingmennsku; konungkjörinn fulltrúi á þjóðfundinum 1851; forseti efri deildar alþingis 1875—1885. — Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmenntafjelagsins frá 1848 til 1868; kjörinn heiðursfjelagi 5. maí 1855. Kjörinn heiðursforseti hins breska og erlenda biblíufjelags í Lundúnum. — Tvíkvæntur, fyrri kona: Anna Sigríður Aradóttir frá Flugumýri; síðari: Sigríður Bogadóttir frá Staðarfelli. — Hann andaðist í Reykjavík 15. maí 1891.



[Rit hans yrði hjer of langt upp að telja og vísast þar um sjerstaklega til Halldór

Hermannsson: Catalogue of the Icelandic Collection bequeathed by Willard Fiske. Ithaca, 1914. Sbr. enn fremur Þorvaldur Thoroddsen: Æfisaga Pjeturs Pjeturssonar . . . Rv. 1908. Bricka: Dansk biografisk Lexikon. — Hannes Þorsteinsson: Guðfræðingatal, Rv. 1907—1910].

**3. Jón Þorkelsson.** Fæddur á Sólheimum í Sæmundarhlíð 5. nóvember 1822. Foreldrar: Þorkell bóndi Jónsson og Sigþrúður Árnadóttir. Gekk í Bessastaðaskóla og útskrifaðist úr hinum lærða skóla í Reykjavík 1848. Tók 1. lærdómspróf við Kaupmannahafnarháskóla 1848, 2. próf 1849, embættispróf í málfræði og sögu 22. júní 1854, öll með 1. einkunn. Varð stipendiarius Arna-Magnæanus 24. sept. 1850 og vann þau ár að ýmsum vísindastörfum bæði fyrir Árnasafn og C. C. Rafn. Fór til Íslands í októbermánuði 1854 og varð þá þegar stundakennari við hinn lærða skóla og hjelt því starfi, uns hann var settur kennari við sama skóla 1. apríl 1859. Fekk veiting konungs sem fastur kennari 21. des. 1862. Varð yfirkennari 13. sept. 1869, settur rektor 4. nóv. 1872, fekk veiting fyrir rektorsembættinu 12. mars 1874. Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmenntafjelagsins frá 18. sept. 1868 til 9. júlí 1877, var kosinn aftur forseti 8. júlí 1884, en skoraðist undan að taka við. Heiðursfjelagi sama fjelags 4. maí 1885. Fjelagi hins konunglega danska vísindafjelags 7. apríl 1876, vísindafjelagsins í Kristianíu 4. nóv. 1887, dr. phil. honoris causa við Kaupmannahafnarháskóla 1879, riddari af dannebroge 31. ágúst 1877, dannebrogsmaður 1. mars 1895. Fekk lausn frá rektorsembættinu 26. febrúar 1895 frá 1. okt. s. á. Kona: Sigríður Jónsdóttir. — Hann andaðist 21. janúar 1904.



[Sjá sjerstaklega Björn M. Ólsen: Minningarrit fimmtíu ára afmælis hins lærða skóla í Reykjavík. Rv. 1896. — Andvari 30. ár, Rv. 1904 (ævisaga J. Þ. eftir Jón Ólafsson, með ritskrá eftir sama). — Sunnanfari I. ár, bls. 85. — Bricka: Dansk biografisk Lexikon].

**4. Magnús Stephensen.** Fæddur á Höfðabrekku í Mýrdal 18. október 1836. Foreldrar: Magnús sýslumaður Stephensen og Margrjet Þórðardóttir. Útskrifaður úr hinum lærða skóla í Reykjavík 1855. Tók embættispróf í lögfræði við Kaupmannahafnarháskóla 4. júní 1862 með 1. einkunn. Komst árið eftir í dómsmálaráðuneytið og gerðist aðstoðarmaður þar 8. maí 1865. 19. ágúst 1870 var hann settur annar meðdómandi í landsyfirdóminum, fekk veiting fyrir því embætti 13. apríl 1871, 1. assessor 7. nóv. 1877, landshöfðingi 10.

apríl 1886, lausn frá því embætti 27. jan. 1904. Konungkjörinn þingmaður 1877—1886, 2. þingmaður Rangæinga 1903—1907. Forseti sameinaðs þings 1883, neðri deildar 1905—1907. — Riddari af dannebroge 24. maí 1877, dannebrogsmaður 24. febrúar 1887, kommandör 2. fl. sömu orðu 8. febr. 1891, kommandör 1. fl. sömu orðu 23. apríl 1901, fekk stórkross sömu orðu 27. jan. 1904, riddari heiðursfylkingarinnar frakknesku 1891. — Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmentafjelagsins frá 9. júlí 1877 til 8. júlí 1884. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 9. júlí 1888. — Kona: Elín, fædd Thorstensen. Um rit hans vísast til *Halldór Hermannsson: Catalogue etc.*, en auk þess eru ritgerðir eftir hann í Nýjum Fjelagsritum, Tímariti Bókmenntafjel. og Skírni.



[Sjá sjerstaklega: Sunnanfari III. ár, bls. 41—42. — Magnús Stephensen: Lögfræðingatal (í Tímariti III.). — Klemens Jónsson: Lögfræðingatal. Rv. 1910. — Jóhann Kristjánsson: Alþingismannatal 1845—1905. Rv. 1906. — Halldór Hermannsson: Icelandic authors of to-day.

**5. Björn Jónsson.** Fæddur í Djúpadal í Gufudalssveit 8. október 1846. Foreldrar: Jón bóndi Jónsson og Sigríður Jónsdóttir. Útskrifaður úr hinum lærða skóla í Reykjavík 1869. Sigldi til Kaupmannahafnar árið eftir og tók próf í heimspeki 1872. Lagði stund á lögfræði, en hvarf frá því námi og út hingað sumarið 1874 og stofnaði blaðið Ísafold 19. sept. 1874 og var ritstjóri hennar að kalla má óslitið til 1909. — Var þingmaður Strandamanna 1879, Barðstrendinga 1909 og 1911. Forseti sameinaðs þings 1909. Ráðherra Íslands frá 31. mars 1909 til 26. mars 1911. Riddari af dannebroge 27. janúar 1904. — Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmenntafjelagsins frá 15. júlí 1884 til 9. júlí 1894. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 18. mars 1895. Kona: Elísabet Sveinsdóttir. — Hann andaðist í Reykjavík 24. nóv. 1912. — Um rit hans vísast til *Halldór Hermannsson: Catalogue etc.*



[Sjá sjerstaklega: Björn Jónsson eftir Einar Hjörleifsson (æfisaga í Andvara, 38. ár). — Jóhann Kristjánsson: Alþingismannatal. Rv. 1906. — Minningarrit um Björn Jónsson. Rv. 1914].

**6. Björn Magnússon Ólsen.** Fæddur á Þingeyrum í Húnavatnssýslu 14. júlí 1850. Foreldrar: Runólfur Magnús Ólsen og Ingunn Jónsdóttir. Kom í lærða skólann í Reykjavík 1863 og útskrifaðist þaðan 1869. Var eftir það heima um 3 ár fyrir heilsubrests sakir, en fór til háskólans í Kaupmannahöfn 1872 og tók heimspekispróf þar árið eftir með ágætiseinkunn, en embættispróf í málfræði og sögu 12. júní 1877 með 1. einkunn. Ferðaðist til Ítalíu og Grikklands næsta ár (1878). Settur kennari við lærða skólann í Reykjavík 15. apríl 1879, veitt það embætti 29. júlí 1880, rektor sama skóla 24. júlí 1895, lausn frá því embætti 25. apríl 1904. — Dr. phil. við Kaupmannahafnarháskóla 1883, prófessor að nafnbót 25. apríl 1904, prófessor í íslenskri málfræði og bókmenntasögu við háskóla Íslands, frá stofnun háskólans, 1911, og síðan. — Riddari af dannebroge 9. des. 1902, dannebrogsmaður 9. júlí 1907. — Konungkjörinn þingmaður 1905 og 1907, og sagði þá af sjer þingmennsku. — Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmenntafjelagsins frá 9. júlí 1894 til 7. júní 1900, í annað sinn 8. júlí 1909 og hefir verið síðan. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 20. mars 1901, fjelagi hins norska vísindafjelags í Kristíaníu 21. mars 1902, hins konunglega danska vísindafjelags 28. apríl 1910, dr. phil. honoris causa við háskólann í Kristíaníu 2. sept. 1911, kjörinn fjelagi í Göteborgs kongl. vetenskaps och vitterhets samhälle 9. des. 1912, brjefafjelagi í Kungl. vitterhets historie och antikvitets akademien í Stokkhólmi 3. nóv. 1914. Rit hans eru ítarlega talin í *Halldór Hermannsson: Catalogue* etc.

[Sjá sjerstaklega: Minningarrit fimmtíu ára afmælis hins lærða skóla í Reykjavík. Rv., 1896. — Óðinn VI. ár, bls. 25—27 (æviágrip eftir Jón Olafsson). — Halldór Hermannsson: Icelandic authors of to-day].

**7. Eiríkur Briem.** Fæddur 17. júlí 1846 á Melgraseyri á Langadalsströnd. Foreldrar: Eggert sýslumaður Briem og Ingibjörg Eiríksdóttir (Sverrissonar). Gekk í lærða skólann í Reykjavík og varð stúdent 1864, en cand. theol. frá prestaskólanum 1867 með 1. eink. Byskupsskrifari 1867—1874, vígðist 3. maí 1874 til prests að Þingeyraprestakalli, settur prófastur í Húnavatnsprófastsdæmi

12. ágúst 1876, en skipaður 17. júlí 1877, varð 2. kennari við prestaskólann 29. júlí 1880, 1. kennari við sama skóla 1. mars 1909, veitt lausn með biðlaunum, er prestaskólinn var lagður niður 1. okt. 1911, veitt prófessors nafnbót 17. nóv. 1911. Stundakennari í lærða skólanum 1881—1896 (í trúarbrögðum), í stærðfræði 1881—1883 og oft síðan um styttra tíma. — Þingmaður fyrir Húnvetninga 1880—1891, konungkjörinn þingmaður 1901 og síðan, forseti sameinaðs þings 1891, 1901, 1902, 1903, 1905 og 1907. Kvaddur í milliþinganefnd til að íhuga og gera tillögur um kirkjumál 22. apríl 1904. Yfirskoðunarmaður landsreikninganna fyrir 1892 og 1893, 1912 og 1913. Gæslustjóri Landsbankans frá stofnun hans til 1912 og aftur frá 1915. Framkvæmdarstjóri Söfnunarsjóðsins frá stofnun hans og síðan. Bæjarfulltrúi í Reykjavík 1883—1889. — Kosinn í stjórn neðannefndra fjelaga og stofnana: Hins íslenska Biblíufjelags 1891 og síðan, hins íslenska Fornleifafjelags 1887 og síðan, formaður síðan 1893, Búnaðarfjelags Suðuramtsins 1886—1899 og Búnaðarfjelags Íslands 1899—1909, Landsbókasafnsins 1886—1907, Lífsábyrgðarfjelags sjómanna 1904—1909, kvennaskóla Reykjavíkur 1882 og síðan,. hins íslenska Þjóðvinafjelags (varaforseti) 1881—1891, 1893—1897, 1903—1909, 1913 og síðan, styrktarsjóðs Hjálmars kaupmanns Jónssonar 1903 og síðan, sjúkrasjóðs hins íslenska Kvenfjelags 1905 og síðan. — Forseti Reykjavíkurdeildar Bókmenntafjelagsins 7. júní 1900 til 8. júlí 1904; heiðursfjelagi sama fjelags 27. apríl 1906. — Riddari af dannebroge 23. apríl 1901, kommandör 2. fl. 28. júlí 1906, dannebrogsmaður 9. ágúst 1907. — Kona: Guðrún Gísladóttir (læknis, Hjálmarssonar).



[Sjá sjerstaklega: Óðinn II. ár, 33.—35. bls. (æviágrip eftir Jón Ólafsson). Halldór Hermannsson: Icelandic authors of to-day. — Jóhann Kristjánsson: Alþingismannatal. — Minningarrit fimmtíu ára afmælis hins lærða skóla 1896].

**8. Kristján Jónsson.** Fæddur 4. mars 1852 á Gautlöndum við Mývatn. Foreldrar: Jón Sigurðsson og Solveig Jónsdóttir. Gekk í lærða skólann í Reykjavík og útskrifaðist þaðan með 1. einkunn 1870, cand. jur. 1. júní 1875 með 1. einkunn. Árið eftir fór hann á skrifstofu landfógetans, en varð sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu 16. ágúst 1878, 28. júlí 1886 2. assessor í landsyfirrjettinum, 16. apríl 1889 1. assessor, 30. maí 1908 justitiarius, ráðherra Ís-

lands frá 14. mars 1911 til 24. júlí 1912 og tók þá aftur við dómstjóraembætti. Auk þessa þjónaði hann amtmannsembætti sunnan og vestan sem settur frá 1. okt. 1891 til 30. júní 1894. Kosinn af efri deild endurskoðandi landsreikninganna 1889, 1891 og 1893 og hafði þann starfa á hendi í 6 ár. Gæslustjóri við Landsbankann frá 1898 til 1909. Aftur kjörinn gæslustjóri af efri deild alþingis 1911, en sagði þeirri sýslan af sjer, er hann varð ráðherra um það leyti. Bankastjóri í Íslandsbanka 1912—1914. Í niðurjöfnunarnefnd Reykjavíkur 1896—1902 og var formaður hennar. Í bæjarstjórn Reykjavíkur 1903—1910; formaður fátækranefndar (fátækrastjóri) 1905—1908. Kenndi kirkjurjett við prestaskólann 1889—1908. Konungkjörinn alþingismaður 1893—1903, þingmaður Borgfirðinga 1908—1913. Forseti efri deildar 1909. — Riddari af dannebroge 8. ágúst 1907, kommandör 2. fl. sömu orðu 3. júní 1912. Var mörg ár í stjórnarnefnd landsbókasafnsins til 1907, er fyrirkomulagi safnsins var breytt. Forseti Rvd. Bókmenntafjelagsins frá 8. júlí 1904 til 8. júlí 1909. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 16. apríl 1910. — Kona: Anna Þórarinsdóttir, prófasts, Böðvarssonar.



[Sjá sjerstaklega: Óðinn V. ár, bls. 1—2. — Magnús Stephensen: Lögfræðingatal. — Klemens Jónsson: Lögfræðingatal. — Jóhann Kristjánsson: Alþingismannatal].

## B. Forsetar Kaupmannahafnardeildarinnar.

I. **Rasmús Kristján Rask** (svo ritaði hann sjálfur nafn sitt á íslensku) er fæddur 22. nóv. 1787 í Brendekilde á Fjóni, rjett hjá Odense, og var af lágum stigum. Komst í latínuskólann í Odense 1801; útskrifaður þaðan til háskólans 1807. Gekk árið eftir undir svo kallað examen philologico-philosophicum. Eigi sinnti hann próflestri og tók aldrei embættispróf, en gaf sig allan við málfræði, hafði og snemma tekið að leggja stund á íslensku. 1808 komst hann að háskólabókasafninu í Kaupmannahöfn, en fekk engi laun. Varð aðstoðarmaður þar 1812 og undirbókavörður 1814, og var þá hjer á Íslandi (árin 1813—1815). Hlaut prófessorsnafnbót 1818, og konungsstyrk til Asíuferðar sama ár. Lagði af stað það ár austur eftir og fór um næsta ókunn lönd og rannsakaði tungumál. Kom aftur til Kaupmannahafnar 5. maí 1823.



Minnisvarði R. K. Rask's í Assistents-kirkjugarði í Kaupmannahöfn.

Skömmu síðar (1825) var honum boðið að verða bókavörður við Advocates Library, en ekki þá hann það boð (í hans stað varð Þorleifur Repp bókavörður þar). Þetta mun hafa dregið til þess, að hann var sama ár gerður að professor extraordinarius við Kaupmannahafnarháskóla í bókmenntasögu, sjerstaklega í fornbókmenntum Asíumanna. Varð og bókavörður við háskólabókasafnið í Kaupmannahöfn 1829; 1830 komst hann í stjórnarnefnd Árnasafns; 1831 varð hann prófessor extraordinarius í Austurlandamálum, sem hann hafði lengi þráð, en þá var heilsa hans á þrotum. Hann andaðist í Kaupmannahöfn 14 nóv. 1832, ókvæntur. — Var forseti Hd. Bókmenntafjelagsins 30. mars 1816 til 18. okt. 1816 og aftur 30. mars 1827 til 15. mars 1831. Formaður í norræna Fornritafjelaginu 1825—1828. Heiðursfjelagi Bókmenntafjelagsins 28. apríl 1818 og hlaut önnur sams konar virðingarmerki í fjölmörgum útlendum vísinda- og mennta-fjelögum.

[Sjá sjerstaklega: Björn Magnússon Ólsen: Rasmus Kristján Rask. 1787—1887. Minningarrit, Rv., 1888. — Rask: Samlede . . . Afhandlinger. I. Del. Kh. 1834 (ævisaga eftir N. M. Petersen). — Erslev: Forfatter-Lexicon. — Dansk biografisk Lexikon, útg. Bricka (æviágrip eftir Vilh. Thomsen).]

**2. Bjarni Thorsteinson.** Fæddur í Sauðhúsnesi í Álptaveri 31. mars 1781. Foreldrar: Þorsteinn Steingrímsson og Guðríður Bjarnadóttir. Gekk í Reykjavíkurskóla og útskrifaðist þaðan 1800; var síðan skrifari hjá Geiri byskupi Vídalín, en skrifaður í stúdentatölu við háskólann 1804; cand. jur. 24. okt. 1807 með 1. einkunn; komst þá í rentukammerið og varð kópíisti þar 2. júlí 1808, ritstofufulltrúi 10. júní 1811, sekretær að nafnbót 28. sept. 1816, jafnframt embætti sínu varð hann og auditör við sjóforingjaskólann 6. okt. 1819. Varð 2. assessor í yfirdóminum 29. sept. 1820, en þjónaði aldrei því embætti, því að hann var skipaður amtmaður í vesturamtinu 5. maí 1821 og kom ekki hingað til lands fyrr en þá um vorið; settur stiftamtmaður og amtmaður í suðuramtinu 30. sept. 1823 til 1824 og aftur 6. sept. 1825 til 7. júní 1826. Fekk lausn frá amtmannsembætti 2. mars 1849. — Sat í embættismannanefndinni í Reykjavík 1839 og 1841 og á alþingi 1845 sem konungkjörinn þingmaður og var forseti þingsins. — Riddari af dannebroge 1. ágúst 1829, dannebrogsmaður 10. júní 1841,



konferensráð að nafnbót 8. mars 1843. — Forseti Hd. Bókmenntafjelagsins 18. okt. 1816 til 30. mars 1819, í annað sinn 27. apríl 1820 til 30. mars 1821. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 30. mars 1827. — Kona: Þórunn Hannesdóttir, byskups. — Hann andaðist í Reykjavík 3. nóv. 1876.

[Sjá sjerstaklega: Ævisaga amtmanns Bjarna Þorsteinssonar skráð af honum sjálfum (Tímarit Bmf. 24. ár. Rv. 1903). — Magnús Stephensen: Lögfræðingatal — Bloch: Stiftamtmænd og Amtmænd i Kongeriget Danmark og Island 1660—1848. Kh., 1895].

**3. Finnur Magnússon.** Fæddur 27. ágúst 1781 í Skálholti í Byskupstungum. Foreldrar: Magnús lögmaður Ólafsson og Ragnheiður Finnsdóttir, byskups. Naut kennslu Hannesar byskups, móðurbróður síns, til þess er byskup andaðist 1796. Útskrifaður úr heimaskóla af Geiri byskupi Vídalín og sigldi samsumars til Kaupmannahafnar, en komst þangað ekki fyrr en um jól, var tekinn í stúdentatölu við háskólann vorið 1798 og tók síðan 1. og 2. lærdómspróf; þoldi illa loftslagið í fyrstu, og hvarf því heim aftur, en fór aftur utan jafnharðan og tók að lesa lögfræði, sem hann hafði byrjað á áður, hvarf þó til Íslands aftur, er faðir hans andaðist árið 1800. Dvaldist í Reykjavík frá 1803—1812 og varð málaflutningsmaður við landsyfirrjettinn 30. apríl 1806, vikið frá því embætti af Jörgen Jürgensen og dæmdur af honum óverðugur til að gegna embættum eða flytja mál fyrir dómstólum landsins; fekk þó aftur embætti sitt er Jürgensen fór. Sigldi sumarið 1812 til Kaupmannahafnar og tók að leggja sig eftir fornfræði. Útnefndur prófessor af Friðreki VI. 28. sept. 1815, og tók hann árið eftir að flytja fyrirlestra við Kaupmannahafnarháskóla í fornbókmenntum og goðafræði Norðurlanda. 10. jan. 1818 var hann gerður professor extraordinarius og honum boðið að halda áfram fyrirlestrum sínum með konungsboði 10. apríl 1819 og hjelt hann því embætti til 1829. Jafnframt varð hann aðstoðarmaður Gríms Thorkelíns í leyndarskjalasafninu 24. sept. 1823 og eftirmaður Gríms eða konunglegur leyndarskjalavörður 10. apríl 1829. Varð riddari af dannebroge 1. nóv. 1828, dannebrogsmaður 28. okt. 1836, riddari af St. Önnu-orðu, rússneskri, 2. fl. 1843, etatsráð að nafnbót 4. júní 1839, riddari af heiðursfylkingunni frakknesku 26. apríl 1845, prússnesku rauða-arnarorðunni, 3. fl., í júní 1845 og af sænsku norðstjörnuorðunni 1846. — Var 27. des. 1816



skipaður í nefndina til þess að sjá um varðveislu fornmenja ríkisins, í Árnasafnsnefnd 1822, skrifari þeirrar nefndar frá 1829. Forseti Hd. Bókmenntafjelagsins frá 30. mars 1819 til 27. apríl 1820, í annað sinn frá 30. mars 1821 til 30. mars 1827, í þriðja sinn frá 27. mars 1839 til dauðadags. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 3. apríl 1827, kjörinn fjelagi í »det skandinaviske Literatur-Selskab 15. maí 1813, varaformaður og í ritaútgáfunefnd hins norræna fornfræðafjelags frá 1828 til dauðadags; kjörinn fjelagi í danska vísindafjelaginu 8. janúar 1830 og átti frá 14. apríl 1837 sæti í skjalanefnd þess fjelags. Kjörinn fjelagi í »det kgl. danske Selskab for Fædrelandets Historie og Sprog« 25. mars 1830, heiðursfjelagi fornfræðafjelagsins í Newcastle upon Tyne, fjelagsins »för Skånes historie och beskrifning« 14. mars 1845, þjóðernisminjafjelaginu í Breslau, vísinda-akademíinu í Palermo, kjörinn meðlimur í Norðurlandasögufjelaginu í Stokkhólmi, vísinda-akademíinu sama staðar, vísindafjelaginu í Uppsölum (4. maí 1845), fornfræðafjelaginu í París og Edinborg, og jafnvel enn fleiri útlendum fjelögum. — Hann sat í nefnd þeirri 1832, er undirbjó stjettaþingin, og var fulltrúi Íslands og Færeyja á stjettaþingunum í Hróarskeldu 1835—1836, 1838, 1840 og 1842. Hann hafði á hendi þýðing á lagaboðum fyrir Ísland frá konungi og stjórnarráðum frá 1830 til dauðadags og almanaksins 1837—1845. — Kona: Nicoline Dorothea Barbara, dóttir Frydensberg, landfógeta. — Hann andaðist í Kaupmannahöfn 24. des. 1847.

[Sjá sjerstaklega: Th. H. Erslev: Udsigt over Finn Magnusen's Levnet og skrifter. Kh., 1844. — Sami: Supplement til »Almindeligt Forfatter Lexicon«. Kh. 1864. — Ný Fjelagsrit, IV., bls. V—XII. (ævisaga F. M. eftir Grím Thomsen). — Oversigt over det Kongelige danske Videnskabernes Selskabs Forhandlinger . . . 1850. Nr. 5 og 6 (ævisaga F. M. eftir N. M. Petersen)].



**4. Þorgeir Guðmundsson.** Fæddur á Ólafsvöllum á Skeiðum 27. des. 1794. Foreldrar: Guðmundur prestur Jónsson (síðar á Staðastað) og Þorbjörg Jónsdóttir. Hann lærði fyrst heima hjá föður sínum, kom í Bessastaðaskóla 1809 og útskrifaðist þaðan 1814. Var síðan um hríð skrifari hjá Magnúsi konferensráði Stephensen í Viðey, sigldi til Kaupmannahafnar og var skrifaður í stúdentatölu við háskólann 18. okt. 1819 með 1. einkunn, tók annað lærdómspróf 1820 með sömu einkunn, las í fyrstu læknisfræði, en hætti við það nám og lagði sig eftir guðfræði og tók embættispróf 29. okt. 1824 með 2. ein-

kunn, en í prjedikunarfræði og trúkennslufræði tók hann próf 1826 með 1. einkunn. Hann var settur kennari við sjóforingjaskólann 27. des. 1827 og varð síðar yfirkennari þar og jafnframt 3. kateket við Brimarhólmssöfnuð 29. des. 1830, 2. kateket 29. ágúst 1835 og prestvígður 25. sept. 1835, fekk Glólundar og Grashaga prestakall á Lálandi 1. jan. 1839 og Nysted og Herredslev á Lálandi 8. febr. 1849. — Hann var um tíma stipendiarius Arnamagnæanus og starfaði að útgáfu rita í hinu norræna fornfræðafjelagi. — Forseti Hd. Bókmenntafjelagsins 15. mars 1831 til 27. mars 1839. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 22. apríl 1839. — Kona: Maria Langeland. — Hann andaðist í Nysted 28. jan. 1871.

[Sjá sjerstaklega: Erslev: Almindeligt Forfatter-Lexicon, ásamt Supplement. — Hannes Þorsteinsson: Guðfræðingatal].

5. **Brynjólfur Pjetursson.** Fæddur á Víðivöllum í Skagafirði 15. apríl 1810. Foreldrar: Pjetur prófastur Pjetursson og síðari kona hans Þóra Brynjólfsdóttir. Gekk í Bessastaðaskóla og útskrifaðist þaðan 1828; sigldi til háskólans í Kaupmannahöfn árið eftir og tók þá 1. lærdómspróf og árið eftir 2. lærdómspróf, bæði með 1. einkunn; tók lögfræðapróf 29. apríl 1837 með 1. einkunn. Hann komst síðan í rentukammerið og vann þar í fyrstu launalaust, en varð launaður 4. mars 1841; fekk veiting fyrir Skaftafellssýslu 9. apríl 1844, en fór þangað eigi; varð ritstofufulltrúi í rentukammerinu 25. apríl 1845; kammerassessor að nafnbót 22. jan. 1847; forstöðumaður hinnar íslensku stjórnardeildar 10. nóv. 1848. Jústisráð að nafnbót 8. des. s. á. — Konungkjörinn fulltrúi fyrir Ísland á grundvallarlagasamkomu Dana 1848—1849, var þá einn af skrifurum samkomunnar og átti sæti í sjálfri grundvallarlaganefndinni. — Forseti Kaupmannahafnardeildarinnar frá 4. mars 1848 til 31. maí 1851. Var einn af stofnendum í »det nordiske Literatursamfund« 23. jan. 1847 og einn í stjórnarnefnd þess fjelags. — Hann andaðist á St. Hans-spítala hjá Hróarskeldu 18. okt. 1851, ókvæntur.

[Sjá sjerstaklega: Th. H Erslev: Supplement til »Almindeligt Forfatter-Lexicon« . . . Kh., 1864. — Magnús Stephensen: Lögfræðingatal].

6. **Jón Sigurðsson.** Fæddur á Rafnseyri í Arnarfirði 17. júní 1811. Foreldrar: Sigurður prestur Jónsson og Þórdís Jónsdóttir. Hann nam skólalærdóm allan af föður sínum, en fór vorið 1829 til Reykjavíkur og var þá útskrifaður úr heimaskóla af Gunnlaugi dómkirkjupresti Oddssyni. Næsta ár var hann við verslun í Reykjavík, en vorið 1830 varð hann skrifari hjá Steingrími byskupi Jónssyni í Laugarnesi og hjelt því starfi til 1833. Það sumar sigldi hann til Kaupmannahafnar á háskólann, tók 1. lærdómspróf það ár og 2. lærdómspróf árið eftir, bæði með 1. einkunn. Hann lagði stund á forntungurnar og sögu

Þó að þessi hersáður mundi sje "steinharður" þá getur þú, ef þú villt, snúið þeim steini í brauð, því sigurráðið er góður vilji. Jeg segi þjer það satt, að þessi ísaþoka, sem þjer þykir yfir mjer vera, er ekki annað enn glampinn af hárinu á mjer. Jeg skil ekki hvar þú hefur augun þín góðu, að þú skulir ekki geta sjeð gegnum þokuna á land upp, að þar er enn hlývindi og auð jörð, og að þú átt þar enn óðal þitt óskaddað.

Þinn

Br. Pjetursson.

Niðurlag að brjefi frá Brynjólfi Pjeturssyni til Gríms Thomsens, dags. 6. des. 1846.
Mynd af Brynjólfi reyndist ófáanleg.

við háskólann, en eigi leysti hann af hendi embættispróf. Stipendiarius Arnamagnæanus varð hann 1835, varð skrifari þeirrar nefndar 1848 og hjelt því starfi til dauðadags. Skjalavörður við hina íslensku deild hins sögulega og fornfræðilega skjalasafns 1847—1849. Skjalavörður og bókavörður í hinu konunglega norræna fornfræðafjelagi frá 1847 til 1865. — Alþingismaður Ísfirðinga 1845—1877, forseti alþingis 1849, 1853, 1857, 1865—1873, forseti sameinaðs þings 1875 til 1877, forseti neðri deildar 1875—1877. Konungkjörinn fulltrúi Íslands á grundvallarlagasamkomu Dana 1848—1849. — Riddari af dannebroge 1. janúar 1859. — Forseti Kaupmannahafnardeildar Bókmenntafjelagsins frá 31. maí 1851 til dauðadags. Kjörinn heiðursfjelagi sama fjelags 10. febr. 1853, kjörinn fjelagi í hinu konunglega vísindafjelagi í München 1866. — Kona: Ingibjörg Einarsdóttir. — Hann andaðist í Kaupmannahöfn 7. des. 1879.



[Sjá sjerstaklega: Andvari VI. ár, Kh. 1880 (Yfirlit yfir æví Jóns Sigurðssonar eftir Eirík Briem). — Tímarit hins ísl. Bókm.fjel. III. árg., Rv. 1882 (Um vísindalega starfsemi Jóns Sigurðssonar og forstöðu hans fyrir hinu íslenska Bókmenntafjelagi, eftir Jón Þorkelsson). — Bricka (útg.): Dansk biografisk Lexicon (ævisaga J. S. eftir Kr. Kålund)].

**7. Sigurður Laurentius Jónasson.** Fæddur á Auðunarstöðum í Víðidal 7. apríl 1827. Foreldrar: Jónas hreppstjóri Jónsson og Hólmfríður Sigurðardóttir. Gekk í latínuskólann í Reykjavík og útskrifaðist þaðan 1851. Var um hríð við verslun á Akureyri. Sigldi síðan til Kaupmannahafnar og tók þar examen artium 1853(?) og annað lærdómspróf 1854—55, síðastur allra, er það próf tók, eftir því sem verið hafði um langan tíma. Hann las lög, en tók eigi próf. Árið 1856 ferðaðist hann með Dufferin lávarði hjer um land. Árið eftir (1857) varð hann skrifari í utanríkisráðuneyti Dana og hjelt því starfi nálega til dauðadags, en hjelt fullum launum, er hann fór frá.



Í Reykjavík hófst hátíðin með því, að stjórn Bókmenntafjelagsins gerði sjer ferð suður að Görðum á Álftanesi kl. 9 árdegis og lagði krans á leiði Árna byskups Helgasonar þar í kirkjugarðinum. Hafði stjórnin áður látið gera við minnisvarða hans, sem var farinn að bila.

---

Þá var haldin hin eiginlega *minningarhátíð* í neðrideildarsal Alþingis kl. 1 síðdegis. Var fyrst fluttur I.—V. kafli af Kvæðaflokki þeim, sem prentaður er hjer á eftir og Þorsteinn skáld Gíslason hafði ort. Gengust þeir Árni tónskáld Thorsteinsson og Ólafur ritstjóri Björnsson fyrir söngnum með söngflokki, sem þeir höfðu góðfúslega safnað og Thorsteinsson æft, og ljek frú Ásta Einarsson undir IV. kafla ljóðanna, en docent Jón Jónsson flutti lesljóðin.

Þá hjelt forseti fjelagsins svo látandi

## Ræðu:

**Háttvirtu fjelagsbræður!**
**Jeg óska ykkur alla velkomna.**

**»Megir Íslands, menntum sem að unnið,**
**minning oss á þennan kvaddi fund.**
**Meðan sjónir mæla skeiðið runnið,**
**merkissteinn er þessi gleðistund«.**

Svo kvað Stgr. Thorsteinsson á 50 ára afmæli fjelags vors árið 1866. Síðan eru nú aftur liðin 50 ár og fjelagið hefur náð 100 ára aldri. Nú á þessari »gleðistund«, við þennan »merkisstein« á æfiferli fjelagsins býðst oss tækifæri til að renna huga vorum aftur á bak yfir hið runna skeið og mæla það með sjónum vorum. Jeg skal þó ekki þreyta ykkur á að rekja sögu fjelagsins út í

neinar æsar — til þess mundi tíminn ekki vinnast, enda verður sagan sögð greinilega í Minningarriti, sem mun koma út innan fárra daga og verða sent fjelagsmönnum. Jeg mun því að eins drepa lauslega á helstu atriðin, og sný jeg mjer fyrst að *stofnun fjelagsins.*

Árið 1813 um miðjan ágúst, ef til vill þennan sama dag, bar hingað að Reykjavík góðan gest, Rasmús Kristján Rask, hinn danska vísindamann, sem síðan varð heimsfrægur af tungumálauppgötvunum sínum. Hann hafði þegar á uppvaxtarárum sínum tekið ástfóstri við íslenska tungu. Hann hafði þá fyrir 2 árum gefið út íslenska málfræði, sem nefnist »Vejledning til det islandske eller gamle nordiske sprog« (Kh. 1811). Um þá bók hefur verið sagt, að hún hafi gert »eigi minni bylting í ísl. málfræði en Copernicus gerði í stjörnufræðinni«[1]). Í henni skapar Rask hina ísl. málfræði frá rótum. Nú kom þessi maður hingað í fullu fjöri æskunnar, 25 ára að aldri, með hjartað fullt af ást til hinnar fögru tungu vorrar, til að heyra sjálfur hvernig hún hljómaði á vörum þjóðarinnar. Og honum brá heldur en ekki í brún, þegar hann fór að tala við Reykvíkingana, sem fyrstir urðu á vegi hans. Hann lýsir því sjálfur með svofelldum orðum í brjefi til vinar síns Bjarna Thorsteinssonar, rituðu rjett eftir hingaðkomuna: »Annars þjer einlæglega að segja held jeg, að íslenskan bráðum muni útaf deyja; reikna jeg, að varla muni nokkur skilja hana í Reykjavík að 100 árum liðnum, en varla nokkur í landinu að öðrum 200 árum þar upp frá, ef allt fer eins og hingað til *og ekki verða rammar skorður við reistar* — jafnvel hjá bestu mönnum er annaðhvert orð á dönsku«.

Í sambandi við þetta, skal jeg benda á, að í 1. grein hinna elstu laga Bókmenntafjelagsins, sem Rask hefur samið, segir svo: »Það er tilgangur fjelags þessa að *viðhalda*[2]) hinni ísl. tungu og bókaskrift«. Í þessu orði »að *viðhalda*« lýsir sjer hræðsla um, að málið muni líða undir lok, sama hræðslan sem kemur fram í brjefinu til Bjarna Thorsteinssonar. Í orðum brjefsins »ef ekki eru rammar skorður við reistar«, rituðum skömmu eftir að Rask steig af skipsfjöl, felst vísirinn til stofnunar Bókmenntafjelagsins í huga Rasks. Hann vildi »reisa rammar skorður« við hnignun málsins fagra, sem hann elskaði eigi síður en móðurmál sitt. Og honum kom til hugar að eini vegurinn væri sá, að Íslendingar sjálfir, allir bestu menn þjóðarinnar, tæki höndum saman og mynduðu eitt öflugt fjelag til að »viðhalda« móðurmáli sínu. Næsta vetur eftir jól fór hann úr Reykjavík upp að Reynivöllum í Kjós til vinar síns Árna Helgasonar, sem þá var þar prestur, og dvaldi hjá honum það sem eftir var

1) R. K. Rask: Minningarrit 1787—1887, 40. bls.

2) Síðar (1851) voru orðin »styðja og styrkja« sett í stað þessa orðs laganna.

vetrar, og hafði hann þá gott tækifæri til að ræða við Árna um þessa hugmynd sína að stofna fjelag til að »reisa skorður« við hnignun íslenskunnar. Urðu þeir vinirnir vel ásáttir um málið og kom saman um, að Rask skyldi á ferðum sínum um landið safna loforðum um árleg tillög til hins fyrirhugaða fjelags, en Árni veita viðtöku því sem safnaðist. Það var ekki auðhlaupið að því að stofna slíkt fjelag hjer á landi, eins og þá stóð á. Hinn mikli Norðurálfuófriður stóð enn yfir, þegar Rask kom út, og því miður var Danaveldi flækt í hann og losnaði ekki úr honum fyr en í Kielarfriðnum 14. jan. 1814, einmitt um það leyti sem þeir Rask og Árni Helgason voru að bræða fjelagsstofnunina á Reynivöllum og vissu þá ekki annað en að ófriðurinn geisaði enn, því að friðarfregnin hefur ekki borist hingað fyr en með vorskipum. Styrjöldin hafði haft mjög alvarlegar afleiðingar fyrir land vort sakir ónógra aðflutninga, verðfalls peninga, ríkisgjaldþrotanna og þar af leiðandi bankahruns í Danmörku, sem varð til þess að margir töpuðu stórfje og sumir aleigu sinni. Það var því ekki árennilegt að knýja á dyr almennings til samskota um þessar mundir. Ýmsir fleiri örðugleikar voru og á því að stofna fjelag, sem átti að ná yfir allt landið. Vegir voru engir nema þeir, sem hestafætur höfðu troðið, samgöngur ógreiðar, póstferðir mjög fátíðar o. s. frv. En þeir fjelagar Rask og Árni ljetu sjer ekki þetta fyrir brjósti brenna. Þeir treystu því, að málefnið var gott og sigursæll góður vilji. Rask ferðaðist um landið tvö sumur eftir þetta, 1814 og 1815, og varð talsvert ágengt að safna tillagaloforðum. Það var honum og til mikils stuðnings, að Geir byskup Vídalín beittist fyrir málið með þeim fjelögum, sendi boðsbrjef til fjelagsstofnunar, sem Rask hafði samið, til allra prófasta landsins og veitti því öflug meðmæli við prestastjettina.

Þegar Rask hafði komið fótum undir fjelagsstofnunina hjer á landi, fór hann heim til Kaupmannahafnar síð sumars 1815 og bað Árna Helgason fyrst um sinn taka við forstöðu fjelagsins hjer ásamt þeim Sigurði landfógeta Thorgrímsen og Halldóri sýslumanni Thorgrímsen. Þegar heim kom til Kaupmannahafnar, gekkst Rask fyrir því, að þar var stofnað samskonar fjelag, sem bæði Íslendingar í Höfn og Danir gengu í, og var haldinn stofnfundur þar 30. mars 1816 og embættismenn kosnir — Rask auðvitað forseti — en lög voru samþykkt á fundi 13. apríl 1816, og var í þeim ætlast til að bæði fjelögin, þetta í Höfn og hitt, sem myndað var í Reykjavík, yrði eitt fjelag í 2 deildum. Voru því lögin send Reykjavíkurfjelaginu til samþykktar. Það hjelt stofnfund og valdi sjer embættismenn 1. ágúst 1816 — var Árni Helgason kjörinn forseti — en flest í lögunum og þar á meðal það ákvæði þeirra, að fjelögin skyldu sameinast og vera tvær deildir í einu fjelagi, var samþykkt á fundi 15. ágúst 1816;

þá fyrst mátti heita, að fjelagið í heild sinni væri stofnsett að fullu, og því höldum vjer nú 100 ára afmæli fjelagsins.

Árangurinn af fjársöfnun Rasks til fjelagsins sjest best á því, að á hinu fyrsta ári þess bárust því alls 1550 rbd. n. v. í tillögum frá Íslandi, en 800 rbd. n. v. frá Danmörku. Þegar tekið er tillit til þess, hvernig þá stóð á hjer á Íslandi, gegnir það mestu furðu, hve mikið safnaðist hjer, einkum þar sem svo var til ætlast, að fjelagsmenn skyldu ekkert fá í aðra hönd fyrir tillag sitt — þeir urðu lengi vel framan af að kaupa bækur þær sem fjelagið gaf út fullu bókhlöðuverði eins og utanfjelagsmenn.

Orsökin til þess að fjelagið var haft í tveim deildum, annari í Reykjavík, hinni í Höfn, liggur í augum uppi. Reykjavík var þá enn í barndómi, ekki annað en lítið þorp, og þó að hún ætti að heita höfuðstaður landsins þá átti hún langt í land til að verða sú miðstöð hins andlega lífs hjer á landi, sem hún síðar varð. Hjer á landi var þá ekki nema ein prentsmiðja, sem Landsuppfræðingarfjelagið átti. Var því enginn vegur að fá neitt prentað hjer, nema fjelagið setti á fót prentsmiðju handa sjer. Aftur á móti var hægt að fá allt prentað, sem maður vildi, í Khöfn. Frá Reykjavík voru og engar þær samgöngur við aðra parta landsins, að unt væri að senda þaðan bókasendingar út um land. En frá Höfn mátti koma bókasendingum til flestra hafna á landinu. Ef ekki hefði verið sjerstök deild af fjelaginu í Höfn, hefði það þó orðið að hafa þar framkvæmdarstöð, sem hefði orðið því dýr. Það var því vel ráðið eins og þá stóð á að hafa fjelagið í 2 deildum, og það var fyrirsjáanleg og eðlileg afleiðing af ástandinu sem þá var hjer heima og í Kaupmannahöfn, að Hafnardeildin mundi fyrst í stað draga til sín svo að segja allar framkvæmdir fjelagsins, svo sem prentun bóka og útsending. En framsýni Rasks og góðvild hans til Íslands lýsir sjer í því, að hann þrátt fyrir þetta fjekk það sett í lögin, að Reykjavíkurdeildin skyldi vera aðaldeild fjelagsins og Hafnardeildinni fremri að virðingu, og að heldur skyldi prenta og binda bækur á Íslandi en í Höfn, ef það gæti orðið fjelaginu að skaðlausu.

Svo var þá fjelagið vel og farsællega komið á legg og megum vjer í dag minnast þeirra manna sem að stofnuninni unnu með innilegu þakklæti og virðingu, bæði hinna mörgu sem lögðu fram rífleg tillög til fjelagsins, margir af litlum efnum, og þó einkum þeirra tveggja manna, sem fyrstir allra gengust fyrir því að koma fjelaginu á fót og lögðu sig alla fram í því efni, fyrst og fremst Rasks, sem átti upptökin, og þar næst Árna Helgasonar, sem var Rasks önnur hönd við fjelagsstofnunina hjer á landi. Það er því ekki ófyrirsynju, að fjelagsstjórnin hefur gert ráðstöfun til þess, að krans sje lagður á leiði þessara tveggja manna nú í dag. Hefur Þorvaldur Thoroddsen lofað að sjá um, að

fjelagsbræður vorir í Höfn inni af hendi þessa þakkarskyldu við Rask og er líklegt, að sú athöfn standi nú yfir eða sje ef til vill um garð gengin. Og í morgun hefur fjelagsstjórnin farið suður að Görðum á Álftanesi og lagt krans á leiði Árna Helgasonar, en áður hafði hún látið gera við minnisvarðann, sem var farinn að bila, og mun sjá um, að gert verði við grindurnar kringum leiðið.

Jeg vil biðja menn að minnast þessara og annara stofnanda fjelagsins með því að standa upp.

Þá skal jeg drepa í sem fæstum orðum á helstu atriðin í *sögu* fjelagsins frá stofnun þess til vorra daga.

Fyrsta tímabilið í sögu fjelagsins má telja frá stofnuninni til sumarsins 1851, þegar Jón Sigurðsson er kosinn forseti Hafnardeildarinnar. Árni Helgason er forseti Rvd. allan þennan tíma, nema 3 síðustu árin er Pjetur, síðar byskup, Pjetursson forseti. Hefur enginn gegnt forsetastörfum jafnlengi og Árni. En í Hafnardeild voru þessir forsetar: Rask, Bjarni Thorsteinsson, Finnur Magnússon, Þorgeir Guðmundsson og Brynjólfur Pjetursson, allir saman ágætir menn. Fjársöfnunin handa fjelaginu hafði gengið svo vel, að það gat tekið til starfa þegar eftir stofnunina og farið að gefa út bækur. Fyrstu rit sem fjelagið gaf út voru ársrit fjelagsins, sem var kallað *Íslensk sagnablöð*, og Sturlunga og Árna byskups saga. Kom fyrsti árgangur af ársritinu út vorið 1817 og síðan kom það út á hverju ári til 1826 — alls 10 árgangar — en þá skifti tímarit þetta um nafn og var kallað *Skírnir* og kemur það út enn í dag undir því nafni og er víst eitt hið elsta tímarit á Norðurlöndum. Jafnframt rjeðst fjelagið og í það stórvirki að gefa út Sturlungu og Árna byskups sögu meðfram fyrir hvatir hins nafnfræga öðlings Byrgis prófessors Thorlaciusar, sem lagði ríflegan styrk til útgáfunnar. Gat fjelagið varla valið rit, sem var betur fallið til að opna augu manna fyrir fögru máli og vera fyrirmynd í því efni, en þessi rit frá gullöld bókmennta vorra. Útgáfunni var lokið á 4 árum (1820). Einn af þeim mönnum, sem sáu um útgáfuna, var Sveinbjörn Egilsson, og var það hans fyrsta starf í fornískenskum fræðum, sem hann varð síðar svo mikill meistari í, og má ætla, að það hafi fyrst dregið huga hans að þeim efnum, og víst er það, að orðfærið á Sturlungu og öðrum sögum vorum var honum fyrirmynd að hinu fagra ritmáli, sem hann skapaði, þegar hann sneri kvæðum Hómers á íslensku. Nokkru síðar (1820) rjeðst fjelagið í annað stórvirki ekki minna, en það var að gefa út Árbækur Espólíns, sem er nokkurs konar framhald af Sturlungu og rekur sögu landsins fram á daga höfundarins. Þetta rit hefur síðan verið leiðarsteinn allra þeirra sem fengist hafa við sögu lands vors á síðari öldum, og jafnframt er það ritað á hreinu og fögru sögumáli,

sem hafði mikil áhrif í þá átt að hreinsa og bæta íslenskuna. Með útgáfu þessara 2 rita, Sturlungu og Árbóka Espólíns, bjó fjelag vort því að nokkru leyti í haginn fyrir Fjölnishreyfinguna, sem hófst á 4. áratug 19. aldarinnar. En jafnframt gaf fjelagið á árunum 1820—1830 út ýms önnur rit, svo sem Landafræði Gunnlaugs Oddssonar, ágæta bók fyrir sinn tíma, Ljóðmæli Stefáns Ólafssonar, Paradísarmissi Miltons, þýddan af Jóni Þorlákssyni, Grasafræði Odds Hjaltalíns o. fl. Eftir 1830 verður bókaútgáfan nokkuð strjálli um hríð, og kemur það af því, að fjelagið tekur þá að sjer að styðja Björn Gunnlaugsson í því að mæla landið og koma uppdráttum landsins þeim er hann gerði á prent, en það var mjög kostnaðarsamt fyrirtæki og hefði orðið fjelaginu um megn, ef það hefði ekki fengið ríflegan styrk til þess frá sjórninni. Þetta er eitthvert hið þarfasta verk, sem Bókmfjel. hefur unnið að, og er bæði Birni Gunnlaugssyni og fjelaginu til ævarandi sóma. Má geta þess, að hinir dönsku hermenn, sem hafa mælt landið á síðari tímum, dást mjög að uppdrætti Björns. Uppdrættirnir komu út, hinn stærri 1845, en hinn minni 1849. Meðan á þessu kostnaðarsama verki stóð, gaf þó Bókmenntafjelagið út ýms merk rit, svo sem Messías Kloppstokks í þýðingu Jóns Þorlákssonar (1834—38), Frumparta íslenskrar tungu eftir Konráð Gíslason (1846), og kvæði þjóðskáldanna Bjarna og Jónasar, sem höfðu svo mikil áhrif á kveðskap Íslendinga á síðari hlut 19. aldar (1847), auk ýmsra smærri rita. Enn fremur gekkst fjelagið fyrir því á þessum árum, að fá sýslumenn og presta til að semja sýslna- og sókna lýsingar og senda fjelaginu, og varð úr því mikið safn og merkilegt sem nú er geymt í Landsbókasafninu, og hefur orðið ýmsum að notum (t. d. dr. Kr. Kålund í Íslandslýsingu hans).

Á þessu tímabili (1816—1851) hlóðust næstum því allar framkvæmdir fjelagsins, bæði um bókaútgáfu, útsending bóka og innheimtu tillaga á Hafnardeildina af þeim ástæðum, sem jeg áður tók fram. Það varð smám saman að venju, að Hafnardeildin innheimti eigi að eins öll tillög erlendra manna, heldur og flest af tillögum manna hjer á landi, en Reykjavíkurdeildin innheimti að eins tillögin úr Reykjavík og þar í grend, og sendi þó mest af þeim til Hafnardeildar til útgjalda fjelagsins þar. Hún varð því í reyndinni nokkurs konar innheimtustofnun fyrir Hafnardeildina í Reykjavík og þar í grendinni eða hennar stærsti umboðsmaður hjer á landi. Við þetta drógust mestallar árstekjur fjelagsins til Hd. og þeim fylgdu auðvitað framkvæmdirnar. Samt safnaði Rvd. smátt og smátt nokkrum sjóði af sínum litlu árstekjum, og oft sendi hún Hd. góðar tillögur til framkvæmda, sem Hd. tók til greina. T. d. átti Rvd. frumkvæðið að landsmælingarfyrirtækinu. En það er ekki fyr en seint á þessu tímabili, árið 1846, að Rvd. fer að gefa út nokkuð hjer heima. Stendur þetta

eflaust í sambandi við það, að landsprentsmiðjan var flutt til Rvíkur 1844, svo að þá fyrst var unt að fá hjer bækur prentaðar, en meðfram stafar þessi röggsemi deildarinnar af því, að Reykjavík var þá vaxinn nokkuð fiskur um hrygg og meiri kostur þar á ritfærum mönnum, en áður hafði verið. Fyrsta bókin, sem Rvd. gefur út, eru Skýringar yfir fornyrði Lögbókar eftir Pál Vídalín, og sá Þórður Sveinbjörnsson um útgáfuna (1846—1854).

Það sem gerði að fjelagið gat afkastað svo miklu á þessum fyrstu árum sínum og þó safnað allmiklum sjóði (1837: 12,800 kr.) var aðallega tvent: það greiddi framan af engin ritlaun og ljet fjelagsmenn ekki fá neinar bækur fyrir tillög sín. Hvorugt gat gengið til lengdar, og seint á þessu tímabili kemst breyting á þetta. Frá 1840 fer fjelagið að greiða ritlaun og 1845 er samþykkt að láta fjelagsmenn fá bækur fjelagsins ókeypis. Það hafði sannast á fjelaginu að »leiðir verða langþurfamenn«. Af því að menn fengu ekkert fyrir tillög sín, gengu margir úr fjelaginu, einkum á Íslandi. Á hinum fyrstu árum hafði fjelögum fjölgað óðum og komst fjelagatalan á Íslandi brátt upp í 600, sem var mjög há tala um þær mundir eftir þeim mannfjölda, sem þá var, en um 1837 voru fjelagsmenn á Íslandi komnir niður í — segi og skrifa — 28, og var það mjög ískyggilegt. Menn vonuðu, að þetta mundi lagast og fjelögum fjölga, ef fjelagið tæki upp þann sið að láta fjelaga fá bækur fyrir tillag sitt, og sú varð líka raunin á, þegar fram liðu stundir.

Annað tímabil í sögu fjelagsins tel jeg stjórnarár Jóns Sigurðssonar sem forseta í Hafnardeildinni 1851—1879. Þessi ár marka djúpt spor í sögu fjelagsins. Jón Þorkelsson rektor, sem þó hafði átt í töluverðri deilu við Jón Sigurðsson út af fjelagsmálum, ann honum þess sannmælis, »að enginn af forsetum Bmfjel. hafi verið jafnduglegur og Jón Sigurðsson og að undir einskis forseta stjórn hafi fjelagið gefið út svo margar og merkilegar bækur«. Jeg hef áður ritað allgreinilega um starf Jóns Sigurðssonar fyrir Bókmf. í Skírni 1911 og get jeg vísað til þess og til Minningarrits þessa afmælis. Hjer skal að eins drepið á hið merkilegasta.

Jón Sigurðsson sá fram á það, að besta ráðið til að fjölga fjelagsmönnum og halda þeim í fjelaginu var að láta þá fá á ári hverju svo mikið í bókum sem svaraði árstillagi þeirra eða ríflega það. Þetta markmið setur hann sjer frá upphafi og kemur því í framkvæmd frá árinu 1853 og hefur það haldist síðan. Bókaútgáfuna, sem hafði næstu ár á undan legið mikið til í dái, eykur hann stórum. Skömmu eftir að Jón tekur við stjórn Hd. fer sú deild að snúa sjer að útgáfu stórra safnrita um sögu Íslands og bókmenntir, landshagi og stjórnarmálefni. Þessi rit eru Safn til sögu Íslands og ísl. bókmennta, Íslenskt fornbrjefasafn, Byskupasögur, Skýrslur um landshagi á Íslandi og Tíðindi um

stjórnarmálefni Íslands. Jón Sigurðsson átti ekki frumkvæðið að öllum þessum framkvæmdum sjálfur — það var Gísli Brynjólfsson, sem átti fyrstu hugmynd að Safni t. s. Ísl. og Jón Pjetursson að Fornbrs. — en hann kom öllu þessu í verk og átti sjálfur drýgstan þáttinn í flestum þessum safnritum. Það þarf ekki að taka það fram, hve mikla vísindalega þýðingu Safn, Biskupasögur og Fornbrjefasafnið hafa fyrir sögu vora og bókmenntir. Að Safni vann Jón mikið sjálfur og hefur fjelagið haldið því riti áfram jafnan síðan, þó að hlje hafi á orðið með köflum; í Byskupasögum 1. bindi á hann útg. Kristnisögu, en Guðbr. Vigfússon hitt, og í síðara bindinu á Jón ýmsa merkilega söguþætti um siðaskiftin; um hið fyrsta bindi Fornbrjefasafnsins annaðist hann eingöngu sjálfur og auðnaðist að lúka við 1. bindið, en ljet eftir sig stórmikið safn til framhaldsins, og var það ómetanlegur stuðningur fyrir þann mann, sem hjelt verkinu áfram eftir Jón látinn, dr. Jón Þorkelsson yngra. Til Skýrslna um landshagi og Tíðinda um stjórnarmálefni útvegaði hann riflegan styrk hjá stjórninni, svo að þau rit urðu fjelaginu ekki þung byrði. Þessi rit voru nauðsynlegt skilyrði fyrir því, að bæði Jón Sigurðsson og aðrir, sem við landsmál fengust, gæti haft eftirlit með gjörðum stjórnarinnar, og varla mun Jóni á öllum sínum langa stjórnmálaferli hafa komið til hugar meira snjallræði en þetta, að knýja stjórnina til að birta gjörðir sínar og nota til þess Bókmenntafjelagið, án þess þó að bendla það við deilumál dagsins — hann varaðist það eins og heitan eld að draga Bókmenntafjelagið inn í stjórnmáladeilur. — Fjelag vort veitti Jóni þannig óbeinlínis góðan styrk í stjórnmálabaráttu hans.

Auk þessara safnrita komu margar merkilegar bækur frá Hd. í stjórnartíð Jóns Sigurðssonar. Nefni jeg af þeim að eins Sálmasöngsbók Pjeturs Guðjohnsens, sem varð til að gjörbreyta sálmasöngnum hjer á landi, Fiskibók Jóns Sigurðssonar og Varningsbók, Minningarrit fjelagsins 1867, Skýrslu um Forngripasafn Íslands I—II, Presta tal og prófasta eftir Svein Níelsson, Kvæði Jóns Thoroddsens og skáldsögu hans Mann og konu. Alls gaf Hd. út í stjórnartíð Jóns rúmar 1410 prentaðar arkir, sem svarar rúmlega 22,560 blaðsíðum í 8 blaða broti.

Jafnframt hjelt heimadeildin áfram bókaútgáfu þeirri, sem hún hafði byrjað í lok næsta tímabils á undan, en allt var það í smærra stíl, því að tekjurnar voru smáar. Telst svo til að bókaútgáfa heimadeildarinnar hafi á þessum árum verið hjerumbil sjöttungur móts við bókaútgáfu Hafnardeildar. Deildin undi því illa að tekjurnar leyfðu ekki að gefa meira út og eitt sinn (1872) var gerð tilraun til þess af deildarinnar hálfu að ná undir sig meiru af árstekjunum hjer á landi, en sú tilraun mistókst í það sinn. Af bókum þeim sem heimadeildin gaf út á þessum árum má nefna hina alþýðlegu

mannkynssögu Páls Melsteðs, Íslenskar rjettritunarreglur, Ísl. málmyndalýsing og Skýring hinna almennu málfræðilegu hugmynda eftir H. Kr. Friðriksson, Úr Hauksbók og Guðmundarsögu, útg. Jón Þorkelsson, Um siðabótina á Íslandi eftir Þorkel Bjarnason, Um eðli og heilbrigði mannlegs líkama eftir J. Jónassen o. fl. og tímaritið Frjettir frá Ísl. sem deildin byrjaði að gefa út 1873. Forsetar Reykjavíkurdeildarinnar á þessum árum voru þeir Pjetur Pjetursson, Jón Þorkelsson og Magnús Stephensen.

Jafnframt bókaútgáfunni lagði Jón Sigurðsson mjög mikla áherslu á að safna handritum til Handritasafns Hafnardeildarinnar. Þegar Jón tók við, átti deildin að eins 37 handrit, en 1217 sex árum eftir dauða hans, og var flestum þeim handritum safnað af honum. Rvd. hafði líka eignast nokkuð af handritum og voru söfn beggja deilda síðan seld Landsbókasafninu, og eru þar nú vel geymd, en líklega væri nú mikið af þessu merka safni týnt og tröllum gefið, ef Jón Sigurðsson og fjelagið hefði ekki haldið handritunum saman.

Meðan Jón Sigurðsson var forseti Hd., datt engum í hug að leggja hana niður. En skömmu eftir dauða hans kemur upp sterk hreyfing í heimadeildinni í þá átt að flytja Hd. heim. Og það er einmitt þessi stefna sem setur mót sitt á hið næsta (þriðja) tímabil í sögu fjelagsins, sem nær frá dauða Jóns Sigurðssonar (1879) til vorra daga. Þær ástæður, sem höfðu lagt mestallar framkvæmdir fjelagsins í hendur Hd. voru ekki framar fyrir hendi. Reykjavík var orðin reisulegur bær og þar var komin miðstöð hins andlega lífs hjer á landi. Prent og annað, sem til bókaútgáfu þarf, var yfirleitt ódýrara hjer en í Höfn og hægt að fá fjelagsbækur prentaðar hjer. Samgöngur innanlands höfðu stórum batnað, svo að nú var bókaútsending frá Reykjavík fullt svo auðveld og ódýr eins og frá Khöfn. Svo vakti það og fyrir mönnum, að það mundi efla menntalíf þjóðarinnar, ef Bókmenntafjelagið yrði algerlega innlent. Af þessum og fleiri ástæðum stafar barátta sú sem nú hefst og miðar að því að flytja Hafnardeildina heim, heimflutningsbaráttan svo nefnda. Þær eru tvær. Hin fyrri heimflutningsbarátta hefst árið 1883 með því, að Reykjavíkurdeildin samþykkir eftir tillögu, sem upphaflega er runnin frá Gesti Pálssyni, breytingar á lögum fjelagsins, sem fóru í þá átt að afnema Hd. Deila þessi milli deildanna stóð í 6 ár og endaði með ósigri fyrir Reykjavíkurdeildina að því er snerti aðalmálið. Hd. tókst að verja tilveru sína með því að neita að bera upp til atkvæða lagabreytingartillögur, sem hin deildin hafði samþykkt á löglegan hátt. En hins vegar vann Rvd. þó það á, að hún hafði fram jafnari skifting á fjelagstekjunum milli deildanna og fjekk aukið starfsvið sitt að nokkru.

Hin síðari heimflutningsbarátta hófst árið 1906 og stóð til 1911. Hún var að því leyti ólík hinni fyrri, að í fyrri baráttunni áttu deildir fjelagsins hvor

við aðra, en síðari baráttan hjelt sjer lengst af innan vjebanda Hd. og stóð þar milli tveggja andstæðra flokka innan deildar; harðnaði deilan milli flokkanna ár frá ári, þangað til allt í einu að allt dettur í dúnalogn árið 1911 og báðir flokkarnir koma sjer saman um frumvarp til nýrra laga, sem fela í sjer tvennt í einu, bæði sameining deildanna í eitt fjelag með heimili í Reykjavík og gagngerða breyting á fyrirkomulagi fjelagsins, sem fer í þá átt að takmarka fundavaldið en auka vald stjórnarinnar og gera hana fastari í sessi. Samningarnir, sem gengu á undan þessu samkomulagi og leiddu til þess, gerðust að mestu bak við tjöldin, og er öll sú saga nú sögð í fyrsta sinn í Minningarritinu, sem fjelagsmönnum verður sent, áður langt um líður. Reykjavíkurdeildin tók auðvitað fegins hendi tilboði Hd.-flokkanna um lagabreytinguna, og voru hin nýju lög samþykkt fyrst á aðalfundi Reykjavíkurdeildar 8. júlí 1911 og síðan á aðalfundi Hd. 31. okt. s. á. Síðan er fjelag vort ein heild með heimili í Reykjavík.

Forsetar fjelagsins á þessu síðasta tímabili hafa verið: Í Rvd.: Magnús Stephensen, Björn Jónsson, Björn M. Ólsen (tvisvar), Eiríkur Briem og Kristján Jónsson; Í Hd.: Sigurður L. Jónasson, Ólafur Halldórsson, Valtýr Guðmundsson og Þorvaldur Thoroddsen. Framkvæmdir deildanna í bókaútg. hafa verið mjög miklar, og skal jeg ekki þreyta fjelagsmenn á því að telja upp bækurnar nema hinar allra helstu. Frá Hafnard. komu Auðfræði Arnljóts Ólafssonar, Ísl. fornsögur I—III, frh. af Safni t. s. Ísl., Kvæði Stef. Ólafssonar 2. útg., Ísl. gátur þulur og skemtanir I—IV, frh. af Fornbrjs., sem byrjar fyrst í Hd. (1888), en síðan tekur Rvd. það að sjer um aldamótin, Landfræðissaga Íslands, 4 bindi, sem byrjar í Rvd., en kemur síðan út hjá Hd., Ísl. ártíðaskrár útg. af J. Þ., Landskjálftar á Ísl. eftir Þ. Th. 1899 og 1906, Flóra Íslands, Ísls. Boga Melsteðs I—II, Bygging og líf plantna eftir H. Jónsson, Lýsing Íslands eftir Þ. Th., Æfis. Jóns Indíafara útg. af Sigf. Blöndal. Frá Rvd.: Tímar. Bmf. 1.—25. árg. 1880—1904, Sýslum.-æfir Boga Bened. I—IV. Þegar Tímaritið hætti, var Skírnir aukinn og endurbættur og hefur hann komið út í þeirri nýju mynd síðan 1905. Við þessa breyting á Skírni brá svo, að fjelagatalan hjer á landi, sem hafði lækkað mjög mikið á árunum 1888 til 1905, fer að hækka hröðum fetum og eru nú í fjelaginu 1200 manns, sem er fleira en nokkru sinni áður. Annars skal jeg ekki fjölyrða um stjórn fjelagsins og framkvæmdir síðan deildirnar sameinuðust, málið er mjer of skylt til þess. Að eins skal jeg geta þess, að fjárhagur fjelagsins er í allgóðu lagi.

Þegar vjer nú að lokum lítum yfir framkvæmdir fjelagsins á hinni liðnu öld, verður varla annað með sanngirni sagt, en að það hafi yfirleitt starfað vel og gert bókmenntum vorum mikið gagn. Ef stofnendur fjelagsins, þeir

Rask og Árni Helgason, mættu líta upp úr gröf sinni, þá er jeg sannfærður um, að þeir mundu gleðjast yfir þeim þroska, sem fósturbarn þeirra hefur tekið, og ekki kvarta undan því, að það hafi brugðist þeim vonum, sem þeir gerðu sjer um það, meðan það var í reifunum.

Í þessu stutta yfirliti yfir sögu fjelagsins hef jeg af embættismönnum fjelagsins að eins minnst á forsetana, af því að það eru þeir, sem aðallega hafa markað þá stefnu, sem framkvæmdir fjelagsins hafa tekið. Þetta er ekki rjettlátt. Aðrir embættismenn fjelagsins hafa engu síður borið hita og þunga dagsins og eiga engu síður þakkir skilið. Lengst af hafa skrifararnir, og á síðari tímum sjerstaklega bókaverðirnir, verið önnur hönd forseta í öllum störfum. Og gjaldkerum fjelagsins, eða fjehirðum, sem þeir hjetu áður, má segja það til lofs, að fjelagið hefur aldrei á þessum 100 árum, svo jeg viti, tapað einum eyri á ráðsmennsku þeirra.

En þær mörgu þúsundir, sem hafa stutt fjelagið á þessum árum með því að ganga í það og leggja því árstillög, eiga líka skilið okkar bestu þakkir, ekki síst hinir mörgu alþýðumenn. Það er einkennilegt fyrir Bókmenntafjelagið og á sjer ekki stað um samskonar fjelög í öðrum löndum, að það á engu síður fjelaga og styrktarmenn meðal óbreyttra alþýðumanna en meðal mentamanna. Þetta sýnir, hve djúpar rætur fjelagið hefur fest í akri þjóðlífsins, og er oss dýrmætur vottur þess, að það hefur, að minsta kosti að nokkru leyti, náð þeim tilgangi sínum að »efla menntun hinnar íslensku þjóðar«. Guð gefi, að fjelag vort aldrei missi sjónar á þessu háa markmiði sínu, og að því auðnist að halda vinsældum sínum meðal alþýðu manna.

Fjelag vort er að vísu ekki auðugt í samanburði við samskonar fjelög í öðrum löndum, en eftir íslenskum mælikvarða hefur það góðan grundvöll til að halda áfram þeim störfum, sem fjelagið á ólokið við, og til að hefja ný störf á þeirri öld sem nú er að byrja. En skilyrðið fyrir þroska þess og þrifum er það, að allir góðir Íslendingar leggist á eitt að styðja það og styrkja og hefja það á hærra stig og hærra, og sjerstaklega að menn vandi vel stjórnarkosningar, svo að ekki verði kosnir aðrir en þeir, sem líklegir eru til að hafa fullt vit á, hvernig fjelagið getur best náð tilgangi sínum, að »styðja og styrkja íslenska tungu og bókvísi og menntun og heiður hinnar íslensku þjóðar«, líklegir til að stjórna fjelaginu með atorku og dugnaði, gætni og hagsýni. Ef vjer leggjumst allir á eitt um þetta, þá er jeg sannfærður um, að fjelagið á sjer fagra og góða framtíð fyrir höndum á öldinni sem kemur.

Þá lýsti forseti *kosningu heiðursfjelaga*, er fram hafði farið á aðalfundi

17. júní síðastl. eftir einróma tillögu forseta og fulltrúaráðs, en frestað hafði verið til aldarafmælisins að birta. Höfðu þessir menn orðið fyrir kosningu:

*Vilhelm Thomsen,* prófessor, dr. phil. R. af E. Stk. af Dbr., Dbrm., í Kaupmannahöfn.

*Axel Olrik,* prófessor við háskólann í Kaupmannahöfn, dr. phil.

*J. E. Sars,* prófessor, dr. phil., í Kristíaníu, Stk. af St. O. O.

*Hjalmar Falk,* prófessor, dr. phil., í Kristíaníu.

*Axel Kock,* prófessor, dr. phil. í Lundi.

*L. Fr. Läffler,* dr. phil., fv. prófessor, í Djursholm.

*W. A. Craigie,* prófessor, dr., í Oxford.

*Paul Herrmann,* prófessor, dr., í Torgau við Elfi.

*R. C. Boer,* prófessor, dr., í Amsterdam.

*Hugo Pipping,* prófessor, dr., í Helsingfors.

*Jón Jónsson,* prófastur, að Stafafelli.

*Jón Þorkelsson,* þjóðskjalavörður, dr. phil., Reykjavík.

Því næst skýrði forseti frá heillaóskum, sem fjelaginu höfðu borist. Las hann fyrst upp eftirfarandi ávarp, sem *Hið íslenska Fræðafjelag* í Kaupmannahöfn hafði sent fjelaginu skrautlega úr garði gert og prýðilega innbundið:

**Hið íslenska Fræðafjelag í Kaupmannahöfn sendir Hinu íslenska Bókmenntafjelagi hjartanlegar heillaóskir á hundrað ára afmæli þess.**

**Í hundrað ár hefur hið íslenska Bókmenntafjelag verið meginþátturinn í íslenskum bókmenntum, stoð þeirra og styrkur.**

**Það var stofnað á þeim árum, er bókmenntir vorar stóðu með litlum blóma, tunga vor var vanhirt og þjóðin sjálf í örbirgð og niðurlægingu.**

**Rasmus Rask bljes því anda í brjóst, og hið besta mannval þjóðarinnar tók til starfa. Síðan hefur fjelagið, kynslóð eftir kynslóð, frætt landsmenn um sögu þeirra, land og tungu, og haldið uppi þjóðlegum vísindum, sæmd og virðingu Íslands utan lands og innan, jafnframt því, sem það hefur frætt þjóðina um það, sem gerst hefur og árlega gerist í öðrum löndum.**

**Vjer ætlum okkur ekki að telja upp verk þau, sem hið íslenska Bókmenntafjelag hefur unnið, heldur að eins minna á, að það hefur gefið út flestöll hin stærstu og merkilegustu vísindaleg rit, sem út hafa komið á íslenskri tungu síðan það var stofnað, auk margra alþýðlegra rita.**

Fyrir allt þetta á Bókmenntafjelagið miklar þakkir skilið af öllum Íslendingum, og ekki síst metur Fræðafjelagið og þeir Íslendingar, sem erlendis búa, hin miklu störf Bókmenntafjelagsins að verðleikum og þakkar því hjartanlega. Í fyrstu átti Bókmenntafjelagið við mikla erfiðleika að búa, en það sigraði allar þrautir, og hefur jafnan vaxið að þrótt og framkvæmdum, ekki síst undir forustu hins ágæta og ógleymanlega forseta Jóns Sigurðssonar. Nú er hið íslenska Bókmenntafjelag bæði öflugt og megandi eftir íslenskum ástæðum.

Fræðafjelagið óskar og vonar, að hið íslenska Bókmenntafjelag megi jafnan á komandi öldum eflast og blómgast, því meir og betur sem árin líða, og ávallt vera meginstoð íslenskra bókmennta, tungu og menningar.

Virðingarfyllst
Hið íslenska Fræðafjelag í Kaupmannahöfn
í Júlímánuði 1916.

*Bogi Th. Melsteð*, forseti. *Finnur Jónsson*, fjehirðir. *Sigfús Blöndal*, skrifari.

Forseti kvað það vera sjerstakt gleðiefni fyrir Bókmenntafjelagið að fá svo hlýjar óskir frá Fræðafjelaginu, sem hefði tekið við af Hafnardeild fjelagsins, þegar hún leið undir lok, og haldið uppi menntastörfum þeim, sem á henni höfðu hvílt, með heiðri og sóma.

Þá las forseti upp svo látandi heillasímskeyti:

*Hið íslenska Prentarafjelag* minnist hins íslenska Bókmenntafjelags á aldarafmæli þess, þakkar vel unnið starf í þarfir íslenskra bókmennta og óskar því alls góðs gengis í framtíðinni.

Í stjórn hins íslenska Prentarafjelags.
*Einar Hermannsson.* *Einar Sigurðsson.* *Jón Sigurjónsson.*

Forseti þakkaði skeytið og kvað það vera einkar kærkomið, þar sem það kæmi frá þeirri stjett manna, sem Bókmenntafjelagið hefði svo mikið saman við að sælda.

Enn gat forseti þess með þökkum, að fyrverandi forseti fjelagsins, heiðursfjelagi þess, prófessor dr. Þorvaldur Thoroddsen í Kaupmannahöfn, hefði sent fjelaginu heillaóskaskeyti með símanum.

Þá las forseti upp svo látandi

Skipulagsskrá
firir Afmælissjóð hins íslenska Bókmentafjelags.

1. gr.

Nafn sjóðsins er Afmælissjóður hins íslenska Bókmentafjelags, og er hann stofnaður af forseta Bókmentafjelagsins, Birni M. Ólsen, á aldarafmæli fjelagsins 15. ágúst 1916, með stofnfje 1000 kr. (eittþúsund krónum), er hann leggur til sjóðsins. Stofnfjeð má aldrei skerða.

2. gr.

Sjóðinn skal ávaxta í útborgunardeild Söfnunarsjóðs Íslands. Að fimtíu árum liðnum frá þessu aldarafmæli, eða árið 1966, fellur öll upphæðin með vöxtum og vaxtavöxtum til útborgunar í hendur stjórn Bókmentafjelagsins, sem þá samstundis skal leggja aftur inn í útborgunardeild Söfnunarsjóðsins hið upphaflega stofnfje, 1000 kr., með samskonar skilmálum, þannig að stofnfjeð ávaxtist næstu 50 árin, útborgist síðan með vöxtum og vaxtavöxtum árið 2016, þó svo að 1000 kr. sjeu þá jafnframt lagðar inn aftur með samskonar skilmálum til næstu 50 ára, og svo skal fara á hverjum 50 ára fresti, þannig að stofnfjeð rírni aldrei, enn vextir og vaxtavextir firir hver 50 ár komi til afnota Bókmentafjelaginu.

3. gr.

Sjóðurinn er eign hins íslenska Bókmentafjelags og stendur undir stjórn þess. Hún annast um að fá konunglega staðfesting á skipulagsskrá þessari. Reikning sjóðsins skal auglísa árlega í tímariti því, er fjelagið gefur út, og í Stjórnartíðindunum.

4. gr.

Fje því, sem til afnota kemur úr sjóðnum á hverjum 50 ára fresti, skal stjórn Bókmentafjelagsins verja til einhvers þess firirtækis, sem líklegt er til að efla tilgang fjelagsins samkvæmt 1. gr. fjelagslaganna, svo sem til einhvers bókmentafirirtækis, til útgáfu ritverks, eins eða fleiri, til verðlauna firir rit, eða einhvers þvílíks, alt eftir því sem stjórninni þikir best henta í hvert skifti.

Reikjavík, á aldarafmæli Bókmentafjelagsins 15. ágúst 1916.
Björn M. Ólsen.

Gat forseti þess, að fjelagsstjórnin hefði á fundi daginn áður veitt stofnfjenu viðtöku og lofað að fara með sjóðinn eftir skipulagsskránni.

Fjelagsmenn þökkuðu gjöfina með því að standa upp.

Þá var sungið niðurlag (VI. kafli) Kvæðaflokksins.

Að endingu mælti forseti þessi niðurlagsorð:

*Að lokum er það mín innileg ósk og bæn, bæn sem jeg vona að þið allir, háttvirtu fjelagsbræður, getið tekið undir af hug og hjarta, að guð, sem ávöxtinn gefur, blessi starf fjelags vors á ókomnum árum, svo að þeir sem lifa næsta aldarafmæli geti litið yfir öldina, sem þá er liðin, með ekki minni, heldur margfallt meiri ánægju en vjer yfir þá öld, sem nú er að hverfa í tímans skaut.*

Undir þessa ósk tóku fjelagsmenn með því að standa upp.

---

Sama kvöld barst forseta með símanum svo látandi kveðjusending til fjelagsins frá *konungi vorum*, verndara þess, svar upp á hollustuskeyti, sem fjelagsstjórnin hafði sent honum um morguninn:

*Sorgenfri Hof 15/8 1916, Kl. 17[42].*
*Bringer Selskabet min hjærtelige Tak og Genhilsen.*
*Christian R.*

---

Um sama leyti barst fjelaginu heillasímskeyti frá Ísafirði, er þessir menn höfðu undirskrifað: *D. Sch. Thorsteinsson, T. Thordarson, Björn Guðmundsson, Grímur Jónsson, Magnús Jónsson, Magnús Torfason, Arngr. Fr. Bjarnason, Guðm. Hannesson, Þorvaldur Jónsson, Sigurjón Jónsson, Karl Olgeirsson, Helgi Sveinsson, Sigfús Daníelsson, Guðm. Bergsson, Oddur Guðmundsson, Pétur Oddsson, Magnús Thorberg.*

Rjett eftir afmælishátíðina kom og símskeyti með heillaósk frá heiðursfjelaga vorum í Kaupmannahöfn, prófessor, dr. phil., Finni Jónssyni.

---

Um sama leyti, sem hátíðin var haldin í Reykjavík, var og haldin

## Minningarhátíð í Kaupmannahöfn.

Fjelagsstjórnin hafði mælst til þess, að fjelagsbræður vorir í Kaup-

mannahöfn vildu minnast dagsins með því að leggja krans á leiði R. K. Rasks í Assistentskirkjugarði í nafni fjelagsins. Tóku þeir vel undir það og lofaði heiðursfjelagi vor, prófessor dr. Þorvaldur Thoroddsen, að gangast fyrir þessu.

Athöfnin fór fram á aldarafmælinu 15. ágúst. Hefur fjelaginu borist um hana svo látandi símskeyti:

*Rasks-hátíðin fór vel fram. Legstaðurinn var fagurlega skreyttur og kransinn prýðilegur. Þorvaldur Thoroddsen hjelt ræðu, Finnur Jónsson orti kvæði. Margir Íslendingar nærstaddir.*

Nánari frjettir af þessari hátíð eru enn ókomnar, þegar þetta er sent í prentsmiðjuna, og verða þær að bíða næsta heftis af Skírni.

---

Að lokum vottar forseti í nafni fjelagsins öllum þeim mönnum alúðarþakkir, sem veittu fjelagsstjórninni aðstoð við hátíðahaldið hjer heima og áður eru nefndir, svo og þeim sem gengust fyrir hátíðinni í Kaupmannahöfn, sjerstaklega prófessor Þorvaldi Thoroddsen. Sömuleiðis flytur forseti öllum þeim, sem sæmdu fjelagið með samfagnaðarskeytum eða með návist sinni við hátíðirnar, hinar bestu þakkir af hálfu fjelagsins.

---

# Kvæðaflokkur.

## Fluttur á hundrað ára afmæli hins íslenska Bókmenntafjelags 15. ágúst 1916.

Eftir ÞORSTEIN GÍSLASON.

---

### I. KÓR.

Frá upphafi vega
um aldanna svið
ýmsir strengir óma
með eilífum nið.

Ýmsir strengir óma
enn hið sama lag,
sem leikið var frá fyrstu
við lífsins stóra brag.

Sem leikið var frá fyrstu
við lífsins gleði' og stríð
og aldrei mun breytast
um eilífa tíð.

Aldrei munu breytast
alviskunnar ráð,
nje lögmálsorð lífsins
í lýða hjörtu skráð.

Lögmálsorð lífsins
þótt leyfi enga töf,
þau verða sem þau voru,
hjá vöggu og gröf.

Þeir verða sem þeir voru
um veröld fjær og nær
hljómar þeirrar hörpu,
sem höndin drottins slær.

Hljómar þeirrar hörpu,
sem hjarta hvert á,
er straumbylgjur eilífðar
strengina slá.

---

Vöggugjöf lífsins
er ljósheima þrá.
En vængir hugans skammt
yfir víddirnar ná.

Að sækja lengra' og lengra
ei látið verður af,
því óskin bendir útyfir
eilífðar haf.

Ljá oss, drottinn, ljós þitt
í leitina þá,
sannleikans leitina,
sálnanna þrá!

Sú, er þrá í sál
eftir sannleika ól,
ljái hún oss ljós sitt,
lífgjafans sól!

## II. SÓLÓ.

Það orðtak stenst í raun, að mennt er máttur,
og menning frelsi, þekking æðri' en völd.
Oss reyndist fjelag þetta sterkur þáttur
í þjóðar vorrar framsókn liðna öld.
Sje þökk og heiður þeim, sem reistu merkið!
þeir þáðu aldrei fyrir störf sín gjöld,
en unnu' af því, þeir vissu þarflegt verkið.
Því verður þökkin líka hundraðföld.

Að sækja þrek í sögu lands og þjóðar
til sóknar nýrri menning fram á leið,
og trúaryl í gneista þeirrar glóðar,
sem guði vígð á þjóðar arni beið;
að leggja veg úr fortíð yfir í framtíð,
í feðra reit að hlynna' að gömlum meið,
en leita' að hæsta sjónarhóli' í samtíð:
að sjá hið farna' og marka' hið nýja skeið.

Þeir vildu þetta; settu markið svona,
er sögu helgað minna skyldi lýð
á forna dáð, en líka vígt til vona
á viðreisn þjóðar, nýja menntatíð.
Við geymum feðra okkar óð og sögur
sem orkugjafa' í þjóðarlífsins stríð.
En sífelt opnast útsýn ný og fögur
um andans starfasvæði himinvíð.

## III. RECITATIV.

Af vopnaburði
er ei vaxinn upp
orðstír Íslendinga.
En frægð þeirra
er af fræðimönnum
og af skáldum sköpuð.

Frá fornu hefur
við fræði alist
íslensk alþýða,
og niðjum víkinga
Norðurlanda
kennt þeirra mæðra mál.

Þetta er heiður,
sem hefja skal
Ísland í áliti heimsins.
Þetta er arfur,
sem ávaxta skal
og gæta, en aldrei glata.

Jafnframt skal upplýsing
alþýðunnar
glæða með gagnlegum ritum.
Finnur leiðir
sá er fræði nam.
En »blindur er bóklaus maður«.

Þannig byrjaði
hinn þjóðkunni
faðir þessa fjelags,
ungur, einförull
útlendingur,
ávarp til Íslendinga.

Landsmönnum þótti,
er þeir litu á málið,
vel og af viti mælt.
— Með þökk er nú geymt
þjóðar-ávarp
Rasks, frá Reynivöllum.

Aldrei fyrri
hafði okkar land
betri gestur gist.
Allt vildi hann skiljá,
öllu kynnast,
hið besta úr rústum reisa.

Leit hann á þjóðar
líf og sögu
glöggu gests auga,
mælti mál vort
og minningum kynntist
eins og innborinn væri.

Því mun þjóð vor
þennan mann
ætíð í heiðri hafa,
og í efstu röð
meðal Íslands vina
rita nafnið: Rask.

Árni Helgason!
þjer ber einnig lof
og þjóðar þökk að færa.
Minnst verður ekki
þessa menntafjelags
án þess að nafn þitt sje nefnt.

Glöggur, gætinn
og giftudrjúgur
og ötull í öllum ráðum
varst þú stoð
og stytta hins unga
fjelags þess fyrstu spor.

Lýst sje nú
yfir legstöðum ykkar
þjóðar lofi og þökkum,
beggja fyrstu
brautryðjenda
og forseta fjelags vors!

## IV. KÓR.

Lifi lærdómsins mennt!
Það sje lýðunum kennt:
hún sje lyftistöng menning og hag!
Fyrir fræðanna ljós
hljóti frægðir og hrós
þeir, sem fjelag vort minnist í dag!

Hverfur öld eftir öld
bak við tímanna tjöld,
en hún týnist ei samt fyrir því.
Sólin öld eftir öld
hnígur kvöld eftir kvöld,
en hún kemur fram aftur sem ný.

## V. RECITATIV.

Það er hróður
og höfuðstyrkur
máls vorrar þjóðar
og menningar,
að óslitnir þræðir
um örlaga vef
ná frá fornöld
til nútíma.

Því að málið
frá morgni landsbyggðar
er óbreytt að mestu
enn í dag,
svo þjóðleg bókvísi
þúsund ára
liggur opin
fyrir lesendum.

Standa til minnis,
sem steinvarðar,
um fjelags vors starfsemi
á fyrsta skeiði:
Sagnarit Sturlu
hins stórvitra
og Árbækur hins fróða
Espólíns.

Lengi mun og
með lofi verða
getið Björns verka
Gunnlaugssonar,
fjelagsins starfsmanns,
er fyrstur gerði
uppdrátt Íslands
í einni heild.

Og hans, sem hjá Óðni
og á Ólymp nam
orðlist, — Sveinbjarnar
Egilssonar,
er setti á Háva mál
Hómers ljóð,
og Völuspá
á Vergils tungu.

En fremur öðrum
skyldi forsetans
minnst, er var allra
mestur í starfi,
leiðtogi lýðs
í löngu stríði
og fremstur starfsmaður
fjelags vors.

Menjar um starf hans
það margar ber,
er vjek aldrei
frá verki hálfu.
Seint mun orðstír
hjá Íslendingum
rjena Jóns
frá Rafnseyri.

Lifi lof þeirra,
er undir leiðum hvíla,
og þökkum sje lýst
fyrir þeirra starf.
En minnumst og hins,
að menn eru á lífi,
sem sæti hinna dánu
með sæmdum skipa.

Því enn sem fyrri
á fjelag vort
andans áhuga
og ástsæld þjóðar,
og nýta starfsmenn
og nafnfræga,
sem eftirkomandi
aldir minnast.

---

Síung rís
sól úr hafi,
allt til að upplýsa
og endurfæða.
Lof sje þjer, drottins
ljósgjafi
og yngjandi aflgjafi,
eilífa sól!

## VI. KÓR.

Guð! Hið liðna þakkar þjer
þessi minnisdagur
fjelags vors. — Þjer falin er
framtíð þess og hagur.
Leng þú, drottinn, líf þess enn
lands til heilla' og þarfa;
gef því ætíð góða menn
gagnleg verk að starfa.

Foldin kæra, fylgi þjer
frægra drengja saga!
Framtíð nýja færi þjer
farsæld alla daga,
auð úr sæ og auð úr mold,
afl til starfa' úr fljóti!
Horfðu örugg áa-fold
æsku nýrri móti!

---

## Eftirmáli.

Rit þetta er svo til komið, að á stjórnarfundi Bókmenntafjelagsins 29. ágúst 1914 var samþykkt, að fjelagið skyldi gefa út Minningarrit aldarafmælis síns 1916, og var forseta falið að sjá um undirbúning ritsins og heimilað að leita sjer aðstoðar í því efni.

Forseti valdi sjer til aðstoðar bókavörð Pál Eggert Ólason, og hefur hann samið fyrsta bálk ritsins — »*Yfirlit yfir sögu hins ísl. Bókmenntafjelags 1816—1916*« — allan nema VII. þátt (»*Deildaskiftingin numin úr lögum*«), sem er eftir forseta. Páll hefur og gengið frá öllum »*Viðaukum*« nema 1. viðauka (»*Fyrsta uppkast hinna nýju laga, sem samþykkt voru af báðum deildum 1911*«); þann viðauka hefur forseti lagt til, og er uppkastið prentað eftir frumriti hans, er hann sendi Sigfúsi Blöndal með brjefi dags. 31. janúar 1911 (sbr. 120. bls. hjer að framan). Skýrsluna um Aldarafmælishátíðina síðast í ritinu hefur forseti samið.

Í ritinu eru myndir af öllum forsetum fjelagsins nema Brynjólfi Pjeturssyni, mynd af honum reyndist ófáanleg, og kemur því eftirmynd af rithönd hans í hennar stað. Mynd af Þorgeiri Guðmundssyni kemur hjer í fyrsta sinn fyrir almennings sjónir, gerð eftir ljósmynd, sem dóttursonur hans Thorgeir G. Becker, hjeraðslæknir í Nakskov, hefur góðfúslega ljeð. Auk þess fylgir ritinu eftirmynd af eiginhandarboðsbrjefi Rasks til Íslendinga 27. febr. 1815, um stofnun fjelagsins (sbr. 6. bls.), og mynd af minnisvarða Rasks í Assistents kirkjugarði.

Reykjavík 23. ágúst 1916.

*Björn M. Ólsen,*
forseti.

## Efnisyfirlit.

**Yfirlit yfir sögu hins íslenska Bókmenntafjelags 1816—1916.**

Inngangsorð . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 3. bls.

I. Stofnun fjelagsins. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 4.— 11. —

R. K. Rask og Árni Helgason. Afstaða við Landsuppfræðingarfjelagið. Boðsbrjef og undirtektir. Kaupmannahafnarfjelagið. Reykjavíkurfjelagið. Stofnun fjelagsins.

II. Hagur fjelagsins. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 12.— 39. —

Styrktarmenn. Styrkur úr almannasjóðum. Vöxtur til 1851. Bruninn 1847. Vöxtur 1851—1916. Lærdómslistafjelagið. Prentsmiðjumálið. Handritasafnið. Fjárhagur.

III. Framkvæmdir fjelagsins . . . . . . . . . . . . . . . . . . 40.— 83. —

Bókaútgáfa. Mæling landsins. Lýsing landsins. Landsbókasafnið. Verðlaun o. fl.

IV. Sæmdir og virðingar, er fjelagið hefir látið í tje . . 84.— 86. —

V. Lög fjelagsins og breytingar á þeim . . . . . . . . . 87.— 91. —

VI. Samband og samvinna deildanna. . . . . . . . . . . . 92.—112. —

Sambandið að lögum. Samvinna. Ágreiningsatriði. Heimflutningsbaráttan fyrri. Heimflutningsbaráttan síðari.

VII. Deildaskiftingin numin úr lögum. . . . . . . . . . . 113.—127. —

Horfur í heimflutningsmálinu 1910. Samningar. Lagasmíð. Hin nýju lög samþykkt. Eignir Hafnardeildar fluttar heim.

VIII. Niðurlagsorð. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 128. —

**Viðaukar.**

1. Fyrsta uppkast hinna nýju laga, sem samþykkt voru af báðum deildum 1911, með athugasemdum sem því fylgdu . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 131.—143. —
2. Stutt æfiatriði forseta Bókmenntafjelagsins 1816—1916 143.—160. —
3. Embættismannatal 1866—1916 . . . . . . . . . . . . 160.—167. —

4. Heiðursfjelagar í Bókmenntafjelaginu frá stofnun þess . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 168.—172. bls.
5. Skrá um vaxtasjóð og peningaeign hins íslenska Bókmenntafjelags á ári hverju frá 1866—1915. . . . 173.—174. —
6. Bækur þær, er hið íslenska Bókmenntafjelag hefur gefið út frá 1866—1915 . . . . . . . . . . . . . . . . . . 174.—176. —
7. Ársbækur frá fjelaginu 1866—1915 . . . . . . . . . . . 177.—185. —

Leiðrjetting . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 186. —

Aldarafmælishátið hins íslenska Bókmenntafjelags 1816 — 15. ágúst — 1916 . . . . . . . . . . . . . . . 187.—209. —
Við leiði Árna Helgasonar. Minningarhátíð í Reykjavík. Við leiði R. K. Rasks. Kvæðaflokkur eftir Þorstein Gíslason.

Eftirmáli . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 210. —

